# RÆÐUR,

fluttar við jarðarför

## Sveinbjarnar Egilssonar,

Rektors og Drs Theol.,

27. dag ágústm. 1852.

---

Gefnar út
að tilhlutun og á kostnað ekkjufrúarinnar,
**H. Egilsen.**

---

REYKJAVÍK.
Prentaðar í prentsmiðju Íslands, hjá E. Þórðarsyni.
1855.

# I.

# Húskveðja,

flutt af

dómkirkjupresti, prófasti herra **Á. Johnsen.**

---

Moldin hlýtur að hverfa til jarðarinnar aptur, hvar hún áður var; — en áður vèr berum hana í jarðarinnar skaut, til grafarinnar, þá dvelur kærleikinn hèr litla stund í sárri endurminníng. Því það er sæt nauðsyn fyrir hina eptirlifendu einmitt á þessum stað, að flytja þeirra andaða ástvin hina síðustu kveðju. Dauði, skilnaður, burtför, hve bitur eru þessi nöfn! hve mjög hrífið þið á hvers manns hjarta með þeim sviða, sem eingin túnga fær lýst? Skyldi nokkur sá vera til, hverjum guð hefir veitt tilfinníng fyrir kærleika, sem hann hefir látið smakka þá gleði, sem kærleikur veitir, skyldi nokkur sá vera til, er lifir í sambúð við elskaða vini, að hjarta hans komist ekki við í innstu fylgsnum, svo opt endurminníng sofnaðra ástvina stendur lifandi í huga hans? Ó, það er húsfaðirinn, sem nú á að út-berast úr hans jarðneska bústað; það er kennarinn, sem nú ætlar að segja skilið við sína fyrri lærisveina, samþjóna og vini; það er vísindamaðurinn, sem nú

ætlar að yfirgefa þann bústaðinn, hvar hann seint og snemma rækti vísindamannsins helgu köllun; það er ektamakinn og faðirinn, sem nú skilur að sýnilegum návistum við maka og börn. Ó, hver af oss, sem stöndum í kríng um þessar líkbörur, á hús og heimili, og finnur ei, hvað önnur eins stund og þessi ber í skauti sèr? Hver af oss, sem hèr erum staddir, og höfum notið tilsagnar hans, sem hèr liggur lík, getur sèð svo þessar líkbörur, að hann ekki renni huga til fyrri daganna, að hann ei lifandi minnist þess, er hann sat við fætur þessa elskaða læriföður, að hann ei af heilum hug þakki honum það þekkíngarsæði, er hann sáði í sálu hans, þann vísinda-anda, er hann blès í brjóst honum, það fagra eptirdæmi sannkallaðs vísindamanns, er hann gaf honum? Hver af þeim, sem fyrr eða síðar vann með honum að sama verki, að menntun hinna úngu, hver af þeim mun fá svo kvadt hann nú í síðasta sinni, að hann ekki af öllu hjarta þakki honum ástríka samvinnu, þakki honum þá mörgu skemmtunarstund, þann margfalda lærdóm, sem hann hefir haft af hans góðlátlegu umgeingni, hans uppbyggilega tali? Hinir seinni samþjónar hans í þessu starfi hafa beðið mig, í sínu nafni að flytja honum þessa kveðju, og eg gjöri það hèr með af heilum hug.

Og hver haldið þèr þá að sè kveðja hinna eldri samþjóna hans, sem, eins og hann, höfðu feingið hvíld frá því verki, hverju þeir, eins og

hann, höfðu helgað allt sitt líf, en ekki enn nú hafa feingið lausn frá þessa lífs fallvöltu veru? Mun ekki þeirra kveðja einnig anda hinum sárasta söknuði, hinu heitasta þakklæti, hinni innilegustu eptirlángan, að fá að vera þar sem hann er, hjá honum, sem tekur vilja fyrir verk, sem setur þá yfir mikið, sem hèr voru trúir yfir hinu minna?

Og þèr, hans vinir og kunníngjar, þèr, sem fyrr eða síðar bunduð vináttu við hann, fáið þèr svo litið þetta náföla lík, að sár sorg ekki skeri hjarta yðar, sár söknuður fylli brjóst yðar, og að þèr af innsta hjartans grunni þakkið honum alla hans tryggð, alla hans vinsemd, öll hans kærleikshót? Já, hver, sem ann þessu landi, hver, sem ann sönnum vísindum, skyldi geta svo litið þessar líkbörur, að hann ei með trega hugsi til þess, að hèr er fallinn sá, sem með sínum lærdómi hefir gjört fósturjörð sinni einhvern hinn mesta sóma, unnið vísindunum ómetanlegt gagn, og sem mundi hafa gjört það enn betur, ef heilsu og lífs hefði leingur verið auðið?

Og hvílík mun þá kveðja þeirra, sem hans hjarta stóðu næst? hve innileg og heit þeirra, sem nutu hans daglegu umgeingni, hverra yndi og stoð hann var, sem misstu með honum það, sem þeim var dýrmætast á jörðu, maka, föður, forsorgara, ráðgjafa og vin? Ó kærleiki, hve mikla gleði, en líka hve óumræðilega sorg býr þú jarðarinnar börnum? Hve opt ollir þú hjartanu þess sviða, sem ekkert

heimslán alveg fær deyft, djúpra ógurlegra sára, sem eingin tímaleingd alveg fær grædt? Og er það þá að undra, þó hún fljóti í tárum, hverri þú hafðir gefið hjarta þitt, þar með þèr hnè í dauðans djúp hennar hálfa líf, — þó börnin grátandi standi í kríng um líkbörur þínar, þar eð það hjartað er kólnað, sem elskaði þau svo heitt, og þau nú eiga eingan föður framar á jörðu? Lèttið á hjarta yðar, kæru ástvinir, með því að þylja guði yðar raunir, að úthella heitu táraflóði; það er fögur fórn hjartanlegrar elsku á gröf andaðs vinar, ástkærs maka, elskandi föður.

En tíminn er kominn, að vèr flytjum líkamann (andinn er hjá guði) úr hans jarðneska bústað í guðs hús, svo að eins og það húsið var hið fyrsta, er veitti honum viðtöku, við hans inngáng í þenna heim, og ávallt síðan var hans kærasti staður, eins sè það líka nú hið síðasta, er hann kveður við sína útgaungu hèðan. En þú, drottinn, vertú styrkleiki þeirra, sem með sárri sorg gánga hèr á eptir líki þeirra ástvinar, og gef þeim að eignast þeirra sálir í þolinmæði. Annastú ekkju hins framliðna, hans afkvæmi, hans ætt; lát marga honum líka af henni kvikna landinu til gagns og sóma. Og eins og vor framliðni heilsaði oss við vora inngaungu í þessi híbýli með þeim sálmi, er vèr nýlega súngum[1], og lèt oss þar með líka sem sjá inn í sína guðelsk-

[1]) Á undan húskveðjunni var súnginn sálmurinn 336 í Sálmabókinni.

andi, sann-auðmjúku sál, eins viljum vèr líka nú, áður vèr flytjum hèðan hans jarðnesku leifar, láta hann sjálfan tala til vor, heyra líka sem af hans eigin munni, hvað hann hefir að segja oss til huggunnar, hvernig hann vill, vèr tökum því, sem hèr er skeð, tökum hverju, sem mætir, og í því skyni sýngja þenna sálm hans:

Guð, sem allri gæfu ræður minni[1].

Ó, svo far þá í friði elskaði maki, elskaði faðir, elskaði vinur, elskaði lærifaðir. Þar er einginn á því heimili, hvers sómi og stoð þú varst, sem ekki blessi þína minníngu; einginn af öllum þeim, sem hèr eru viðstaddir, af öllum þeim, sem þig rètt þekktu, sem ekki með hryggum huga hrópi á eptir þèr sína síðustu kveðju. Far vel í Jesú nafni. Amen.

---

[1]) Nr. 344 í Sálmabókinni.

---

# II.

## Líkræða,

flutt í kirkjunni af
dómkirkjupresti, prófasti herra **Á. Johnsen.**

---

Eg þarf ekki að segja yður, háttvirtu tilheyrendur, þèr vitið það sjálfir, og játið efalaust, að hèr er hniginn til moldar einhver hinn bezti og merkasti sonur þessa lands; að það er dauðsfall einhvers hins mesta' vísindamanns, sem í þetta skipti hefir kallað oss hèr saman í guðs húsi; og eg þykist viss um, að einginn, sem hann rètt þekkti, og sem af heilum hug elskar þetta land og þess sóma, hafi svo heyrt lát hans, að sú ósk ekki hafi hreift sèr í brjósti hans: „Drottinn, gef oss marga honum líka", að hugur hans hafi ekki fyllzt tregablöndnum söknuði. — Ekki hnè hann að vísu til jarðar að vordögum hans lífs, heldur að áliðnu sumri þess; ekki eptirlèt hann ekkju og börn í eymd og örbyrgð, án þess, svo framt honum var unnt, að hafa syrgt fyrir þeirra framtíð; ekki var honum hèðan burt kippt, áður honum gæfist tími og færi á, að sýna, hver hann var, að láta eptir sig liggja menjar dyggðugs og uppbyggilegs lífs. En þó sumri

hans lífs væri farið heldur út að halla; voru sálarkraptar hans samt óveiktir, sem að vordegi þess. Þó hann ekki eptir skildi ekkju og börn í eymd og örbyrgð, þá hefir hún samt misst hann, sem var hennar yndi og stoð, börnin ástríkasta föður, heimilið sína heiðurskórónu. Hann hafði að vísu aflokið miklu í heiminum, leingi verið sómi þess lands, hvers sonur hann var; en það sýndist, sem hann hefði getað verið það mörg ár enn, ef það hefði verið vilji hins alvísa. Já, það sýndist hart nær, sem hann má ske nú mundi verða það hvað mest; því einmitt nú var hann kominn í þá stöðu, sem hann bezt sýndist kjörinn fyrir, að lifa vísindunum, að starfa í þeirra þjónustu, án þess að hindrast þar frá af nokkurri jarðneskri sýslan. Og hver veit, hverju hann mundi hafa afrekað með hans gáfum, hans lærdómi, hans iðjusemi, ef leingra lífs hefði verið auðið, hve mikið vísindin hafa misst við hans fráfall? En lífsstundirnar voru á enda, og dauðans eingill kom, og sókti það, sem skaparans var, og líkaminn andvana liggur hèr, búinn til moldar.

Og með hverju viljum vèr nú heiðra útför þessa mikla manns? Vèr fáum með eingu betur gjört það, en með því að skoða hans líf, að virða fyrir oss hans dæmi; því hvorttveggja var næsta eptirtektavert, fagurt og heiðarlegt, og þess verðugt, að því sè á lopt haldið. Já, lukkuleg sú þjóð, heppið það land, sem á marga honum líka.

Vor framliðni, *doctor* **Sveinbjörn** sálugi

**Egilsson,** var fæddur í þenna heim að Innri-Njarðvík þann 6. marzm. 1791. Foreldrar hans voru merkisbóndinn Egill Sveinbjörnsson og Guðrún Oddsdóttir, sem þar bjuggu. Árið 1801 komu þau þessum syni sínum fyrir hjá konferenzráði Magnúsi sáluga Stephensen, sem tók að sèr að sjá fyrir menntun hans, eins og svo margra annara, hvar á meðal ekki fárra helztu manna sona á landi hèr, með hverjum vor framliðni þannig uppólst, og batt þann kunníngskap og vináttu við, sem ávallt síðan við hèlzt, allt til dauðadags. Hafði hann þar fleiri kennara, og þar á meðal seinast þann, sem lángt er hafinn yfir mitt hrós, stiptprófast Árna Helgason, frá hverjum hann með heiðri útskrifaðist 1810, og hvar eg ætla að hann fyrst hafi lært að þekkja og komizt í kunníngskap við hinn mikla málfræðíng, háskólakennara sáluga Rask, sem má ske með fram gaf tilefni til þess, hverja stefnu vísinda-iðkun hans einkanlega tók, og að það ávallt var hans kærasta iðja, að fást við norræn fornfræði. Eptir að vor framliðni var útskrifaður, var hann fyrst nokkur ár um kyrrt á landi hèr, þar til hann sumarið 1814 sigldi til Kaupmannahafnar háskóla, hvar hann um veturinn eptir nýár — því ferðin niður gekk svo seint — tók hið fyrsta lærdómspróf með miklum heiðri, aðaleinkunnin var *dável*, og svo árið eptir hið annað próf, sem gekk svo vel, að aðaleinkunnin var *afbragðs-vel*, og hann sæmdur opinberu hrósi. Tók hann þá strax fyrir sig guðfræði,

og það með þvílíku kappi, að hann í byrjun ársins 1819 tók embættispróf með bezta vitnisburði. Hefi eg heyrt til þess tekið af þá verandi kennurum háskólans, hve fallegt mál hafi verið á hans skriflegu annsvörum, hve vel geingið frá þeim, og það svo mjög, að fáir hafi gjört það eins vel. Þetta sama ár, sem vor framliðni lauk sèr af við háskólann, var hann strax um vorið settur undirkennari við skólann á Bessastöðum; gegndi hann því starfi, á meðan skólinn var þar. En þegar afráðið var, að hann skyldi flytjast þaðan og híngað til Reykjavíkur, var hann feinginn til að takast á hendur umsjón hans, sem Rektor, þar eð sá, sem í 35 ár hafði haft það starf á hendi, beiddist lausnar frá því, og girntist hvíld eptir svo lángt dagsverk. Sigldi vor framliðni þá á opinberan kostnað um haustið 1845 í því skyni til Kaupmannahafnar, hvar hann var um veturinn, en kom aptur um vorið, og tók við þessu starfi; hafði hann það á hendi, þar til hann veturinn 1851 beiddist lausnar frá því, sem honum allra-náðugast var veitt fyrir liðugu ári síðan. Hver að voru tildrög hèr til, vil eg helzt leiða hjá mèr á að minnast, enda er það líka svo alkunnugt og nýskeð, að því væri of aukið, auk þess að því og öllu þar að lútandi er svo varið, að því væri bezt sem fyrst gleymt.

Vor framliðni var eingiptur; giptist hann 20. d. júním. 1822 júngfrú Helgu Gröndal, sem nú sártsaknandi syrgir hans mikla missi. Hjónaband hans

blessaði guð 12 afkvæmum, hvar af 9 lifa, 3 synir og 6 dætur, sem öll eru ógipt, að tveimur stúlkum undanteknum.

Hvað heilsufar vors framliðna snertir, þá var það allt af gott, þó hann eptir útlitinu að dæma ekki sýndist sterkbyggður, og hann var eingri vanheilsu bundinn; þess vegna kom það öllum svo óvart, þegar hann 14 dögum fyrir sitt andlát allt í einu lagðist í rúmið, eptir að hann kvöldið áður hafði geíngið til rekkju alveg heill og hraustur. Þó lítið á bæri, hafði hann að vísu laungu áður kennt þessa sjúkleika, sem þá lagði hann í rúmið, en æstist nú svo mjög við ofkælíng, að hann þann 17. þessa mánaðar um hádegisbil varð hans dauðamein. Var þjáníngin samt aldrei sérlega mikil, eða að minnsta kosti ekki nema með köflum saman, enda bar hann hana líka með honum vanalegri stillíngu og þolgæði, án minnsta kveins og kvartana, sá dauða sinn fyrir laungu áður, og beið hans rólegur; því þó lífið væri ei leingra, en þetta, var hann samt má ské saddur lífdaga, og samvizka hans sagði honum líka, að hann ekki með ásettu ráði hefði viljað gjöra nokkrum mein. Máli og rænu hélt hann til hins síðasta, svo hann gat gjört þær ráðstafanir, sem hann vildi, kvadt vini sína og sent hinum sína síðustu kveðju.

Hvað gáfur vors framliðna snerti, þá vita allir, vissi hann ei sjálfur, að þær voru sérlega góðar og farsælar: skarpleiki, lipurleiki, smekkur, fegurðar-

tilfinníng, allt hvað eptir öðru, og þess vegna einhver afbragðs-snilld á öllu, sem frá hans hendi kom, allt auðþekkt, sem hann hafði fjallað um. — Fróðleiksvinur og lærdómsmaður var hann hinn mesti, og það munu fáar vísindagreinir hafa verið, á hverjar hann ekki bæri gott skynbragð. Þó voru það einkum norræn fornfræði, sem ávallt voru hans mesta eptirlæti, enda mun líka óhætt að fullyrða, að hann hvorki fyrr nè síðar hafi átt þar í sinn jafníngja, og að vart nokkur hafi ritað eins hreint og fallegt íslenzkt mál og hann, eða eins alveg haft það í hendi sèr, og yfir höfuð verið eins orðhagur. Skáld var hann eitthvert hið lipråsta, og eflaust hið bezta nú lifandi skáld hèr á landi; er margt þess konar til eptir hann, bæði á latínu og íslenzku, og nú seinast útleggíng Hómers kvæða í ljóðum, sem hann því miður ekki entist til að ljúka við, en sem að þeirra dómi, sem þetta hafa sèð, mun vera það meistaraverk, sem einginn mun treystast til eða vera fær um að fullenda. Margt er til prentað eptir hann; að nafngreina það hèr, yrði of lángt, en allt er það auðkennt einhverri sèrlegri snilld og vandvirkni, og þó mun margt enn nú óprentað; því hann var ekki sá, er þæktist af því, sem hann vissi, eða vildi láta mikið bera á því; nei, einginn gat verið lítillátari en hann, og lausari við alla fordyld, einginn hæverskari í sínum dómi um sjálfan sig, og vægari í sínum dómi um aðra; hann þurfti þess ei með að rýra aðra, til að hefja sig.

Í hvílíkum metum hann var fyrir lærdóm, bæði fjær og nær, kom meðal annars í ljós í því, að honum alveg óvitandi árið 1843 af háskólanum í *Breslau* var veitt nafnbót lærifööur í guðfræði. Árið eptir var hann kosinn heiðursfèlagi hins íslenzka bókmenntafèlags, eins og hann líka strax við stofnun hins norræna fornfræðafèlags var kjörinn orðulimur þess. Mun óhætt að fullyrða, að hann hafi verið einn af þeim, sem lagði grundvöll þess, eins og hann líka allt til dauðadags var þess öflugasta stoð, vann fyrir það, með ritum sínum studdi og efldi þess heiður.

Hann var allt af, eins og hann sást, tilgerðar- og hispurs-laus, hægur og hógvær, sí-glaður og góður, smá-spaugsamur, án þess að meiða nokkurn. Eingimn gat verið orðvarari, en hann, og einhver skemmtilegasti maður í fárra vina fèlagi, guðrækinn og guðhræddur, iðjumaður til dauðadags hinn mesti; skipti hann tímanum milli heimilis síns, vina sinna og um fram allt sinna vísindalegu starfa, sem voru hans matur og drykkur. Hvort heimurinn lèt honum vel eða illa, var hann ávallt hinn sami, geðið ávallt spakt, jafnlyndið og stillíngin óhögguð. Einginn gat verið friðsamari en hann, og minna fyrir að leita á aðra, og að komast í stríð. En legðist hann til mótstöðu, var hann þèttur fyrir. Hann var fáskiptinn um hagi annara, og var í því, eins og svo mörgu öðru, mjög ólíkur mörgum á vorum dögum, sem vegna afskiptasemi um annara efni gleyma því, sem sjálfum á herðum liggur. Í

nýbreytni þessara tíma tók hann lítinn þátt; honum leizt ekki á hana, eins og hann yfir höfuð vildi sem minnst bendla sig við heiminn. Hann vissi, að þeir, sem það gjöra, verða opt að gánga í berhögg við hann, en það var ekki eptir hans geði. Hann var of blíður og gæfur til þess, að honum gæti verið það lagið, að beita þeim strángleik, þeirri röggsemi, sem þar til útheimtist, of niðursökkinn í sín vísindalegu störf til þess, að hann gæti viljað eiga miklu við annað að skipta. Hve ástúðlegur maki hann var, hve blíður faðir, hve elskulegur kennari, hve tryggur vinur, þess mun leingi með söknuði minnzt verða.

Slíkur maður er þá hèr úr garði geinginn, og eg vona, að eingum, sem hann rètt þekkti, þyki nokkuð ofhermt af því, sem hèr hefir verið sagt. Oflof átti líka sízt við um hann, sem svo var frásneiddur öllu sjálfshrósi, öllum sjálfsþótta. Og er það þá ekki satt, sem eg í öndverðu sagði, að líf hans hafi verið eptirtektavert, fagurt og heiðarlegt, og þess verðugt, að því sè á lopt haldið? Eða virðist yður ei, að hèr sè það skarð orðið, sem örðugt sè að fylla; það rúm autt, sem fáir sèu færir að setjast í? Ó, von er þá, þó harmur sè á því heimili, hvaðan hann nýlega var úthafinn, þó ekkja hans niðurbeygð fylgi líki hans, þó börn hans með grátnum huga mæni eptir honum, þó vinir hans og kunníngjar sárt harmi hans missi, þó sèrhver, sem ann þessu landi, sem elskar sanna menntun, tregi

fráfall hans, sem var þess sómi, vísindanna útvalið verkfæri.

En er það þá ekkert annað, en sorgarvein, en harmatölur, sem hèr skulu heyrast, eintóm tár, sem hèr skulu renna, sviði saknaðarins einn búa í brjósti oss? Eða, hvar erum vèr þá staddir? Vèr stöndum að vísu í kríng um lík andaðs ástvinar, er dauðinn sleit hart nær hastarlega úr höndum oss; en vèr stöndum líka í kristnu musteri, í guðs húsi, þar sem trúarinnar og vonarinnar raust hljómar, þar sem hið helga orð er boðað, um hvert það heitir, að það veiti bót allra meina. Ó, svo látum oss opna hið hrygga hjartað fyrir þeirri huggun, sem sjálfur himininn lætur í tè; látum oss þakka guði, sem lætur sorg og huggun ávallt haldast í hendur, sem aldrei leggur svo byrði á herðar, að hann ekki líka veiti styrk að bera hana. Og svo látum oss þá vel hugfesta oss þá huggun, sem hèr frambýðst oss, og vor fyrsta huggun er þá þetta: þitt stríð, sæli framliðni, er nú úti, öll mæða þessa lífs á enda; þín leið hèr á jörðu var ekki ávallt blómum stráð, mörg sorg lagðist þúngt á þitt hjarta; þú barst þinn kross með miklu þolgæði, með sjaldgæfri stillíngu; aldrei heyrðist nokkurt óþolinmæðis-yrði af vörum þèr; hvað sem mætti, geymdir þú hjarta þitt rósamt, og guði treystandi. En lof sè guði, nú er því öllu lokið, þitt stríð á enda, þú feingið hvíld; því grafarinnar ró fær eingin jarðnesk mæða, ekkert stundlegt böl framar raskað. Eingill með

brugðnu sverði gætir bústaða hinna framliðnu; inn fyrir þeirra takmark fær ekkert andstreymi brotizt. Já, frið hefir þú nú feingið, sæli framliðni, ekki einúngis grafarinnar frið, heldur líka himinsins. Dauðinn er ekkert, hann er einúngis eitt augnablik, einúngis flutníngur frá hinu ófullkomna til hins fullkomna; dauðinn er uppsvelgdur í sigur; það hefir þú nú sjálfur reynt; þín þrautgóða sál hefir nú hrist af sèr sín jarðnesku fjötur, og laus og liðug flögrar hún nú nær hásæti hins eilífa. Það sem vèr dupti klæddir einúngis leiðum í getgátu og trúum, það er nú bert og nakið fyrir þèr, það sem vèr nú grillum til, líka sem í ljósaskiptum, það sèr þú nú augliti til auglitis. Þú ert nú kominn þángað, hvar brunnur vizkunnar er, ert seztur við þá iðju í hinni himnesku Jerúsalem, sem aldrei lýir. Og svo er það þá að eins hið jarðneska, sem er hnigið í dauðans djúp, og sem vèr nú viljum skila jörðunni aptur, þinn æðri partur lifir enn, og er kominn til andanna rèttu heimkynna, til bústaða hinna sælu himinbúa. Ó, hver veit, nema þinn sæli andi má ske á þessari stundu með hluttekníng dvelji hjá þeim, sem hèr harma þinn missi. Hjarta vort elskar þessa hugsun. Og er það þá ekki, sem vèr heyrum þig frá sælunnar bústöðum hugga þína ástvini, eins og vèr heyrum þig hrópa til þeirra: „Grátið ekki yfir mèr, gætið hófs í yðar harmi; mèr líður vel, mig snertir ekkert jarðneskt böl. Að sýnilegum návistum er eg að vísu frá ykkur farinn, en guð mun vera með

ykkur. Þið hafið að vísu misst ykkar jarðneska föður og forsorgara, en hann lifir samt, sem er skjól ekknanna og faðir hinna föðurlausu; hann mun vera með ykkur. Varpið allri ykkar áhyggju upp á hann, honum er annt um ykkur, hann mun ekki sleppa hendi af ykkur, ekki yfirgefa; þið getið því hughraust sagt: Drottinn er vor hjálpari, vèr viljum ekki kvíða“.

Ó, látum oss því hugstyrkva flytja það, sem af jörðu er tekið, aptur í jarðarinnar skaut; þökkum guði fyrir vors vinar fagra, uppbyggilega líf, fyrir allt það gagn, er hann vann heiminum, fyrir alla þá gleði, er guð veitti honum, fyrir alla þá mæðu, með hverri hann batt hjarta hans enn fastara við sig. Þökkum guði fyrir það, að hann tók hann hèðan í tæka tíð, enn þótt of snemma fyrir oss. Þökkum guði fyrir þann blíða, fagra dauða, með hverjum hann gaf honum að enda sitt líf. Veit oss nú líka, ó faðir, sem honum erum sviptir, og sem með honum höfum misst þann, sem var vorum sambúðum til svo mikillar prýði, veit oss nægð þinnar náðar, svo að vèr líka fáum lifað þèr til dýrðar, oss og meðbræðrum til gagns, og gef landi voru sem flesta honum líka. Send þinn anda, sem líka heitir huggunarinnar andi, hans syrgjandi ekkjufrú, hans föðurlausu börnum, hans harmþrúngnu vinum og hans þjónum, svo að vèr allir megum halda oss til þín í trú og kærleika, og ávallt verðum fastari í þeirri sannfæríng, að allt hljóti að þèna þeim til

góðs, sem þig elska. Já, guð drottinn blessi *þig*, sæli framliðni, og varðveiti *oss*, sem enn þá teljumst í tölu hinna lifendu; drottinn láti sína ásjónu lýsa yfir þig á landi sælunnar, og sè oss náðugur, sem enn þá dveljum hèr í dauðlegleikans landi; drottinn upplypti sínu augliti yfir þig og oss, hann gefi þèr frið útvaldra, og oss frið trúaðra. Amen.

---

# III.

## Líkræða,

flutt í kirkjunni af
prófessor og doctor theol. herra **P. Pjeturssyni**,
ridd. af dannebr.

---

Sem einn af lærisveinum hins framliðna er eg geinginn híngað, til að mæla fáein orð að skilnaði yfir moldum hans, með fram eptir tilmælum nokkurra annara hèr verandi lærisveina hans, og átti eg því bágra með, að skorast undan þessu, sem mig sjálfan lángaði til, að geta látið þá hjartanlegu virðíngu í ljósi, sem eg ávallt hefi borið fyrir hinum framliðna, frá því eg var svo heppinn, að eiga hann fyrir kenniföður; jafnvel þó eg að hinu leytinu undir eins finni til þess, að eg var lítt fær um, að mæla eptir slíkan mann, og eg nú finni til þess, að eg get eingu bætt við það, sem af hálfu kristilegrar kirkju er búið að tala um hans frábæru mannkosti. En það er ekki heldur ætlazt til annars af mèr, en að eg beri einfaldlega fram skilnaðarkveðju viðstaddra lærisveina, sem elskuðu hann og virtu.

Einginn okkar held eg hafi búizt við, að honum yrði kippt svo bráðlega burt frá okkur. Hann var

nú kominn til hvíldar og næðis eptir lánga og dyggva embættisþjónustu, og við bjuggumst allir við, að hann mundi enn eiga eptir nokkra stund ólifaða, og óskuðum fósturjörðu okkar til heilla með, að hann henni til vegs og sóma gæti nú hèr eptir eingaungu gefið sig við þeim vísindalegu störfum, sem honum lètu svo forkunnar-vel. En drottni þóknaðist að hafa það öðruvísi, hans vegir eru órannsakanlegir; hann tók þann framliðna heim til sín, þegar speki hans þókti hentugast, og hversu mikill sem missir og söknuður okkar er, þá eigum við þó, ef við erum kristilega sinnaðir, að geta sagt af hjarta: drottinn gaf, drottinn burt tók, sè nafnið drottins vegsamað; því þessi orð lýsa kristilegu þakklæti og kristilegum söknuði. Kristilegu þakklæti, að því leyti sem kristinn maður þakkar guði fyrir allt gott, sem verður á vegi hans í lífinu, og kristilegum söknuði, að því leyti sem kristinn maður tregar að sönnu missi hinnar góðu gjafar, en lætur þó söknuð sinn stjórnast af undirgefni undir guðs vilja. Við þetta sorglega og hátíðlega tækifæri sèu því þessi orð okkur hugföst: drottinn gaf, drottinn burt tók, sè nafnið drottins vegsamað.

---

Drottinn gaf okkur þenna framliðna bróður; hann var sannarleg guðs-gjöf, og gjöfin var *mikil*. Það er eðlilegt, þó við, meðan við sem únglíngar nutum tilsagnar hins framliðna, tækjum helzt eptir því, hvað ágætur kennari hann var, þó við þá helzt

eins gáfumenn sèu jafnmiklir iðjumenn, og hann var. Vegna sinnar einstaklegu iðjusemi fèkk hann líka tíma til að vanda allt sem hann gjörði, og hann vandaði það allt, því hans næma fegurðartilfinnan leyfði honum ekki að kasta höndunum til neins, eða skilja eptir misfellur eða ójöfnur á nokkrum hlut. En í því lýsti sèr hans frábæra gáfnaljós, að hve mikið sem hann vandaði sig, þá misstist hvorki fjör nè lipurleiki. Þetta kom til af því, að hann hafði fullkomið vald yfir hugsunum sínum, og það gat hann haft, af því hann hafði fullkomið vald yfir málinu, og gat valið hverri hugsun þann snotrasta og heppilegasta búníng. Hafi nokkur maður gjörþekkt eðli íslenzka málsins í þess innstu og dýpstu rótum, þá var það hinn framliðni, og hann ekki einúngis *gjörþekkti* það, heldur var hann því svo *innlífaður,* að það var eins og hann lifði í málinu, og eins og uppspretta málsins lifði í honum, og í ritum hans runnu lifandi straumar hins hreina og fagra máls út um landið, og út um önnur lönd, og gjörðu hann nafnfrægan hèr og annarstaðar, og þó leitaði hann ekki sjálfum sèr frægðar, heldur aflaði málið honum frægðar, af því hann víðfrægði það, og því mun minníngu hans verða haldið uppi af máli okkar, meðan það lifir. Við höfum því tilefni til að þakka guði fyrir þessa miklu gjöf.

Gjöfin var bæði mikil og *góð;* því hinn framliðni var ekki einúngis mikill maður, heldur og góð-

ur maður; góðmennskan auðkennir alla hans æfi; hún lýsti sèr jafnan í hans blíða og ástúðlega viðmóti, í hans gáfuðu og gamansömu viðræðum og í öllu hans dagfari; elskurík umgeingni hans við konu og börn, við vini og vandamenn, og ljúfmennska hans við alla er alkunn; stillíng hans og hugarrósemi var fram í dauðann sjálfri sèr lík; hún var sprottin af kristilegri rót, af óbifanlegu trausti á guðs föðurlegu gæzku, og öll hans breytni lýsir því, að það er kveðið af hjarta, sem stendur í einum sálmi hans:

Ó, hvað veikan það hressir huga,
að hefja klökkva sál til þín;
ekkert mótlæti mig kann buga,
meðan eg veit þú gætir mín;
allt skapað birtir almátt þinn,
alstaðar eg þinn kærleik finn.

Þessi orð sýna okkur, hvaðan hann leitaði sèr sálarstyrks í lífinu, og hvers vegna hann gat tekið dauðanum með þeirri hugarrósemi og undirgefni undir guðs vilja, sem hann gjörði. Líf hans var eins og ljós; það logaði skært og fagurlega, en þó jafnt og stöðugt; af gáfum hans og hjartans blíðu lagði birtu nær og fjær, þángað til hann slokknaði út af, eins og ljós; af því hann var sáttur við lífið, átti hann svo hægt með að sætta sig við dauðann. Nú er ljósið slokknað, nú er hann horfinn oss að sýnilegum návistum, og vor himneski faðir hefir tekið þessa miklu og góðu gjöf til sín aptur. Himnafaðirinn

mun virða okkur til vorkunar, þó söknuður okkar sè mikill, þó eptirsjón okkar sè mikil, því vèr höfum eptir miklu að sjá. Æ, eg vil ekki tala um harm ekkjunnar og barnanna, sem hafa misst blíðasta mann og bezta föður; það væri til að ýfa hjartasár þeirra enn meir, að fara þar um fleiri orðum; eg vil heldur ekki minnast á söknuð vina hans og vandamanna, sem trega tryggvan og ástúðlegan vin, og trega hann því meir, sem þeir betur finna til þess, að það er sjaldgæft á hinum efri árum æfinnar, að nýir vinir geti bætt missi trúrra og einlægra fornvina. En eg tala einkanlega um okkur lærisveina hins framliðna; og þegar eg tala um lærisveina hans, þá get eg talað um alla Íslendínga; því leingi munum við Íslendíngar geta lært af honum, og numið margan fróðleik af ritum hans. Við höfum eptir miklu að sjá, og okkur finnst það nú, eins og missirinn sè óbætanlegur, af því við höfum svo fáa vísindamenn og aungvan til að skipa í skarðið, þar sem hann stóð svo framarlega í flokki okkar, og í mörgu tilliti vissulega fremstur, og það sem eykur á söknuð vorn, er sèr í lagi það, að við eins og sjáum í anda, hve miklu hann enn hefði getað afkastað fósturjörðu okkar til frægðar og heilla, hefði honum unnizt aldur til. En það var drottinn, sem tók hann burtu, og því megum við ekki mögla, heldur ber oss í auðmýkt að beygja oss undir hans vísdómsfulla vilja, og treysta því, að hann einn

veit, hvað bezt hagar, og að hann kallar sín börn burt á hæfilegasta tíma.

Með þessari huggun í hjörtum okkar kveðjum við þá moldir þínar, framliðni kennifaðir. Þitt dæmi skal hvetja okkur, til að lifa kristilega, og leitast við að gagna fósturjörðu okkar, hver í sínum verkahríng. Minníng þín lifir í blessun; hún mun æ lifa heiðruð og elskuð í hjörtum okkar, í hjörtum ástvina þinna, í hjörtum allra góðra Íslendínga; og með ritum þínum hefir þú reist þèr þann minnisvarða, sem tíminn mun eiga bágt með að eyða; sjálfur lifir þú sæll hjá guði; honum sè þökk fyrir þína liðnu æfi; hann gaf þig, hann tók þig burt; hans nafn sè vegsamað. Amen.



# IV.

# Grafskriptir.

## 1. Grafskript[1].

†

Hèr liggur
duptið jarðneska, sem dáið gat,
hjúpur ódauðlegs anda
**Sveinbjarnar Egilssonar** Drs.
Hann fæddist 6. marz 1791;
giptist 20. júní 1822
jómfr. Helgu Benedictsdóttur fædd. Gröndal,
varð kennari við Íslands lærða skóla
27. marz 1819,
lærifaðir í guðfræði 27. nóvember 1843,
skólameistari í Reykjavíkur lærða skóla
27. apríl 1846;
flutti alfari til andanna föður, hvar
hans arfahluti og hugur var,
17. ágúst 1852.
Eptir þreyir ekkja hans og 9 börn,
3 bíðu föður síns í blíð-
heimum.

---

[1]) Prentuð áður á lausu blaði og í „Ný Tíð." 1852, 78. bls.

Hans lærdómur, gáfnasnilld, og smekkvísi,
hæversk glaðværð og hjartagæzka,
hans tállausa tryggð, tilgjörðarlaust
lítillæti og ljúfmennska
áunnu honum
frægð og heiður utanlands og innan,
ást og kærleika og sáran söknuð
vandamanna og vina.
Þegar allt það hversdagslega er fyrir laungu
gleymt, mun hans um aldur getið
verða meðal Íslands helztu
merkismanna;
því
„Sá vísi eptirskilur meira nafn en þúsund
aðrir, og þó hann gángi til hvíldar,
eykur hann það".
Sírak, 39., v. 15.

---

Svo minntist vinar síns
*Þ. Svb.*

---

## 2. Grafskript.

†

Conduntur cineres tumulo,
lux ignea coelo
**Sveinbjörnis Egilssonii,**
qui natus est d. 6. Martii a. d. 1791, collega fuit scholae Bessastadensis ab a. 1819 usque ad a. 1846, rector scholae Reykjavicanae ab a. 1846 usqve ad a. 1851, creatus Doctor Theologiae Universitatis Vratislaviensis a. d. 1843, ab a. d. 1825 Societatis Regiae Antiquariorum Septemtrionalium socius.
Uxorem duxit a. 1822:
Helgam Benedicti Gröndal,
quacum liberos duodecim produxit.

---

Vir egregiis dotibus animi praeditus, ingenio acutissimo, poeta lepidissimus et dulcissimus, Graecae et Latinae linguae cultor sagacissimus; linguarum borealium antiquarum omnium sui temporis investigatorum versatissimus et longe acutissimus interpres, omnem splendorem pulchritudinis et decoris amans.
Habuit amorem principium et regulam totius vitae, vita autem eum docuit, perversos animos amore non esse mulcendos.

---

Ille vixit, amicus Musarum et Apollinis ocellus, dei supremi nomen metuens et amans, gloriam patriae sollicita assiduitate augens, etsi res publicas non tractaret, donec die septimo decimo mensis Augusti

anno domini 1852 animam tranquillo somno leniter exspiravit, sanctum lumen, divina sapientia coelestique amore splendens, sicuti animus eius non fuit nisi sancta tranquillitas pacis et amoris.

---

Omnes docti et iusti eum, e mediis operibus, non solum subtilibus et doctis, sed etiam sublimibus et poëticis, subita morte ereptum lugent; ille enim non solum Islandiae, verum etiam omni cohorti alumnorum Musarum cuiuscunque gentis subtilis et elegans nuntius fuit sapientiae et doctorum studiorum.

---

Desine iam cantum grata Philomela sub umbra,
  Calliope lacrymans, funere tacta, dolet.
Moestaque cur volitas, tenuis fringilla, per auras?
  Desine, et ad bustum iam tibi quaere locum.
Conditur hoc tumulo mortalis corporis umbra;
  Gloria morte carens regna beata tenet.
Audiet in coelis divini carmina Homeri,
  Et datum viva voce Nasonis opus.
Elysiumque colens, nunc accipe laetus amicum
  Doctum, dulciloquum, docte Catulle, tuum.
Ars quoque et ingenium vivunt, et mentis acumen:
  Haec violare licet non, fera Parca, tibi.

---

Μακάροι οἱ πρᾳεῖς, ὅτι αὐτοὶ κληρονομήσουσι τὴν γῆν.
Μακάροι οἱ εἰρηνοποιοὶ, ὅτι αὐτοὶ υἱοὶ θεοῦ κληθήσονται.

Matth.

*B. Gröndal.*

(Latínan snúin á íslenzku)[1].



Dylur mold en á himni lifir
dauðlegar leifar, ljósfögur sál

**Sveinbjarnar Egilssonar,**

sem fæddist 6. marz 1791, var kennari við Bessastaðaskóla frá 1819 til 1846, rektor Reykjavíkurskóla frá 1846 til 1851, varð Doctor í guðfræði við Bresláarháskóla 1843, og frá 1825 meðlimur hins konúnglega norræna fornfræðafèlags. Giptist 1822 Helgu B. Gröndal, og eignaðist með henni tólf börn.

Hann var gæddur frábæru atgjörvi andans, skarpvitur og djúpsær, lipurt og ágætt skáld; hann var hinn skarpasti í griskri og latínskri málvísi, og djúpsæjastur allra þeirra, sem á hans öld stunduðu og þýddu forntúngu norðurlanda. Hann unni allri fegurð, og elskaði allt það, sem var heiðarlegt og gott. Elskan var grundvöllur og leiðarstjarna lífs hans, en lífið kenndi honum það, að elskan er ekki ætíð einhlít í öllum atvikum mannlegrar æfi.

---

Hann var ástvinur menntagyðjanna, og eptirlæti þess guðdóms, sem af er runnin skáldleg fegurð og inndælir hljómar; hann óttaðist og elskaði guð, og jók frægð fósturjarðar sinnar með óþreytanlegri iðju,

[1]) Prentuð áður í 4. ári Þjóðólfs 1852, 361. bls.

þángað til hann, hinn 17. dag ágústmánaðar 1852, leið aptur til drottins, sem hann var áður hjá, eins og heilagt ljós, skínandi af himneskri vizku og elskuríkum anda, eins og líf hans og andi ætíð var heilög kyrrð friðar og elsku.

---

Allir menntaðir og rèttsýnir menn munu harma þann, sem skjótur dauði svipti burtu frá mörgum verkum, ekki einúngis fullum af lærdómi og djúpsæjum skarpleika, heldur og einnig af háleitri og skáldlegri fegurð; því að hann var ekki einúngis fyrir Ísland eitt, heldur og líka fyrir menntaða menn allra þjóða, djúpsær og lipur í rannsóknum vizkunnar og vísindanna.

---

Hættu að sýngja, svalan mæra,
er situr um kvöld í dimmum lund.
Þú hlýtur einnig fórn að færa,
er fagurblíð um harmastund
saunggyðjan krýpur kumlum hjá,
kveinandi yfir fölvum ná.

Von er þú grátir, gyðjan fríða,
geinginn er burtu sonur þinn.
Þókknaðist drottni lands og lýða
að leiða þángað ástvin sinn,
þar sem ei haustið þjakar reyr,
þar sem að gleðin aldrei deyr.

Nú hylur grund und björtum blóma
brostið og dáið augna ljós;
verkin hans æ hjá lýðum ljóma,
þó leiðið prýði eingin rós;
vel sè þèr blíða og bjarta sál,
braut þín er ekki leingur hál.

---

Sælir eru hógværir, því að þeir munu landið hljóta.
Sælir eru þeir, sem friðinn semja, því að þeir munu
guðs börn kallaðir verða.

Matth.

*B. Gröndal.*

---

# V.

# Erfiljóð.

## 1.

### Minníngar-ljóð
eptir
### Sveinbjörn Egilsson.

I.

Sit eg á hugar ljósu leiti,
lít eg eyju frosta hvíta;
lít eg sævar leiðir yfir,
lít eg tind með jökul-linda.
Lít eg geim í ljósi og húmi
líða fram að settum tíðum;
leiði eg sjónum líf og dauða,
lífið deyja og burtu svífa.

II.

Stendur kyrr, þótt geysi um grundir
grimmur dauði og veiti nauðir,
girður ís og glitri ljósu
Garðarshólmi ellivarður.
Sveipar himinn silfurhjúpi
svalan tind og jökul-linda;
það eru gljáar gullinblæjur
geislarósa norðurljósa.

III.

Fósturjörð og björgin bezta,
breiðum girð af öldu-leiðum!
sètta hefir þig dýrðar drottinn
dyggilega styrktar-tryggur!
Faldinn skrúði frosta köldu
fölnar aldrei blóminn kaldur;
hafinn krapta hitans yfir
hann mun vara, og aldrei farast.

IV.

Móður-mold, sem blæju breiðir
blíð á ná, þótt harmar svíði!
það, sem af þèr fyrrum fæðist,
fer til þín, er lífið dvínar.
Sjálf þú fæðir, sjálf þú leiðir
sjóta fjöld að högum völdum;
aptur tekur, og ljær svo líki
ljúfa grund að hinnsta blundi.

V.

Sit eg á hugar ljósu leiti,
lít eg grund og skógarlundi;
yfir lauf og inndælt bifast
aldin-skrúð í daggar-úða;
leika geislar litum ríkir,
ljósir boðar aptanroða;
dropar blunda á blómgum linda,
bliki kasta daggar-rastir.

VI.

Þar eru meiðir margir fríðir;
munarblær í limi hrærist;
ljúfum rómi í rökkurs húmi
rennur andi af himins landi.
Aldin hneigjast; laufin lægjast,
sem leggi að eyru til að heyra;
undur-hljóð með furðu-friði
frævis-tjöldin sveipar öldum.

VII.

Líða margar hlyns frá hörgi
hreima-raddir að eyrum kvaddar:
vopna-hljóð og víga-kvæði;
Víngnis hjaldur á búngum skjalda;
hörpu-eymur, hvellur rómur,
hetjum súnginn á Egils túngu,
dunar í fjarska; svásir svanir
svífa und skýjum daggar-hlýjum.

VIII.

Reistar eru við rætur traustar
reginstofna, viðjum ofnar,
gullnar töflur, að grasi fallnar,
grafnar letri og mynda-safni.
Glóir fold af ægis eldi,
undnum ljóma og grænum blóma.
Aldin hneigjast; laufin lægjast,
lángar að sjá hvað gullið tjáir.

IX.

Fagur er reitur frægra að líta,
falinn blóma og gullnum ljóma;
þar eru nöfn, er lýðir nefna,
numin dauða úr geimnum auða.
Faldinn grænum grása-reinum
girðir hann djúpur ægis hjúpur
meginkaldri marar-öldu,
munaðblárri, unaðgljárri.

X.

Þitt er nafn hjá frægum nöfnum,
nýt er fæddi eyjan hvíta,
ritað á gylltan, gulli smeltan,
glæstan skjöld und meiða tjöldum;
þú, sem mestan heiður og hæstan
hefir af þángri Snorra túngu;
fræddir mig, og feril greiddir,
faðir minn, með iðju þinni.

XI.

Þeir eru meiðir meginfríðir
mætum runnir af sama brunni;
aldin-blómi af frævum fæddum
fastrar iðju, verndur af gyðju.
Frægir sáðu og lýðum léðu
loga, kveikta regns við boga;
þær hefir sólir eflt og alið
uppheims laga-valdi Saga.

XII.

Heil sèrtú, af æðstum alin
uppheims-sjóla, á foldar bóli,
lítil að sjá, en firnum fáin
falin iðja, er guð vill styðja!
Einnig þú í blóma búi
býrð og felst, en ótal dýrðir
kraptur hulinn sjónum selur;
sæðið leiðir að gildum meiði.

XIII.

Það ertú, sem geisla gljáan
gefur sál, og fegrar málið;
það ertú, sem afli nýju
andann mætan verða lætur.
Það ertú, sem beisku bægir
bölvi, og sárum öfundar tárum;
andi drottins, ofan sendur
ást að vekja, böl að hrekja.

XIV.

Þú, sem niður leiðst að láði,
ljúf og vær, úr djúpi tærn;
vizkurík, en samt þig veika
vel skiljandi, hógvær lilja!
Þú, sem sælu æðstur sjóli
sjálfur bjó með krapti nógum;
stoðin lýða, styrkur þjóða,
stöðvað ei, hve máttú deyja?

XV.

Hermir skjöldur harmi faldinn,
helltur yfir tára bifi:
„Þèr sè vel, sem hógvær hvílir,
helgum undinn dauða-blundi;
góðan lèztu guð þinn ráða,
gafst ei um hrósið foldar ljósa;
veitir þèr nú skrautið skæra
skapari þinn fyrir ásján sinni“.

XVI.

„Þín munu verkin mörg að marki
moldum lifa þjóðar yfir;
andans ljós, er kveiktirð' endur,
ei mun deyja á Garðarseyju.
Og þótt sumir öfundar-rómi
allir vilji, að helzt það falli,
þeim skal sjálfum snaran bölvuð
snúin að hjaldri; þrífist þeir aldri!“

XVII.

Sit eg á hugar ljósu leiti,
lít eg eyju frosta hvíta.
Lít eg af aldar lágri foldu
logana skæru um himins boga.
Lofaður sèrtú, ljósum yfir,
lýða sjóli á alvalds stóli!
Lofaður sèrtú, hæstur hafinn!
Heiður sè þèr um veröld breiða!

XVIII.

Dýrð sè þèr og skrautið skæra,
skaparinn góði, faðir þjóða;
fyrir þèr ægir alheims logar
eins í smáu, sem í háu.
Styrk þú veittir og andans orku
Ísaþjóð af mætti góðum;
valdir stað, og ríkum ráðum
rèttan allt í tíma settir.

XIX.

Lof þitt hljómar ljósum ofar,
á loga-braut, í himins skautum;
lof þitt dreymir lilja, er sefur
lilju-draumi blám hjá straumi.
Lof þitt bárur lángar hreifa;
lifir það jökul-tindum yfir;
lof þitt hljómar um öld og æfi,
engla súngið hátt af túngum!

XX.

Sælt er jöfur slíkan að hafa;
slíkan drottinn, engu líkan; —
guð er faðir hverra góðra;
geymir þá í betra heimi. —
Heill sèrtú, að himinstóli
hafinn yfir dauðra grafir,
andinn sæll, að himins höllu!
horfinn svárum jarðar tárum!

*Benedikt Gröndal.*

2.

## Sveinbjörn Egilsson.

I.

Sorti, Ísland! sígur á bjarta
sólu vonar þinna sona:
út er hafinn enn til grafar
einhver mesti þeirra og bezti —
Jónas bæði og Bjarni áður
burtu kipptust, lífi sviptir —
og Helja nöpur heimtar döprum
Hómer vorn að skapadómi

II.

Harpan þegir; því er eigi
þetta kyn að mennta vini
skeri alla, að skyldi falla
skáldið blíða í miðjum klíðum.
Hnípið er land; en leystur andi
ljósra heim til sólar-geima
svífur, þar er svinnur skari
*Sveinbjörns* vonar *Egilssonar*.

III.

Gráttu fold, því fela áttu
fagursmiðinn máls og braga,
snillíng mikinn, snjallan í öllu
og snoturmenni — við atburð þenna;
gráttu björk á grænni mörku,
gráttu rós á blómsveig ljósum;
grátið Braga úr helju hagan,
hann því saung um ykkur löngum.

IV.

En þó að veini stokkar og steinar,
standa norna álög fornu:
traustur fellur eins viður að velli
og veikbyggt fis, eða laufblað visið.
Drottinn jók oss tár, því tók nú
til sín hann strax, fremur en annan.
Hulið ráð, en hulan bráðum
hverfur frá, vèr skynjað fáum.

V.

Burt í friði ljós er liðið,
lærdóms blóm og mennta sómi;
Snorra og Ara er þá farinn
ítur jafni; frónið sýtir.
Verndareingil vèr þar feingum
vorrar túngu fornu og úngu,
því rètta kvistu að rótum misstum
rekja verk hans frægu og merku.

## VI.

Meðan Ísa aldnir rísa
úti á hafi tindar úr kafi,
og meðan íslenzkt mál óbrjálað
mælir þjóð á norður slóðum:
*hans* mun *nafn* í heiðri jafnan
hafið yfir sorta grafar;
*hans* munu *rit*, meðan höldar vita,
halda upp þjóðar frægð um aldur.

*J. Þorleifsson.*

---

3.

# Sveinbjörn Egilsson[1].

Grjótaldar rær gildi
geðreinar þorsteini,
bergmöra glymr bára
bið ek lýða kyn hlýða!
REFR SKÁLD.

I.

„Út heyri ek svan sveita
sáraþorns“, en fornra
minnist benþiðurr meina,
málmfjallaðan gjalla;
nú kveðr ná hinn ítra
Njóts geim-röðuð heima,
þann er af mærðarmönnum
mest vann öld at flestu.

II.

Dapra kveðr hann drúpa
drótt, er fyrrum sótti,
þá var annat hljóð unnar,
ólm at Garðarshólma:
lagðr er nú sá er lögðis
lýðs nam hyggju þýða,
hans kveða horfit svörði
hold, í vígðri moldu.

---

[1]) þessi ljóð eru áður prentuð í 13. ári „Nýrra Fèlagsrita“ 157.—162. bls., og eptir þeim eru þau hèr prentuð.

III.

Autt er út at líta
allt Viðblinda galtar,
köld er utan alda,
eið á norðrleiðir:
frystin sitr þar fóstra
föl í ægi svölum,
æstan fellr af alla
Ýmis blóð, fornra ljóða.

IV.

Hulit var húms í dölum
heims, er þángat beimar
báru nýtir frá neytri
Noregs strönd, ofar löndum,
orð þat, er enn má verða
oss, ef viljum hnossir,
heims í hverfum glaumi
huggun mest og von flestum.

V.

Hulit var oss; þó at, ála,
óð stofnuðu góðan
forn-skáld, fjörnis kindar
fur goðmálgra bura:
hulit var oss, því at eli
ei kunnum vèr gunnar,
því er gjörði sjöt sverða
slíng at orðaþíngi.

VI.

Einum eigum at launa
allt, er fyrnska svalt-a,
þeim er hodd úr húmi
hóf fram mærðar glamma:
hollr var honum at öllu
hinn, er óð gat svinnan —
nú er hann lík; ok Loki
leikr af náinn bleika.

VII.

Hniginn er heims at dómi
hinn, er öld at minnum
opt með ærnri giptu
óð um myrkr ljóða:
hver mun nú, sá er nemi
Nás hallar svo allan
fjörð, of lýsa fyrðum
fornaldar um vè skálda?

VIII.

Hver mun endr, sá er unda
eins kunni vel runninn
Kvásis dreyra hinn dýra,
dáðmæran brag stæra,
þann er áðr fyr öðrum,
óð, kvað stillir ljóða,
glaðr á girzkra þjóða
grund nær Hellusundi?

IX.

Engan veit ek, en ángrs
enn mun þjóð of kenna,
vön mun öld, þó at aldir
enn víki, hans líka;
lengi mun þjóð of þrúngin
þess, er, trega vera,
kunni eins at inna
Yggjar feng fyrir drengjum.

X.

Hnè, þar er hann nam skýja
hallar valdr of aldri,
góðr, við grand ei kendr,
gagnsæll vinr bragna,
sá er einn nam unnum
óðhrærandi mærum
megináss af megni
málmagaldrs at valda.

XI.

Hnè þar hinnstr fornra,
heim sótti guð beimr,
trauðr em ek Tveggja greiða
tannstraum, fræðimanna:
víst var vitr at flestu
vinr minn ok svo hinna,
þeira er gátu salsætu,
sylg Grímnis, lá Hrímnis.

XII.

Farit hafði hinn fróði,
fornan þyl ek horna:
Óðins straum af æði,
endr um mærðar lendur:
sótti glaðr at grýttri
grund Parnassus sprunda,
hafði spurð, nè sparði,
spjöll af Dofrafjöllum.

XIII.

Getit hafði, sá er gotnum
Gauts hyggju vann trygga,
sækidrukk ósvikinn
Sveims úr jötunheimum;
bergja nam á bjarga,
Boðn óx at þat, móðnis,
sunnr leit seimagrennir,
Són á Helíkóni.

XIV.

Óðs kveða endrgæði
allir til snimma fallinn,
daprast hugr af döpru,
drottinn minn, at inna:
„Bráðr, kvað borginmóði,
betr var fyrr of getin,
þá er foldgrepp fylgdum
fimbulheims um geima“.

XV.

„Auð er erfimeiða,
ólmast Rán at hólmi,
elrisgrund, en öllu
Eylúðrs því brúðir:
eyðist forn, sízt, óðr,
ítr hollvinr hvítra
fornra fræðivarna
fór um æginn stóra“.

XVI.

Svo kvað hrafn, en hrafna
heyrði ek orð um þat norðan,
drótt nemi Dvalins rèttu
dýran þátt, um náttu:
flutti -orri, því, atta,
endr feigð lífi rendi,
dauðra dverga græði,
dagg-, — en ek mun þagna.

*G. Brynjúlfsson.*

---

4.

Kveðið

við lát Drs. **S. Egilssonar.**

I.

Þar fèll á fold
enn fjölvitri
Sveinbjörn Egils arfi;
sá bar jafnlyndi
í sorg og gleði,
en gegndi ei skjali guma.

II.

Og þó hamíngjan
honum sýndi
hót hverflyndra vina,
var hann sem klettur,
og veik ei frá
skyldna sinna skeiði.

III.

Þekkti eg
frá úngdóms aldri
ekki líka hans;
var fullorðinn
fárra ára
að menntum og mannúðleika.

IV.

Svona fer dyggð
og dáðrekki,
vit og virkta hvað.
Eitt er þó eð öflga,
sem aldrei deyr:
rykti gott og rómur.

*Þ. Sveinsson.*

---

5.

Við greptrun

Drs. **S. Egilssonar,** 27. dag ágústm. 1852.

Helgaður andi í himins dýrðar sölum
nú hrósar sigri yfir lífsins þraut,
og duptið, snortið dauðans vindblæ svölum,
í drottins friði geymir jarðarskaut.
En hans vèr söknum, harma reyrðir böndum,
hvers trautt jafníngja munum eiga von;
því vèr þess yfir vinar moldum stöndum,
sem vissum dýrstan: Sveinbjörn Egilsson.

*Br. Oddsson.*

Þórlákur Jónsson
29/4. 1878.

# RŒÐUR,

FLUTTAR, 5. D. JÚLÍM. 1856,

VIÐ ÚTFÖR

MADAME

## RANNVEIGAR J. M. THÓRARENSEN,

fæddrar SIVERTSEN.

---

Gefnar út

af ekkjumanninum,

sjera ST. THÓRARENSEN.

---

REYKJAVÍK.

Prentaðar í prentsmiðju Íslands, hjá E. Þórðarsyni.

1857.

# I.

# HÚSKVEÐJA,

flutt af sjera Skúla Gíslasyni,
presti, frá Stóra-Núpi.

---

Sorglegur atburður hefur kallað oss hingað, og sorglegt verk höfum vjer fyrir hendi, að fylgja henni frá þessu húsi, sem nú skilur við það til fulls, að fylgja henni þangað, sem hún verður hulin fyrir augum vorum og vjer sjáum hana aldrei framar hjer á jörðu. Oss fellur það þungt, að skiljast við þá, sem vjer elskum; en lengri skilnað gjörir enginn heldur en dauðinn, og ef hann ber snögglega að hendi, þegar vjer eigum sízt von á, að hann svipti oss þeim, sem vjer viljum ekki missa, þá verður bölið oss sárast, því vjer sviptumst þá gleði vorri allt í einu, og minning hennar eykur harminn yfir því mótlæti, sem á liggur. Og hjer á þetta sjer stað; því fyrir skömmum tíma var hún alhress, sem nú liggur hjer látið lík fyrir augum vorum, og þá hjúkraði hún honum veikum, sem nú syrgir hana látna, og sem missir hennar snertir sárast, af því hann var tengdur henni nánari böndum, en börnin — eptir ráðstöfun guðs sjálfs — eru tengd föður og móður; af því hún var

honum innilegri og hjartkærari, en nokkur annar maður gat verið, svo enginn getur bœtt mein hans, nema sá, sem bœtir allt. Foreldrar syrgja ástríka dóttur, sem var prýði húss þeirra, hafði svo lengi tekið þátt í sorg þeirra og gleði, og aldrei komið fram nema til góðs. Vandamenn og vinir trega hana, því hún umgekkst þá með stillingu og blíðlyndi. Já, hver, sem til hennar þekkti, má trega hana, því hann gat lært gott af henni; eða er það ekki lærdómsríkt, að sjá sakleysi og ljúflyndi sameinað við menntun og kurteisi, þar sem sitt tekur svo opt hverja stefnuna? Verður það ekki að gleðja hvern þann, sem getur glaðzt yfir nokkru góðu, að heyra annars ekki getið nema að góðu, nema að siðsemi í heimi þessum, þar sem nógir eru til að ræna oss sakleysinu, og hafa svo opt sigri að fagna; en nógu margir eru líka til að kasta hinum fyrsta steini á oss, þegar það er misst, og gjöra þeim ómögulegt að standa aptur á fœtur, sem eru fallnir? Guðs barn er í þessum heimi, eins og vatnslind á eyðimörku, sem gefur ferðamanninum styrk, svo hann örmagnist ekki; hann svalar sjer, heldur svo áfram og lofar guð, sem gaf hana; þannig megum vjer lofa guð fyrir sjerhvern bróður eða systur, sem styrkir oss með dœmi sínu, og það er ætíð sorgarefni, að missa þá, sem svo eru; en guð gefur öllum þeim, sem á hann vona, styrk til að sigra allt, svo þeir hafa gleði sína hjá guði þó þeir gráti, þegar vonarlaust harmakvein, eða vonarlaust tilfinningar-

leysi hugar þá, sem leita huggunar hjá heiminum eða sjálfum sjer, og ekki hjá guði. Guð er trúr, og freistar einkis yfir megn fram, hann gjörir þeim dauðann að lífi, sem á hann vona, hvort sem þeir eiga sjálfir að leysast hjeðan, eða sjá sínum á bak inn í eilífðina.

Vjer syrgjum þig, framliðna systir! af því vjer erum veikir; það var vor ósk, að þú værir, þegar faðir vor allra vildi, að þú færir; það var ósk vor, að guð blessaði þig sem húsmóður og móður, að guð gæfi þjer færi og tíma, til að standa í þeirri stöðu, sem þú varst kölluð til, og láta ljós það, sem hann hafði gefið þjer, lýsa fyrir mönnum. En vjer vitum ei, hvers biðja ber; guði, sem veit allt, hefur nú þóknazt að láta von vora ekki rætast, því þessi von var bundin við þennan heim, en það er einungis von hins eilífa, sem aldrei bregzt, og hver er svo djarfur að segja, að vor framliðna hafi ekki eins fyrir það, fullkomnað það verk, sem guð hafði ætlað henni að vinna? Sá, sem ekki hefur gjört sig nafnkunnan af þeim verkum, sem heimurinn heldur á lopt, hefur opt framkvæmt meira í guðs augliti, en sá, sem er öllum kunnur fyrir stórkostlegar framkvæmdir, því guð sjer það, sem mennirnir hvorki geta sjeð, nje vilja sjá, og hann mun opinberlega endurgjalda það, sem hefur dulizt fyrir öðrum. Þegar vjer erum þroskaðir til hins eilífa lífs, veitir hann oss það, en undir því er öll vor velferð komin, að vjer sjeum hæfir, þegar kallið kem-

ur, að vjer sjeum svo ánægðir með ráðstöfun guðs, að vjer möglum hvorki nje kveinum, og þetta hugarfar hafði hin framliðna tamið sjer; guð hafði gefið henni, að taka því, sem að höndum bar, með stillingu og spekt, gefið henni blítt og viðkvæmt hjarta, svo henni fjell það ljett, sem mörgum fellur svo þungt, að afneita sjálfri sjer, og lifa fyrir þann, sem guð hafði tengt henni, að álíta hans velferð sína velferð, og hans mótlæti sitt mótlæti; en hvað gjörir oss að guðs börnum, ef það er ekki þetta hugarfar? því þá erum vjer mest virtir fyrir guði, þegar vjer þjónum öðrum, en ekki sjálfum oss, álítum sjálfa oss skapaða fyrir aðra, en ekki þá fyrir oss. En hver bindur líka hjörtu vor fastara að sjer, en sá, sem hefur þetta hugarfar? því guð blessar þá helzt með elskunni, sem ekki beita valdinu, hann veitir þeim það vald, sem heimurinn þekkir ekki, og engar sögur fara af, en sem þó megnar meira og hefur blessunarríkari ávexti, en það veldi, sem allir verða að lúta og enginn elskar. Það er guðs gjöf, að geta látið slíka elsku í tje hjer í heimi; en elskan til guðs er undirrót hennar, þess vegna þráir hún himininn, því þar hefur hún sigrað allar hindranir, og getur ekki lengur bugazt af neinu; hún getur ekki bundið neinn við heiminn, því þar getur hún aldrei neytt sín til fulls. Það getur opt kostað stríð, þó ekki beri á, að lifa öðrum, og stunda lífs og sálar velferð þeirra; mæðu og sorg ber þá líka að höndum, því fleira er þungt, en á

sjálfum liggur, og umbun kærleikans getur aldrei alveg verið hjerna megin, því hinn innri maður vor verður sjaldan rjett metinn af öðrum; vjer skammsýnir menn dæmum helzt eptir hinu ytra, getum ekki ætíð notið þess, sem einn hefur bezt að bjóða, og heimtum opt meira, en nokkrum er unnt að láta í tje. Samfjelag kærleikans á ætíð við einhverjar hindranir að stríða hjer á jörðu, og svo verður það að vera, því annars mundum vjer ekki óska neins æðra, en þessa lífs; en þannig vekur guð með kærleikanum í þessu lífi löngun til eilífs lífs, þar sem hið góða hrindir öllum tálmunum frá sjer og brýzt fram hindrunarlaust; guð lætur þar allt, sem hann hefur gefið, fá tækifæri til að fullkomnast, og allt, sem vantar í þessu lífi til þess, að vjer getum framkvæmt það góða, sem vjer vildum, veitist þá í ríkulegum mæli. Þessi löngun og von gefur styrk til að lifa, og fögnuð í dauðanum; hún hefur hið eilífa fyrir mark sitt og mið, og þess vegna uppfyllist hún fyr eða seinna, hve nær sem guð sjer það börnum sínum fyrir beztu, því hann er trúr, og freistar einkis yfir megn fram.

Og þó syrgjum vjer, af því vjer erum veikir, en vjer þökkum þjer, himneski faðir! fyrir þennan veikleika vorn; það er þín gjöf, að vjer getum elskað fleiri en sjálfa oss, að vjer söknum þeirra, sem vjer elskum, en getum undir eins látið huga vorn fylgja þeim til þín; vjer þorum að syrgja, því þú gefur oss styrk til að sigra sorgina; vjer fegrum

ekki dauðann fyrir oss, vjer svæfum ekki tilfinninguna fyrir skelfingu hans, vjer vitum, að hann er verðlaun syndarinnar, bæði sjálfra vor og annara. Þú hefur skapað oss til lífsins, og gafst oss anda fyrir eilífðina, og því hryllir oss við hinu hræðilega stríði milli lífs og dauða, þegar allt það, sem oss er gefið, hverfur og bugast fyrir líkamans sjónum, og ekkert verður eptir, nema líkið, sem sver sig í ætt við duptið; og sárast bítur dauðinn á oss, þegar hann ræðst á lífið, meðan það er í fullu afli, og brýtur það allt í einu niður. En guð hefur sent oss þann, sem gekk á móti dauðanum í hinni óttalegustu mynd hans, og sigraði hann, og hefur gefið öllum, sem á hann trúa, krapt til að sigra dauðann, þó hann eyðileggi hina jarðnesku tjaldbúð. Sá, sem gaf oss tilveruna, lætur ekki verk sitt verða að engu, því honum er ekki um megn, að viðhalda sínu egin verki, honum er ekki ómáttugt, að græða dauðans mein, heldur en önnur, og hann finnur bein vor, þó þau sjeu orðin að dupti. Hver mun gefa hinum visnu beinum líf, nema þú, drottinn! þegar þú lætur það almættisorð þitt hljóma: „Kom, lífsandi, og les þig inn í þessa dauðu, svo þeir lifni við“. Hver mun ljetta hinni þungu moldarblæju, er vjer breiðum ofan á hina framliðnu, nema þú, drottinn! þegar lúðurinn hljómar, og þeir, sem í gröfunum eru, heyra rödd sonar þíns, og verða hrifnir fram fyrir dómstól hans? Þú hefur þannig, guð minn! látið bætur liggja til alls, líka þess,

sem þyngst er, og þó líturðu í náð til þeirra, sem gráta þá, sem þeim eru kærastir, þegar þú tekur þá til þín, ef gráturinn kemur af hreinu hjarta og hreinum söknuði, og gleymir ekki virðingunni fyrir þjer og elskunni til þín; þú ert þá athvarf þess, sem grætur, og minnist miskunar þinnar í mótlæti hans; þú græðir, af því þú hefur slegið, gleður, af því þú hefur grætt; að kvöldi gengur grátur í garð, að morgni hefst gleðisöngur; hann hefst, þó ekki sje fyr en að morgni eilífðarinnar; hann er þá fyrirbúinn öllum guðs börnum, og sá morgun er mjög nærri; ein draumlaus nótt liggur milli hans og vor; það er er ekki nema ein nótt, sem skilur nú á milli syrgjandi ástvina og hinnar látnu; hún er sofnuð, og vöknuð hjá guði. Ó! látið þá á sannast, að þjer hafið haft hana kæra, að söknuður yðar sje ekki geðshræring, sem rís upp um stund og hjaðnar svo aptur; látið það á sannast með því, að láta hana taka huga yðar með sjer til guðs, svo þjer gangið í ljósinu meðan dagurinn vinnst, sofnið í friði, þegar nóttin fellur yfir og enginn getur unnið, en vaknið hjá guði, sem þá mun sameina það, sem var skilið um stund, og þó ekki skilið, ef hugur vor nálægir sig guði, því guð er alstaðar nálægur, og hjá honum eru allar hreinar sálir hver annari nálægar, hvort sem þær hafa slitið líkamans bönd, eða stynja enn þá í þeim, og vona með áhyggjusamlegri eptirvæntingu eptir frelsi guðs barna. Þú, sem nú syrgir ástkæra konu, jeg veit, að aðrir

geta ekki vitað, hversu mikils þú hefur að sjá á bak, ekki getið þess nærri, hvað mikið þú hefur að bera, því þó margir hafi reynt sama, stendur þó aldrei eins á fyrir neinum, því hugur vor er margbreyttur, og sorgin fer með sínu móti að hverjum. Ef eitthvað bjátar á, getum vjer sjálfir sjaldnast sagt til harma vorra, og mennirnir sjaldan ráðið bót á þeim, þó þeir vildu; það, sem þeir opt gjöra í bezta skyni, getur skemmt, en ekki bætt, en guð veit, hvað að oss gengur, betur en vjer sjálfir; honum er það ljóst, þó oss sje það óljóst, og hann veitir þeim öllum huggun, sem leita hans. Hann mun líka minnast þín, ef þú leitar hans huggunar, og til annars hefur þú ekki að leita, og enginn vor; þegar hann er með oss, verður sorg og gleði oss til blessunar; hann veri með þjer, og láti sorg þína verða þjer til blessunar! Allir þjer, sem nú harmið hina framliðnu, leitið huggunar hjá hinum ósýnilega guði, og á hinu ósýnilega landi hinna lifendu, því þar er hennar að leita, sem þjer syrgið; þar eru engin tár, ekkert kvein og enginn dauði; sá, sem stefnir þangað, skal ekki smakka dauðann að eilífu; þess fleiri sem æfidagarnir verða, þess yngri verður hann, því hver dagurinn færir hann nær hinni eilífu æsku. Jörðin hefur enga huggun að bjóða, nema þögn grafarinnar, sem er grátlaus, af því hún er líflaus, og sem alla hryllir við, ef þeir eru ekki þegar dauðir, áður en sálin skilst við líkamann. Vjer syrgjum, ekki af því vjer þráum

gröfina, en vjer syrgjum, af því vjer þráum sigurinn yfir gröfinni og dauðanum, af því vjer þráum eilíft líf; en vjer syrgjum líka, af því vjer erum veikir, veikir í trúnni á hinu ósýnilega, svo dauðinn, sem vjer höfum fyrir augunum, skyggir á lífið, sem vjer sjáum ekki, en sem vjer vitum að guð hefur oss fyrirbúið, og höfum því vissa von um; og þó mun guð láta þennan efa verða að vissu, ef hann kemur einungis af breyskleika vorum, því hann þekkir breyskleika vorn; hann mun láta hryggðina snúast í gleði, ef hryggðin vill láta hann stjórna sjer, því hann þekkir ístöðuleysi vort, en hann er trúr, og freistar einkis yfir megn fram.

Stundin er komin til að kveðja þig, vor framliðna! Stundin er komin til að fylgja þjer úr þessu húsi í guðs hús, til að leita huggunar í guðsorði, og fylgja þjer svo að reiti grafarinnar, og sá hveitikorninu í guðs akur; en vjer erum vissir um, að hinn mikli uppskerumaður muni ekki gleyma því á hinum seinasta uppskerudegi, erum vissir um, að vjer sjáum þig aptur í hinu mikla föðurhúsi á himnum, í borg guðs lifanda, þegar öll börnin safnast að föðurknjánum; þar mun eilíf samvist bœta stuttan skilnað, og þaðan munum vjer aldrei fara. Vjer komum til þín, en þú ekki til vor. Látum oss þá ganga hjeðan; það ljettir oss þennan gang, að vjer vitum að frelsi vort nálægist. Amen.

---

# II.

# LÍKRŒÐA,

flutt í Hraungerðiskirkju
af
sjera J. K. Briem,
prófasti, frá Hruna.

---

Veröldin líður undir lok og hennar lysting, en sá, sem guðs vilja gjörir, lifir að eilífu. Lát oss, ó drottinn! aldrei gleyma þeim lærdómi, sem liggur i þessum orðum, svo að vjer aldrei verðum án þeirrar huggunar, sem einnig í þeim er; lát oss aldrei gleyma, að þessi heimur, og allt, sem í honum lystilegt þykir, líður undir lok, og það af því, sem oss hefur verið veitt, það getum vjer misst, þá minnst vonum varir. En lát oss heldur aldrei gleyma, að þó heimurinn, og allt, sem í honum er, líði undir lok, þá lifir þó sá að eilífu, sem þinn vilja gjörir. Ó, hjálpa oss, himneski faðir! að vjer ætíð höfum þinn heilaga vilja í huga og hjarta, og ætíð leitumst við, að breyta eptir honum, svo að bæði vjer, hvað helzt sem í þessu lífi kemur fram við oss, og svo vinir vorir eptir vorn dag, geti huggun haft af því huggunarríka fyrirheiti: sá, sem guðs vilja gjörir, lifir að eilífu. Amen.

Sorglegur atburður hefur safnað oss saman, og vjer, sem hjer erum saman komnir tökum án alls efa allir hlutdeild í sorg þess vors bróður, sem hjer hefur misst ástkæra konu, í sorg þeirra for-

eldranna og systkinanna, sem trega elskaða dóttur og systur. En þó sorg sje í huga vorum, þá syrgjum vjer þó ekki eins og þeir, sem enga von hafa, og vjer viljum ekki láta hugann hvarfla hingað og þangað, svo sem villtan vega, heldur viljum vjer halda honum við veginn, þann veginn, sem undir eins er sannleikurinn og lífið, þann veginn, sem leiðir í allan sannleika og til hins sanna lífs. Ó, gjörum vjer það af alvöru, þá styrkist í oss vonarinnar vissa og trúarinnar traust, en því vissari sem vonin er, og því traustari sem trúin er, því meir og því betur finnum vjer krapt huggunarinnar í hjörtum vorum. Að vísu finnur sá, er sjer heldur til Hans, sem er vegurinn, sannleikurinn og lífið, að vísu finnur hann, ekkert síður en aðrir, til þess, sem mæðulegt er í mannanna lífi; að vísu brjótast andvarpanir fram af brjósti hans, er hann íhugar, hversu allt í heiminum er óstöðugt, og hversu það líður undir lok; að vísu fram knýjast tár af augum hans, þegar hann verður fyrir miklum missi, og sorg og söknuður sækir hann heim; en huggunin er honum þó ætíð harðla nærri, og á honum rætist það, að þegar þörfin er mest, þá er hjálpin og huggunin næst. Þess vegna, látum oss leita hans, og halda oss til hans, sem er vegurinn, sannleikurinn og lífið, í öllum þessa lífs hörmum, einnig í þeim, sem nú eru oss næstir. Ó, hversu margt hefur hann oss kennt og kenna látið, það, er oss má hugga í hörmum vorum, það, er oss má styrkja í stundar-

stríði voru hjer í heimi. Vjer höfum þegar minnt oss á eitt, vjer höfum minnt oss á þessi lærdómsríku og huggunarríku orð: „Veröldin líður undir lok, og hennar lysting, en sá, sem „guðs vilja gjörir, lifir að eilífu". (1. Jóh. 2, 17.) Látum oss gefa gætur að þessum orðum oss til lærdóms og huggunar.

Veröldin líður undir lok og hennar lysting. Hver er sá, sem það ekki viti? hver er sá, sem ekki hafi reynt, hversu fallvalt og forgengilegt það er, sem oss í heiminum veitist, ekki einungis allt heimsglysið og öll hans fordild, ekki einungis það, sem lítils vert er í sjálfu sjer, heldur einnig það, sem mikils vert er í rjettri raun, einnig það, sem vjer með fullum sanni köllum guðs góðar gáfur? Lífið er sú dýrmætasta gjöf, sem guð hjer gefur oss; en hversu fallvalt og forgengilegt reynist opt þetta jarðneska líf, eins þar, sem ekki leit út til þess, að það mundi verða svo fallvalt, og svo er varið öllu, sem oss er gefið af þeim jarðnesku gæðum; já, þó vjer hefðum á einhverju enn meiri mætur, þó eitthvað væri oss enn kærara, en vort eigið líf, þá gætum vjer ekki haldið því að heldur, heldur hljótum vjer á tilsettum tíma við það að skilja. Þetta vita allir; reynslan kennir það svo ómótmælanlega, að enginn getur um það verið í nokkrum efa; og þó erum vjer svo opt á það minntir í heilagri ritningu, þó er það svo opt tekið fram í guðs heilaga orði, hversu að lífið sje

fallvalt, og allt annað, sem í heiminum er, forgengilegt. Til hvers mun þetta, sem reynslan svo ómótmælanlega, og opt svo tilfinnanlega kennir, til hvers mun það svo opt vera tekið fram í guðsorði, og vjer svo opt á það minntir? Til þess, að vjer gefum gætur að því optar en þá, þegar reynslan færir oss sanninn heim; til þess, að vjer athugum það, áður en vjer sjálfir verðum að reyna það; til þess, að missir og mæða ekki komi oss óvart, ekki hitti oss óviðbúna.

Þegar guðsorð setur oss þetta fyrir sjónir, hversu allt er fallvalt og forgengilegt, hversu að veröldin líður undir lok, og allt, sem í henni er, öll hennar lysting, allt, sem oss í henni lystilegt, ágætt og ákjósanlegt þykir, þá áminnir það oss undir eins: elskið ekki veröldina, bindið ekki hjarta yðar við heiminn, ekki heldur við þá hluti, sem í heiminum eru. Ó, sannlega er það skylt, að vjer gleðjumst af, og þökkum guði allt hið góða, sem hann veitir oss, en það ber oss þó jafnan að hafa í huga, að þessa heims gæðin, þau gæðin, sem oss einungis hjer í heimi er ætlað að njóta, eru fallvölt og forgengileg, eins þau, sem oss eru allra dýrmætust; svo er vort eigið líf, svo er líf þeirra, sem oss eru kærir, svo eru samvistir vor og þeirra, sem vjer elskum.

Þannig undirbýr guðs orð oss og til býr, að vjer verðum, svo sem oss vera ber. Það gefur oss tilefni til að hugleiða það, sem reynslan kennir

og minnir oss á, við hverju vjer megum búast, svo að vjer sjeum við búnir, hvað sem að höndum ber. En þó vjer vitum, hversu fallvalt og forgengilegt allt er, þó vjer viljum, eins og guðsorð kennir oss, vera viðbúnir að bera hvað helzt á oss leggst, þá getur söknuðurinn samt orðið sár, og sorgin þungbær, þegar vjer missum það, sem oss er kærast af öllu. En hann, sem er vegurinn, sannleikurinn og lífið, hann skilur ekki við oss á miðjum vegi, heldur leiðir hann oss alla leið, þangað sem vjer finnum hvíld; hann fer ekki frá oss, þá vjer höfum lært að þekkja þann sorglega sannleikann, heldur leiðir hann oss í allan sannleika, og kennir oss að þekkja einnig þann gleðilega sannleikann. Hann yfirgefur oss ekki án huggunar í hörmum vorum, heldur gefur hann oss þá huggun, sem enginn annar og ekkert annað getur oss gefið. Víst að sönnu líður veröldin undir lok, og öll hennar lysting, einnig sú lysting, sem sá, er syrgir, hefur á því að syrgja, því sá, er syrgir, hefur ekki lystingu á glaum og gleði, heldur á sorg og söknuði, og honum finnst það nokkurs konar svölun fyrir sálu sína, að hugsa um það, sem vekur harma hans aptur og aptur. Víst að sönnu líður einnig þessi lysting undir lok, þá frá líður, og sorgin missir sinn sárasta brodd; en þessi sefun sorgarinnar er engin huggun, heldur er þetta dofnun tilfinninganna, sem engan veginn er huggunarleg. En um leið og guðsorð minnir oss á allra hluta fall-

valtleik, um leið og það minnir á, að vjer eigum að vera viðbúnir að missa hvað helzt, sem oss er gefið á þessari jörðu, þá gefur það oss undir eins, oss til sannrar huggunar, hin huggunarríkustu fyrirheiti, svo sem þetta er: Sá, sem guðs vilja gjörir, lifir að eilífu. Ó að þetta fyrirheiti hjá oss hefði sinn fulla krapt. Hversu mikil huggun liggur í þessu fyrir oss, þegar vjer hjer missum þá, sem oss eru kærir, og sem vjer vitum að höfðu vilja og viðleitni á, að gjöra guðs vilja? Hversu hugann hreystandi og kraptinn styrkjandi í lífsins erfiði og mæðu, hversu uppörfandi oss, til að bera vora byrði þolinmóðlega, og vinna vort verk trúlega, eptir guðs vilja, er þetta, að vjer þá megum hafa þess vissa von, að fá að lifa að eilífu, — því það, að lifa að eilífu, það er sama sem að vera sæll eilíflega, að njóta í guðs himneska dýrðarríki þeirrar eilífu sælu, sem guð hefur sínum útvöldu frá upphafi fyrirbúið.

Hvað getur verið huggunarríkara, en sú von og trú, að þeir, sem vjer elskum, sjeu þessarar sælu njótandi orðnir, og að einnig vjer munum hennar hluttakandi verða, sú von og trú, að sjálfir vjer og vorir sælu vinir munum verða samarfar í lífsins náðargjöf, munum í sömu sælu saman lifa eilíflega. Guð, vor himneski faðir, gefi oss öllum lífsins náðargjöf! Hann gefi það, að vjer og vorir vinir, já, að allir vjer, sem hjer hljótum, og opt svo skyndilega, að skilja, aptur söfnumst saman í

hans sæluríki. Ó, bræður mínir elskanlegir, látum ekki vanta það, sem af oss útheimtist til þess, að þessi vor ósk og bæn geti uppfyllt orðið; gefum gætur að, hverjum fyrirheitið er gefið: „Sá, sem guðs vilja gjörir, lifir að eilífu“. Svo leggjum þá, samkristnir bræður og systur! alla ástundun á að gjöra guðs vilja, upp á það, að vjer verðum fyrirheitisins hluttakendur, getum þessa heims huggað oss við, en annars heims öðlazt það, sem það lofar. Vissulega, þess betur, sem vjer þetta gjörum, þess grundvallaðri verður von vor, og þess óbilugri huggun höfum vjer bæði í lífi og dauða af þessu huggunarríka fyrirheiti: Sá, sem guðs vilja gjörir, lifir að eilífu. Lífsins þrengingu munum vjer þá álíta bæði skammvinna og ljettbæra, er vjer lítum til þeirrar yfirgnæfanlegu eilífu dýrðar, sem á síðan mun oss augljós verða, og dauðann munum vjer þá álíta svo sem lífsins dyr, svo sem inngang til hins eilífa lífsins. Allt þetta munum vjer gjöra í traustri trú til hans, sem oss kenndi að þekkja veginn, sannleikann og lífið, til hans, sem lífið og ódauðlegleikann í ljós leiddi, til hans, sem kenndi oss að þekkja guðs vilja, kenndi oss, hvernig vjer í þessum heimi lifa ættum guðs vilja samkvæmt, svo að vjer í öðrum heimi mættum njótandi verða þess eilífa lífsins, sem hann hefur í ljós leitt og oss afrekað. Hans vegna getum vjer þá, bæði með tilliti til þeirra vorra vina, sem á undan eru farnir, og svo til

sjálfra vor, sigri hrósandi sagt: Dauði, hvar er þinn broddur? gröf, hvar er þinn sigur? lofaður veri guð, sem oss gefur sigurinn fyrir drottin vorn, Jesúm Krist.

Veröldin líður undir lok og hennar lysting, einnig það ágætasta og dýrmætasta af þessa heims gæðum. Hjer er einn þess talandi vottur — talandi, þó varirnar þegi, — talandi til hjartna vorra, því þessi vor sofnaða systir, hverrar líf svo fljótt leið á enda, hafði margt það til að bera, sem lífið ágætir, og sem dýrmætt má vera þeim, er það þekktu, og sjer í lagi þeim, er henni næstir stóðu. — Látum oss hjer líta yfir líf hennar, minnast hinna helztu atriða lífs hennar, að því leyti þau eru oss kunnug.

Prestskonan sáluga **Rannveig Júlíana Margrjet Thórarensen** var fædd í Reykjavík 27. dag októbermánaðar 1820. Foreldrar hennar voru kaupmaður Sigurður Sivertsen, Bjarnason, riddara, og kona hans, madame Guðrún Guðmundsdóttir Thordersen, alsystir biskups vors, herra Helga; og eru báðar ættir hinnar framliðnu þannig þjóðkunnugar. Madame Rannveig sáluga ólst upp hjá foreldrum sínum, sem, eins og alkunnugt er, ekkert spörnðu til þess, að afla börnum sínum þeirrar menntunar og menningar, sem kostur var á. Eptir að þau höfðu aflað þessari dóttur þeirrar menntunar, sem henni varð aflað hjer, sigldu þau með hana til Kaupmannahafnar árið 1833, og komu henni

þar fyrir til kennslu á góðum stað, þar sem hún dvaldi rúmlega $2^1/_2$ ár. Nam madame Rannveig sáluga á þessum árum margt og mikið, bæði í bóklegum menntum og ýmsum hannyrðum, og varð í hvorutveggja þessu sjerlega vel að sjer. Í tungumálum kunni hún, til dæmis að taka, auk íslenzku og dönsku, bæði þýzku og frakknesku, og þó bezt ensku, sem hún talaði fyrirstöðulaust við útlenda menn. Í sönglyst og hljóðfæraslætti var hún og afbragðsvel að sjer. Árið 1836 kom hún aptur til landsins, og var eptir það hjá foreldrum sínum, þangað til 1855; kenndi hún á þessum árum mörgum stúlkum ýmsar kvennlegar listir. 1854 giptist hún prestinum, sjera Stefáni Thórarensen, sem nú, eptir ekki fullra 2 ára samveru, varð að sjá henni á bak. Í fyrra sumar seint fluttu þessi ungu hjón sig hingað að Hraungerði; en áður en árið var liðið, urðu þau að skilja; snemma í næstliðnum mánuði tók hin framliðna þungan sjúkdóm, sem dró hana til dauða eptir $2^1/_2$ viku legu. Hún andaðist, eins og oss er kunnugt, fyrra mánudag, 23. dag júnímánaðar 1856.

Svo fallvalt reyndist hennar jarðneska líf. Og hversu opt reynist það ekki svo? Hversu margur hefur mátt segja, eins og Ezekías: „á miðjum degi míns lífs hlýt jeg að ganga í gegnum dauðans dyr; — þú endar daginn fyrir mjer, áður en kveldið er komið“. Og að vísu er þetta sorglegt fyrir þá, sem eptir lifa, en þó einkum og allra helzt þá, þegar

þeir einnig að öðru leyti hafa eptir miklu að sjá, þegar þeir missa það, sem þeir töldu líf síns lífs, síns lífs mestu og beztu gleði. Því meiru sem eptir er að sjá, því meiri verður sorgin og söknuðurinn; og vjer getum vel getið nærri og tekið þátt í sorg þinni, sorgmæddi ekkill! því vjer vitum það, að þú átt eptir miklu að sjá, að þú hefur misst ástúðlegusta konu, sem var lífs þíns mesta og bezta gleði. Vjer vitum það, að þessi framliðna var gædd mörgum góðum gáfum, að hún var mæta-vel að sjer í mörgum greinum, og mörgum mannkostum búin; að hún hafði næmustu tilfinningu fyrir því, sem fagurt er og gott; að hún hafði til að bera mikla stillingu og staðfestu; að hún var trygg og trúföst vinum sínum, ástrík við þá, er hún unni, og góðsöm við alla. Vjer vitum það, sem mest er um vert, að hún vandaði allt sitt ráð í öllu sínu framferði, eins og guðs vilja er samkvæmt. Vegna alls þessa er vissulega eptir miklu að sjá; en vegna þess höfum vjer líka þá vissu von og traustu trú, að hún sje fyrirheitisins hluttakandi orðin, að hún nú lifi eilífu lífi í eilífri sælu. Og þess vegna, kæri vinur! þó mikill sje missir þinn, þá minnstu guðs fyrirheitis, og huggaðu þig við, að sá, sem guðs vilja gjörir, lifir að eilífu. Huggunarinnar guð gefi þjer, og öllum, sem hana syrgja, og hennar sakna, hjer við að huggast, og svo að lifa, að þó þeir nú skilji við

hana með sorg, þá megi þeir hana aptur í fögnuði finna, og með henni lifa að eilífu.

Látum oss, bræður mínir! oss, sem nú höfum hjer fyrir augum þennan vott þess, hversu að hið jarðneska lífið er fallvalt, og öll þess gæði, og allt þess ágæti forgengilegt, látum oss öllum þetta sagt vera: Veröldin líður undir lok, og hennar lysting; búumst ekki við öðru, en að vjer, og má ske þá minnst vonum varir, megum missa það, sem oss er kærast á jörðunni. Búumst ekki við öðru, en að sjálfir vjer, og má ske þá minnst vonum varir, megum skilja við heiminn, og við allt það, sem í honum er. En látum oss líka þetta sagt vera: Sá, sem guðs vilja gjörir, lifir að eilífu. Undir búum oss, að vjer, þegar vjer hjer við skiljum, fáum að lifa að eilífu, fáum öðlazt hið eilífa lífið; undir búum oss með því, á þeim dögunum, sem enn gefast oss, að gjöra guðs vilja; undir búum oss með guði þóknanlegu líferni, svo að vjer sjeum viðbúnir, þegar kallið kemur, og getum gegnt því með gleði, með gleði af þeirri von og trú, að vjer, fyrir verðskuldun frelsara vors, munum fá með honum og öllum útvöldum að lifa að eilífu. En þú, vor góði guð og faðir! hjálpa oss til að undir búa oss þannig. Lof og þakkir sjeu þjer fyrir alla þá huggun, sem þú veitir oss í lífsins hörmum, og fyrir þann styrk, sem þú gefur oss í lífsins stríði. Lof og þakkir sjeu þjer fyrir það þú hefur gefið oss þau dýrðlegu fyrirheiti, sem fullvissa oss um,

að sá, sem þinn vilja gjörir, lifir að eilífu, að dauðinn er lífsins dyr, inngangur til hins eilífa lífsins fyrir alla þá, sem þinn vilja gjöra og þinnar velþóknunar leita. Hjálpa oss öllum, himneski faðir! að vjer finnumst í þessara tölu. Styrk oss til alls góðs æfinlega. Gef oss náð til, að vjer gjörum þinn vilja, svo að vjer fáum með þjer að lifa eilíflega. Meðan vjer erum í heiminum, þá geym þú vor við illu, en þegar þú kallar oss hjeðan, þá fullkomna þitt verk; meðan vjer erum í heiminum, viljum vjer gefa þjer dýrðina, sem tilheyrir þjer einum, en þegar þú kallar oss hjeðan, þá gef oss þá dýrð, sem þú hefur þínum útvöldu fyrirbúið frá upphafi veraldar. Heyr oss og bænheyr, himneski faðir, fyrir þinn son, vorn drottin, Jesúm Krist. Amen.

---

# III.

## GRAFSKRIPT.



**Hjer hvílir**
**hinnstum blundi**
prestskonan Madame **Rannveig J. M. Thórarensen,**
fædd Sivertsen.
Hún fæddist 27. d. októberm. 1820,
giptist 26. d. ágústm. 1854
Stefáni Thórarensen,
og andaðist 23. d. júním. 1856.

Mjúkur er nú
þinn moldarbeður,
því að guðs hönd
gröf þjer reiddi;
sætir munu draumar
og svefninn vær,
því að sakleysi
og siðprútt hjarta,
ástin eilífa

og ótti drottins
lífs föruneyti
leiddrar gæta.
En á gröf þína
ástheit tár
harmi fegins
hrynja maka.

---

Hrörnar líf,
heimar kvíða,
hverfur allt í allt;
en í guðs skauti
glaðar fagna
leystar sálir
lífgjöf dýrri.

*G. Thórarensen.*

---

# IV.

# MINNINGARLJÓÐ

eptir

## Rannveigu J. M. Thórarensen.

1.

Sárt er að þreyja, sárt að skilja;
sárt er að horfa á leiði þitt,
og harma þunga þó að dylja;
— það er hið stranga hlutfall mitt.
Hvenær mun faðir himna vilja,
hjartanu þessu að verði frítt? —

Sárt er að þreyja; holdið hjúpi
hulið er moldar, bleikt og kalt,
en yfir þessu þagnardjúpi
þollausum fótum stend eg valt.
Á jeg að halda af himni drjúpi
huggun ei nein, er missi' eg allt?

Finn eg þá ekki friðun neina?
Faðir, æ, jú! eg missti' ei allt:
þig hef jeg enn, og ættíð eina,
ei sem mig, Dauði! ræna skalt,
minningu lífsins helga' og hreina,
holdið um stund þó blundi kalt.

Man jeg þitt, Rannveig! hreinast hjarta,
hjartað það tryggva', er gafstu mjer,
man jeg það æ, hve blíðan bjarta
blessuð mig gagntók, öll frá þjer;
þó móti bljesi' eg kunni ei kvarta,
nú kvarta eg: hjartað brostið er. —

Man jeg þitt auga angurblíða,
ef að þú heyrðir nokkurs kvein;
man jeg þig hrærða, fljóðið fríða!
fagnandi vesals græða mein.
Man eg þig hörmung marga líða,
man, þá hve dyggðin fagurt skein.

En það er dyggð, ef veittu' er varið
vel sínu pundi', og bet'r en þú
gáfu með sína' ei gat neinn farið,
guði því jafnan varstu trú,
hjelzt það til enda', er hafðir svarið,
hvíldina að launum þiggur nú.

því höndin sig til vinnu vandi,
vizku nam sálin, svo að hjer
var engin kona á Ísalandi,
af sem í menntum bæri þjer;
hjá guði nú þinn auðgast andi,
ætíð sem þangað lypti sjer.

Og nú er þögn, því gröfin geymir
og guð það ljós, er varð of bjart
augunum sumra; en enginn gleymir,
að ást og fegurð var þitt skart,
já, allt frá drottni' er ofan streymir
í anda mannsins, gott og þarft.

Og nú er þögn, — en þrútið dynur
þrungnum af augum harmatár,
foreldrar, systkin! fögur hrynur
fórn yðar, guð veit hún er sár!
Harmanna þinna', er varst oss vinur,
votar mun drottinn þerra brár.

Líf mitt, hvar ertu? hans í hendi,
hreina sem kallar böli frá.
Hvar ertu, Dauði! einhver endi
andvörpum þessum verður á.
Ó, jeg hef von, að loks jeg lendi
á landinu drottins barni hjá.

Því er og bezt að þegja, og bíða,
þangað til lífið veitist mjer;
ei verður tíminn lengi að líða,
lífið og gleðin nálæg er.
Ó, hve vjer brátt við endann tíða
englanna' í tölu mætum þjer!

*St. Thórarensen.*

---

## 2.

---

Athgr. Vegna þess, að greinin í blaðinu „Norðra“, 4. árg., bls. 55., er í nánu sambandi við versið, sem henni fylgir þar, auk þess, að grein þessi er ekki síður sönn, en hún er fögur, þá leyfir útgefandinn sjer, að láta prenta hjer síðara hluta hennar á undan versinu sjálfu.

— Því betur sem hver og einn þekkti hana, því meira harmdauða er hún öllum, því hún hafði til að bera alla þá kosti, er kvennmann mega prýða. Gáfurnar voru ágætar, lunderníð blítt og ástúðlegt, og geðið stillt og kjarkmikið. Hún var einhver hin hagasta kona á voru landi á allar hannyrðir, kunni afbragðsvel söng og hljóðfæraslátt, og skildi og talaði útlendar tungur.

En þú, hin skæra sumarsól,
sem að þó önnur blómin vekur,
hví hið blíðasta burt þú tekur,
sem hverjum vorra unað ól?

Þú varst af öfund orðin myrk
og óttaðist skinið hennar bjarta.
Veiztu þá ei, að víf mun skarta
þjer fegri' á himni, helg og styrk?

*Sveinn Skúlason.*

---

3

# Tvö vinakvæði

til útgefarans,

## St. Thórarensens,

1856 og 1857.



Reykjavík.
Í prentsmiðju Íslands, hjá E. Þórðarsyni.
1857.

## 1.

Hreggi vetur harður grætur,
hrynur grjót úr brúnum fjalla,
svíða tár á sárri kinn;
þannig drottinn löngum lætur
líða sína skepnu alla,
kveinstaf má hún kveða sinn.

Fugl í lopti saklaus sveimar,
sjer með vængja leikur blaki,
himinfrelsi örfast af;
en, því konu á hann heima,
einatt hann með gleðikvaki
lofgjörð syngur guði', er gaf.

Heim hann snýr að hreiðri glaður,
horfna sjer hann kvon og unga;
sorta slær af sorg að brá;
grimmur eða góður maður
gjalla lætur skotið þunga;
gleði' og sorg er endir á.

Sárast líður sekur maður;
sælan þúsund kvalir geymir,
hryggðin undir brosi býr;
gröf oss reiðir gleðistaður,
grátinn hug til ástar dreymir,
vakinn harmur vefur nýr.

Óttinn mitt í hlátri hræðir,
heptir kvíðinn orð á vörum;
missir fylgir öllum auð,

ástin, gleðin, allt oss mœðir,
allir vjer, þá hjeðan förum,
liðið höfum nóga nauð.

Ein er vonin huggun hrelldum,
hana oss vor faðir sendi
svo ei skyldum sigrast vjer;
manni bendir sorgum seldum
sæla, geymd í drottins hendi;
allir þrá, en enginn sjer.

Sjávarmaður sjer, í voða,
sín hvar bíður hrædd á landi
sú, er hann í brjósti ber;
þá í gegnum brim og boða
ber hann djarfur upp að sandi;
vonin honum vegur er.

Svo nú þín á sælu-jörðu
sú þig elskar jafnan bíður,
aldrei hefur augu' af þjer;
burtu þig frá böli hörðu
báran hver, sem fram hjá líður
heim í leið til hennar ber.

Boða milli ber samt háan,
byrgir fyrir sjónum þínum
fagra strönd og frelsað víf;
sigldu djarfur einmitt á hann,
óhætt mun, þó skipi týnum,
samt oss ber í land með líf.

---

## 2.

Elskaði vinur, þú minnist þá mín;
minnist jeg aptur og hugsa til þín,
hugsa nú til þín í harmi.
Jeg er í andanum allur hjá þjer,
áfangastaðar þar leita jeg mjer
grafinnar grafar á barmi.*

Þar sástu hverfa hið ljúfasta ljós,
lífinu kærast, þá fegurstu rós,
sem vex ekki aptur á vori;
þar stóðstu grátinn með harmstungnum hug,
hjartað var titrandi', en vantaði dug
fótinn, að sporna' í því spori.

En tár þín, sem runnu á rótaða mold,
er reifað var jörðu hið andvana hold,
þau hnigu þó helgum að straumi,
og glatast þar ekki, en ummyndan ná,
svo inndælt mun verða þau dýrðleg að sjá
að loknum þeim dauðlega draumi.

Gröf heyri' eg opnast og guðs sonar raust
gjalla, sem þrumu', er úr skýjunum brauzt,
en dauðir af dvalanum rísa.
Tár þau, er streymdu, þars önd kvaddi önd,
sem unaðar-perlur við himneska strönd,
lífsins í vatni þá lýsa.

*) Brjefið með kvæði þessu er skrifað mjer 1857 „að Hraungerði“. Útg.

# ÚTFARARMINNING

EPTIR

MADÖMU

# GUÐRÚNU STEINDÓRS-DÓTTUR MATTHIESEN

FÆDDA WAAGE

ER JARÐSETT VAR Í REYKJAVÍK 19. JÚLÍM. 1860

AÐ TILHLUTUN OG Á KOSTNAÐ NOKKURRA ÁST-VINA HINNAR FRAMLIÐNU OG MANNS HENNAR.



REYKJAVÍK 1860.

Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS.

EINAR ÞÓRÐARSON.

# I.

# HÚSKVEÐJA,

haldin af Jens Sigurðssyni, skólakennara.

---

Vèr vorum fyrir hèr um bil hálfu ári síðan staddir hèr á þessu heimili til þess í seinasta sinni að segja skilið við þann, sem byggði þetta hús, og fylgja líki hans til grafar. Vèr erum hèr nú aptur komnir saman til að segja einnig skilið við hana, sem þá hafði hèr hvað sárastan harm að bera og sem þá stóð við gröfina og grèt. Guði hefur þóknazt, að láta hana fyrst reyna það, sem hún þá reyndi og sem hún hefur síðan reynt, áður enn hann einnig burtkallaði hana og veitti henni hvíld. Hann er það, sem hefur í hendi sinni tíma og stundir og mælir það út eptir sínu vísdóms ráði til hvers eins sönnu farsældar, ef rètt er athugað. Hvers skulum vèr nú minnast við skilnað þessarar vorrar framliðnu við sitt hús, við sín börn? eg ætla vissulega að það muni vera margs og mikils að minnast, sem ber að halda á lopti við þetta tækifæri hjá hinni framliðnu, þótt mig má ske bresti kunnugleika til að gjöra það svo sem hæfir, en þó vil eg minnast hinnar heimilisræknu, alúðarfullu og árvökru húsmóður, þar sem hún var. Það var dyggð

sem henni var eiginleg, og sem hún þegar í æsku var uppalin til í reglu húsi, að gegna þessari konunnar mjög áríðandi skyldu, innanhúss stjórnarinnar, að láta í tè allt það stöðuglyndi, alla þá nákvæmni, það þolgæði, sem þar til útheimtist, sèr í lagi þar, sem margt er um og fáum á að skipa, eins og mun hafa hlotið að eiga sèr stað hjá henni. Þessar dyggðir auðsyndi hún ávallt í sínu húsi, og þær hljóta án alls efa að hafa borið heillaríka ávexti, hvar af sumir eru sýnilegir í vel uppkomnum börnum, þó sumir kunni enn að vera ósýnilegir, óþroskaðir, já, má ske fölnaðir, en undir því er ekkert komið, þeir geta allt um það orðið ávextir til eilífs lífs, því „þeirra verk fylgja þeim eptir“ segir h. andi. Það eru þessi fyrir heimsins sjónum á stundum og optast auðvirðilegu skylduverk, sem eru mikils metin fyrir guði, þegar þau eru framkomin af hinu auðmjúka og ástfólgna kristilega hugarfari, og eru þau kölluð hjá konunni í h. ritningu þessu heiðurs nafni, að þær sèu: „óforgengilegt skart hógværs og kyrrláts anda, sem er dýrt metið í guðs augsýn“. Enda má það vera auðsjáanlegt hverjum þeim, sem vill íhuga það, hvílíkt dýrmæti að slík dyggðaþjónusta er, sem hver góð húsmóðir gegnir, þar sem að heimilin eru þeir litlu gróðrarreitir, hvaðan allt mannkyn er framkomið og máttarstólpar hins stóra mannfèlags; því þar er kærleikans fyrsta ríki, þar eru og hin fyrstu lög gefin hinum ungu, umbunað og hegnt, og rèttlætisins grundvöllur lagður, og þótt slíkar dyggðir sèu, eins og sèrhverjar aðrar hjá oss mönnunum, og eins hjá hinum

beztu, næsta ófullkomnar, þá eru þær þó, þegar þær eru sprottnar af sönnum guðs ótta og trú, þakknæmileg fórn fyrir guði; því að vísu eru öll vor verk ófullkomin, en „þegar það fullkomna kemur, þá hættir hið ófullkomna“ og þetta getum vèr og heimfært upp á vor verk.

Vèr minnumst hèr einnig hinnar þrautgóðu og þolinmóðu konu, sem ekki að eins hefur barizt með atorku í sinni stètt, heldur og borið marga mæðu og margar raunir með jafnaðargeði og stöðuglyndi. Þeir, sem til þekkja, munu sanna, að hún hafi gengið í gegnum margt og mikið andstreymi, sem að hefur borið á hennar lífsleið og þeirra hjóna, með þreki og þolgæði, og er það að nokkru leyti alkunnugt, en þó þess þungi, eins og vant er að vera, að mestu hulinn, og eins vitum vèr það, að hinar seinustu lífsstundir hennar, einkum síðan hún varð ekkja, hafa, að kalla má, verið stöðug krossganga, því hún hefir lengri tíð alla jafna verið sjúk eða dregizt með veikan mátt, en borið það með rósemi og stöðuglyndi. Vèr minnumst því hennar þolinmæði og undirgefni undir guðs vilja í þjáningunum, þar eð hún er ein af þeim æðstu dyggðum kristins manns, með því hún er hin þyngsta að iðka; það er ekki að eins að stríða, sem vor trú heimtar af oss og sem hin framliðna kunni að gjöra með sóma, heldur og líka að líða, og það gjörði hún og fram í andlátið. Lund var henni gefin hæg og stillt, góðlátleg og nokkuð alvarleg, með næmum tilfinningum, hún sýndi því í stríði lífsins hina jöfnu og stöðugu atorku, sem vinnur daglega sigur, og í þján-

ingunum auðsýndi hún undirgefni án mögls og órósemi; en þar sem tilfinningar eru næmar, þar leggst ætíð hið mótdræga þyngra á hjartað, sèr í lagi í fyrstunni, meðan krossins skóli er ekki orðinn tamur, og svo mun það og hafa gengið henni, en við reynsluna styrkist þolinmæðin hjá hverjum rèttkristnum manni og dyggðin hreinsast, eins og málmur í eldi, svo að lokunum verður bölið lèttbærara, okið sætara og þeir ávextir fara að myndast, sem uppskera á til hins eilífa lífs. Eg þykist viss um, að raunir hennar muni hafa vakið hjá henni laungun eptir hinu æðra, sem hèr ekki er að fá, muni hafa vakið hana til bænar og þakkargjörðar og glæðt þannig vöxt og viðgáng hinns innra manns, hins hulda manns, sem eptir guði er skapaður og lifa skal í rèttlæti og heilagleika fyrir guði æfinlega.

Vèr viljum enn fremur minnast hennar mannelsku, bæði þeirrar almennilegu, sem framkom við alla þá, sem hún fèkk tækifæri til að auðsýna velgjörðir, og hinnar sèrstaklegu, sem framkom við ektamaka og börn. Kærleikurinn verður það, sem varir lengst eptir ritningarinnar orðum, því í guðs ríki lifir allt, er og hrærist í kærleikanum, því skal sú dyggð ætíð nefnast, þar sem hún lýsir sèr hjá kristnum mönnum. Þess er tíðum og einatt getið, meðan kristin trú var heitari í hjörtum manna, en hún er á þessari tíð, að það hafi opt hlotnast guðhræddum konum, að frambera einhverjar hinar fögrustu og dýrustu mannkærleikans fórnir, og er það að vísu skiljanlegt eptir konunnar náttúrlega skapferli, þegar það er gripið af æðra

krapti. En um þessa vora framliðnu má það segja, að hún hafði ekki að eins mannelskufullt hjarta, heldur og mannelskufulla hönd til að vera veitandi og hjálpandi, eptir því sem tækifæri buðust, og þar sem hún sá, að hjálpar var þörf, jafnvel sjálf sjúk og þurfandi liðsinnti hún, meðan henni var mögulegt. En jafnframt því auglýsti hún, eins og vera bar, hinn innilegasta kærleika í hinum móðurlegu skyldum, sem hún rækti trúlega og samvizkusamlega og hvers ávextir eru líka sýnilegir í efnilegum og vel upp komnum börnum, hver eð ásamt öllum, sem hana þekktu, og þau þó sèr í lagi, trega þar hina beztu og ástúðlegustu móður, hinn einlægasta og tryggvasta ráðgjafa með guði á lífsins hálu leið, því það er ætíð góð móðir. Sorg og söknuður eru svo náttúrlegar tilfinningar við missir sinna ástvina, og þó sèr í lagi góðra foreldra, að það lýsti einhverju óeðlilegu, og einhverju stöku vanþakklæti við guð og foreldra, að vera þá tilfinningarlaus, en sorgin og söknuðurinn á og má ætíð vera sameinaður þakkargjörð fyrir guðs vísdómslegu stjórn, sem ætíð miðar til hins bezta, og er það, þegar svo stendur á sem hèr, að hinum ungu hefur verið veitt sú náð, að mega eiga foreldra sína á lífi, þartil þau sjálf eru nokkurnveginn komin á framfæri og eiga að vera farin að geta fundið hina rèttu leið með guðs hjálp í gegnum lífið, bæði fyrir líf og sál; því mörg eru þess dæmi, að slík dýrmæt gjöf, sem eru góðir foreldrar, ekki er lánuð sumum svo lengi.

Eg vil að endingu hafa upp þessi orð ritningarinnar, sem mèr virðist að eigi við hina framliðnu:

„Sælir eru þeir, sem í drottni deyja! þeir munu hvílast frá þeirra erfiði, en þeirra verk fylgja þeim eptir“. Eg ætla, að um hana megi segja, að hún sè dáin í drottni; að hjarta hennar hafi, eptir því sem hún fèkk náð til, verið snúið frá heiminum og að honum, sem er upprisan og lífið; að hún sè dáin í trú og trausti á honum, er aflaði öllum þeim syndakvittunar og eilífs lífs með sínum dauða, er leita þessarar ómetanlegu náðar; að hún sè dáin í kærleikanum til hans og hlýðninni við hann, sem gaf sínum trúuðu það fyrirheit, að þegar þeir elski sig og varðveiti sitt orð, þá muni faðirinn elska þá, og að bæði hann og þeir muni þá til hans koma og hjá honum vera. En þá mun hún og hvílast frá sínu erfiði, því hún hafði erfiðað og mæðst, og sýndi hún það, þótt ekki væri hún öldruð orðin; og sú hvíld, sem hún þá nýtur, er ekki svefn nè aðgjörðaleysi, heldur friður guðs, sú hin sama hvíld, sem lausnarinn býður þeim þjáðu, er hann segir: „komið hingað, þèr, sem erfiðið og eruð þunga þjáðir, eg vil veita sálum yðar hvíld“; það er hvíld í skoðuninni, hvíld í kærleikanum; það er friður sá, sem Kristur gaf sínum lærisveinum, er hann sagði: „minn frið gef eg yður“, friður sá, sem postulinn Páll nefnir, er hann segir: „guðs ríki er friður og fögnuður í heilögum anda“. En hennar verk fylgja henni eptir — það er að skilja, hennar kærleiksverk, hennar þolinmæðisverk, hennar dyggðaverk fylgja henni þá eptir, það er ávöxturinn af voru starfi hèr, æfingin í hinu góða, sem fylgir eptir, til að hreinsast og helgast og fullkomnast, svo að hún

beri meiri ávöxt. Þau fylgja þess vegna á eptir og fara ekki á undan, því að þau eru öll ófullkomin, jafnvel hin beztu verkin, og eins vitum vèr, að mörg eru þau verkin hjá oss öllum, sem mundu verða oss til fyrirdæmingar, verði þau ekki af máð af hinum eilífa kærleika.

Látum oss þá ávallt kappkosta að lifa í drottni, svo vèr með því móti getum lært að deyja í drottni, því þannig getur það að eins orðið. Vèr skiljumst svo með þessum orðum við vora framliðnu, og biðjum guð að veita anda hennar sína hvíld og sinn frið. Amen.

---

# II.

# LÍKRÆÐA,

flutt í Reykjavíkur dómkirkju, af prófasti Ó. Pálssyni, dómkirkjupresti.

---

Drottinn! Þú lætur oss alla um stundarsakir eiga leið yfir þetta útlegðarinnar land, og sú leiðin, sem hèr liggur saman, hún skilur, þegar þú sèr það fyrir beztu. En gef þú oss þá jafnan að hafa það hugfast, að það skeður til þess, að sælir samfundir verði aptur hjá þèr; og þegar hinir góðu, guðræknu ástvinir hverfa hèðan, hver á eptir öðrum, þá sè oss það bending um, að í þínu föðurheimkynni liggja vegirnir aptur saman. Þar hittast þeir aptur glaðir, sem hèr skildu með sorg. Amen!

---

Það var fyrir rúmum missiristíma, að vèr vorum, flestir hinir sömu, samankomnir á þessum heilaga stað. Þá fylgdum vèr til grafar elskuverðum bróður, sem var kvaddur hèðan, svo að segja á hádegisstundu lífsins, og fleira en eitt ástvinar- og vinarhjarta fann þá til hreinskilinnar sorgar. Þá var hèr með oss stödd sorgbitin ekkja, sem harmaði sína beztu lífsstoð og gleði. Og nú erum vèr hèr aptur komnir,

og sú líkkistan, sem vèr nú sjáum hjá oss, geymir dauðlegar leyfar hennar, sem eptir þessa stuttu dvöl hefir fengið hjartans ósk uppfyllta, að hverfa aptur, frelsuð og sæl og glöð, á ástvinararmana. Svo liggja opt vegir bæði lífsins og dauðans, lagðir af guðs góðri og vísdómsfullri hendi. Hann sameinar hèr í þessu stundlega hina elskandi, og lætur þá aptur skilja um stund, til þess að nýju að sameinast í sælla heimi; því hver þau bönd, sem af hans mildri hendi eru tengd á meðal hans barna, þau eru og svo fyrir eilífðina, sem kemur á eptir þessu fallvallta og opt auma lífi. Það sem hin góðu og hin hreinu hjörtu þrá eptir og hèr opt samhuga leita, æ, hversu tíðum finna þau það ekki hèr, á landi dauðlegleikans og útlegðarinnar, en þar veitist það þeim, hvar þau eitt eptir annað sameinast og safnast í húsi guðs föðurs, og á sælunnar bústöðum. Og þangað verður oss hugsað, þegar vèr sjáum ástvinina svo sem hraða sèr hèðan hvern á eptir öðrum; og það því fremur, sem vèr þekktum, að það voru þeir, sem hreinir í hjörtum, víkja hèðan með því fyrirheiti, að þeir skuli sjá guð og vera hjá honum.

Við gröf þessarar heiðruðu framliðnu systur, hljóta mjög svo að ryfjast upp hjá oss öllum hinar sömu tilfinningar, með hverjum að vèr fyrir svo stuttum tíma síðan fylgdum hennar elskaða manni til grafarinnar. Lífsleið þeirra lá saman, og var í flestu samhuga gengin, með hinum sama hreinleika hjartans og góðvilja, samt þeim grandvarlegleika í öllu dagfari, sem man eptir guði og stundar á þetta, að

móðga engan. Með þessum dyggðum var prýddur lífsferill þessarar heiðursverðu konu, sem endaði þetta veðhlaup, eptir nær því 51 árs aldur; þær voru hennar förunautar og komu hvervetna fram, þar sem hún gegndi sinni köllun, eins og góð og nákvæm aðstoð síns ektamanns í meir en 24 ár, og ástrík móðir barna sinna, sem 5 syrgja af hreinskilnum hjörtum við hennar gröf, en 5 hafa bæði fagnað henni og föðurnum hjá drottni.

Það var mjög margt í fari þessa sæla góðkvendis, sem var til þess að prýða, en eg hygg að því sé rétt lýst með því einkenni, að kvenndyggð hennar var hin stillta, hógværa og kyrláta, sem að síðustu jafnan skartar bezt. Þannig kom hún daglega fram, í húsi sínu, siðprúð, ráðsett og stillt, og eins og sú, sem þar hafði jafnan stöðuga gát á því, að rækja móðurskyldur sínar. Fáskiptin um það allt, hvað annara var, áleit hún þessi verk sín heilög og gekk að þeim með iðjusemi og reglu og opt með því þolgæði, sem yfir gekk hennar krapta.

Hjartalag hennar var gott og mjög svo hneigt til þess að hjálpa hverjum þeim, sem nauðstaddur var. Í húsi sínu sá hún sjaldan nægtir, og opt má ske fremur skort á því, sem virtist að meðþurfa, en hún var engu að síður samtaka sínum góðhjartaða ektamanni í því að gjöra gott, og velgjörðirnar voru opt látnar svo úti, að þeim, sem til þess þekktu, mátti koma það til hugar, sem drottinn hefir lýst, hvernig sá, sem lætur hið minna úti, hann gefur í rauninni mest. Það er þetta hugarfar, sem gjörir góðgjörð-

irnár að sönnum góðverkum, að þeim fórnum, sem þóknast guði og manneskjan tekur með sèr héðan í fyrirheitisins von, að hann, sem mest gjörði gott sínum nauðstöddum bræðrum, hann vilji álíta þvílíkt að vera sèr gjört, og það er með þvílíkri heiðursminningu, að þetta sæla góðkvendi leggst í gröfina.

En — þetta góða hjarta, það hafði og svo sitt ágæti í þolinmæðinni og undirgefninni undir guðs vilja, hvað sem að reyna var. Þó eitthvað kynni að bresta af því, sem til stundlegs velfarnaðar heyrir, þá var þar víst sjaldan möglað, heldur með rósemi unað við það, sem guð vildi veitast láta. Lífsstundir hennar framliðnu voru í sanni opt reynslustundir; því bæði sá hennar viðkvæma móðurhjarta hennar elskuðu börn líða, og, eins og þegar er vikið á, hefir hún sjálf hlotið að búa 5 af þeim til grafarinnar, og það er jafnan með sárum tilfinningum, að hin góða móðir gjörir það; en henni gafst það með því rósama geði, sem felur sig guðs góðum vilja. Og sjálf hefir hún og svo staðið eins og harmandi ekkja við gröf síns elskaða ektamanns, og einnig hlotið að beygja sig undir krossins þunga; því hún kenndi um sín seinni æfiár á vanheilsu líkamans, og svo leið hennar lífsferill til enda. En — hún tók þessu öllu svo sem sú, er veit það, að guð á frjálst bæði að græta og gleðja, og að, hvað þungbært sem hann lætur sínum börnum til falla, þá gjörir hann það bæði með vísdómi og gæzku. Undir hans hönd beygði sig hin hreina og góða sál, án þess að mögla eður kveina.

Þannig afþreyði hún rósöm sínar síðustu, þung-

bæru stundir, þangað til frelsisgjöfin veittist, og glöð sameining við þann ástvin, eptir hvern hún syrgði, og við alla hina ástkæru, sem fyrri voru farnir; og naut undir þjáningum sínum þess, sem hin góða móðir best á skilið af börnunum, en það var, að þau með ást og alúð leituðu henni þeirrar hjálpar og hjúkrunar, sem mögulegt var að láta í té. Stríðið er út endað, hjartans innilegasta ósk upp fyllt, að losast hèr frá og til samfunda frelsarans. Hèr lifði hún jafnan rósöm, við hverjar stundlegar þrautir, sem hún átti að stríða; en nú eru og svo þær horfnar, og öllum jarðarinnar sorgum skipt við himinsins gleði og ró. Hèr er eptir geymd minning hinnar hreinu kvenndyggðar í hjörtum allra, sem hana þekktu, og hjá börnunum þakklát minning hinnar góðu móður. Það er hennar dyggð, hin fegursta af öllum, sem fyrirheitið er gefið, að hún skuli skína eins og sólin fyrir veldisstóli drottins. Amen!

---

# III.

## GRAFSKRIPT.

†

Lausn fèkk hèr þráða
lífs frá þrautum
GUÐRÚN STEINDÓRSDÓTTIR
MATTHIESEN fædd WAAGE,
hún leit fyrst ljós þessa heims 25. sept. 1809,
giptist 26. júní 1835
kaupmanni Matthiasi Jónssyni Matthiesen,
sem ásamt 5 af 10 börnum þeirra fagnar nú
með henni frelsi guðs barna
í sælla heimi,
andaðist 11. júlí 1860.

Hún var
stillt í velgengni, stöðuglynd í þrautum,
ástrík móðir og maki, aumum líknsöm,
opt yfir megn fram, vinum holl og trygg,
gestrisin, dyggðug, guðrækin, þolinmóð,
frábitin hègóma heimsins.

* * *

þeim, er lúinn þungu heims af starfi,
þeim, er sorgum, skorti mæddur af,
þeim, er sjúkdóms-þjáning, syndar arfi,
þreyttur lausnar beið, er drottinn gaf,
veitir dauðinn hvíld og huggun sæta
himins auð og lækning sèrhvers meins.
Ekkert böl má anda sæla græta,
ei þeir kenna heimsins sorga-kveins.

Fögnum því með frelstum hennar anda,
fró og sælu, henni veitt sem er;
gleðjumst, því að guðs á milli handa
geymt er vel það sjónum hverfur hèr.
Æ, þá vissu unaðsfulla, blíða!
Æ, þá svölun hinnsta viður blund!
Æ, þá huggun, harma þeim er líða!
— Hjarta, vertu rótt, þín kemur stund! —

þannig minntist hinnar framliðnu

P. G.

---

# ÚTFARARMINNING

EPTIR

FAKTOR **MATTHÍAS JÓNSSON MATTHIESEN,**

ER JARÐSETTUR VAR Í REYKJAVÍK 28. DES. 1859.

---

AÐ TILHLUTUN OG Á KOSTNAÐ
BRÓÐUR HINS LÁTNA,
**KRISTJÁNS J. MATTHIESENS,**
HREPPSTJÓRA Á HLIÐI Á ÁLPTANESI.



REYKJAVÍK 1860.

Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS
EINAR ÞÓRÐARSON.

# I.

## HÚSKVEÐJA,

haldin af Jens Sigurðssyni, skólakennara.

---

Þessi er endirinn, — endir vorra lífstunda hèr á jörðu, endir allra jarðneskra sorga og glaðværða og allra vorra starfa. Hèr sjá augun ekkert annað en dauðans sigur og forrotnan; skynsemin hættir að skilja, og jafnvel vonin tekur að veiklast. Harðar stundir eru því ætíð slíkar fyrir ástvini og náunga, er þannig missa sitt yndi, sína aðstoð og sína von, en líta ekkert annað en niður í hinn dimma dal og dauðansríki; já, ekki að eins fyrir ástvini og náunga eru þetta ætíð harðar stundir, heldur og fyrir alla, er þannig eins og sjá sína eigin gröf reidda og hvað sjálfum þeim á eitt sinn að mæta, því dauðinn er innrunninn til vor allra. En þetta hlýtur svo að ske, svo að guðs orð og hans vilji uppfyllist: „Þú skalt vissulega deyja“. En aptur stendur skrifað: „Hver sem trúir á mig, hann mun lifa, þótt hann deyi“, og drottinn segir: „Eg vil taka frá þèr yndi augna þinna, en þú skalt ekki kveina nè gráta“. Hèr er því ekki að eins endirinn, heldur er hèr og einnig

byrjunnin; fyrir trúna á Jesúm Krist og á sáttmálans blóð, sem fórnfært er oss til lífs, höfum vèr þá sælu von, að hèr sè ekki að eins endir lífsins, heldur og öllu fremur byrjun lífsins.

Hèr enda nú hinar jarðnesku sorgir hins framliðna; þær voru engan veginn smáar; mikið af þeim kann að vera öðrum hulið en henni, sem gekk við hlið honum á þessari lífsins vegferð, og bar þær með honum með tryggð og stöðuglyndi, en þær eru þó kunnar af sorgum hans, er ekki þykja hvað minnstar að bera í lífinu, nefnilega: barnamissir, eignamissir og heilsumissir; hver tímanleg gæði eru manni kærari en þessi? hverjum sárara að sjá á bak? Þessar sorgir eru á enda. En hèr er byrjun lífsins, þess lífs, „þar sem ekki er harmur nè vein nè mæða“, þar sem „guð þerrar öll tár af þeirra augum“, þar sem vor framliðni fær að vita þann tilgang, sem drottinn hafði með því, að leggja á hann þessar sorgir; því segir og drottinn: „Þó eg taki frá þèr yndi augna þinna, þá skaltu ekki kveina nè gráta“, því hinn framliðni er numinn burt frá allri sorg og mæðu, og leiddur inn á gleðinnar land.

Hann er og numinn burt frá hinum jarðnesku glaðværðum. Vèr vitum, að guð hafði lánað honum glaðvært sinni og lètta lund, sameinaða frómlyndi, hreinskilni og hjartanlegri einfeldni; hann var, „einfaldur eins og dúfa“; og eins og hann sjálfur var glaður í lund, eins lèt hann sèr annt um, að gleðja aðra; það var ríkjandi tilfinning hans, að hjálpa, liðsinna, vera öðrum til vilja, þegar þeim lá á, og hann

gjörði þetta jafnvel meir, en honum var mögulegt; eins og honum í sinni stöðu optlega gafst færi á, að auðsýna góðvild sína og gleðja aðra, sèr í lagi meðan hagur hans stóð vel, eins lèt hann það heldur ekki eptir verða. Slík gleðinnar og góðviljans lund er mikil guðs gjöf, enda mun hún hafa lètt mikið raunir hans. En bæði hin glaðværa lund og góðviljinn eru, eins og annað fleira, ekki einhlít, svo kristinn maður þarf ekki síður að vera „slægur sem höggormur“ en „einfaldur sem dúfa“, því margir af ávöxtum þeim, sem hinum glaðlynda frambjóðast hèr, eru rotnir, já, eitraðir, banvænir, ilmur dauðans til dauða. Og eins er góðviljinn, að heimurinn misbrúkar hann, ef til vill, til að smeygja inn í hið ljúfa hjarta og beygjanlega syndsamlegum löngunum og ástríðum. Frá þessum freistingum er hann burt numinn, og hið nýja líf er byrjað, þar sem gleðin er hrein og ómeinguð og engin freisting mætir henni framar, þar sem hin glaðlynda sál finnur þann fögnuð, sem ekki grandar, og svalar sèr í sameining hinna útvöldu, og þar sem hið góða hjarta, hið hreina og einlæga og kærleiksfulla hjarta, finnur sèr hagkvæman bústað tilreiddan í ríki kærleikans, hjá konungi kærleikans, þegar það er endurleyst af fjötrum þeim og freistingum, sem það hèr á við að búa. Grát því ekki nè kveina, segir drottinn, þó eg taki yndi augna þinna frá þèr; því hann nýtur fagnaðar hjá hinum heilögu, og er frelsaður frá hinum vanhelga solli heimsins.

Hèr er endir hans starfa. Hinn framliðni hafði allt sitt líf verið starfsamur, ötull og atorkusamur við

það verk, er hann lagði sig að; allt þar til lífsdag hans tók að skyggja, var hann að stunda verk sinnar köllunar; þá hnè hann frá því og — sofnaði. Það mátti segja um hann, að hann ynni sitt verk, meðan dagur var. Með því móti, að leita þannig sinnar atvinnu og neyta síns brauðs í sveita síns andlitis, og með sparsemi innan húss, gat hann framfleytt heimili sínu með sóma og optast nær verið öðrum hjálplegur. Þessu fylgdi ör og bráð lund, sem að má ske hafi mátt segja um stundum í striti lífsins: „Þú mæðist í mörgu“. Í starfi sinnar köllunar sýndi hann staka trúmennsku og samvizkusemi við sinn lánardrottin, því gagn þess, sem hann átti reikning að standa, lá honum mjög á hjarta sem velþenkjandi manni. Trúnaður í sinni stètt er yfirmáta fögur dyggð og ekki svo almenn, enda hefur hún fyrirheit í guðsorði, að sá, sem er trúr yfir litlu, skuli setjast yfir mikið. Hans jarðnesku störf eru á enda, en vor trú og von er til guðs, að hèr byrji og með nýju lífi hans störf; því vor jarðnesku störf eru í raun og veru ekki annað en æfingarskóli, og hvað vèr störfum, hefur í rauninni ekkert gildi, nema að æfa oss í hinu góða, æfa oss í að gjöra rètt og auðsýna kærleika og efla hið góða; það er þessi æfingin, sem fylgir oss; en hvað vèr störfum og byggjum, það er heimsins; að gjöra rètt, að tala satt, að vera trúr, það er, sem vèr flytjum með oss yfir í hið fullkomnara líf, þar sem hinn starfsami einnig fær sitt verk að vinna, hinn trúi sitt pund að verzla með; guðsríki hefur og stað handa hinum iðjusama, því „guð vinnur allt að

þessu“, og það hefur stað handa hinum trúa, því guð er eilíflega trúr. Grátið því ei nè kveinið, þèr eptirlifandi vinir! því hèr eru sorgir hans á enda, hèr byrjar hans líf og hans fögnuður og hans starf, ekki í því forgengilega, heldur í hinu óforgengilega. Vèr getum því í trúnni á miskun guðs fyrir Jesúm Krist sagt hèr skilið við hann í síðasta sinni á heimili hans, ekki að eins grátandi, eins og hinu náttúrlega hjarta er eðlilegt, heldur og fagnandi, eins og hinu trúaða hjarta er eðlilegt, og þakkað guði fyrir hans lausn til hins betra heims.

En þessi hin sama trú, sem huggar oss eptir vora ástvini, með því, að þeim líði vel, hún á einnig að vera athvarf og stöðug stytta hinnar eptirþreyjandi ekkju; hún hefur á þeirri næstum 25 ára vegferð borið allar hinar sömu sorgir, sem hann, máske fundið þyngra til sumra, og þar á ofan bætist nú þessi sorg, ein sú þyngsta, sem fyrir kemur í lífinu. Þessi sama trú á að vera yðar athvarf, að það er ekki hèr, sem lífið fullkomlega byrjar, heldur eptir þennan flutning til annars lífs; að hèr er að eins forsmekk sælunnar að finna í trú, kærleika, hlýðni, þolinmæði, von, að þessa lífs sorgir eru — eins og ritningin segir — einkis að meta í samanburði við þá sælu, er á síðan mun við oss opinber verða. Þannig að eins getur þetta líf, jafnvel með öllum þess sorgum og andstreymi, orðið oss þægilegt, þegar vèr hlýðnir og þolinmóðir getum tekið á móti öllu því, sem að höndum ber, og skoðað það, eins og það í raun og veru er, sem föð-

urlega handleiðslu drottins, sem elskar oss svo langtum meir, en vèr getum leitt oss í hug.

Og þèr. eptirlifandi börn! það er hin sama trú, er lyptir hjörtum yðar upp, svo þèr getið fylgt líki föður yðar hèðan með trúartrausti, sem á að halda yður glöðum og ánægðum eptir hèr í heiminum; hèr er yður auðsèn sá tilgangur guðs, í að burt kalla föður yðar, að þèr skuluð nú fara að auðsýna dyggðir í lífinu, í því að styðja nauðstadda móður, að þèr skuluð nú taka til starfa og byrja yðar dagsverk, bæði með því, að leita yðar atvinnu, og einkum með því, að læra að hlaupa dyggðarinnar skeið, ganga í berhögg við hið vonda, sem mætir í lífinu, við lesti og ósiði, og læra að standast árásir freistinga, sem heimurinn er fullur af; slík barátta hæfir ungum kristnum mönnum, sem eru í broddi lífsins; að þèr geymið dyggðir föðursins, sem dýrmætan arf, dugnað og starfsemi, hjartagæzku og trúmennsku, og varizt aptur það, sem hann kynni að hafa steytt á. Vèr eigum að vera þjónar drottins, þ. e. honum trúir, eins og vèr ætíð göngum fyrir hans augliti, en til þess verðum vèr að læra að elska hann, verðum að biðja hann að kenna oss kærleikann; ef vèr svo elskum hann og erum trúir, þá eru sorgir og fátækt ekkert, sár og sjúkdómar ekkert, auður og metorð ekkert, munaður og velsæld heimsins ekkert, dauði og gröf ekkert, vèr höfum þá allt, og skortir ekkert.

Vèr kveðjum þig svo, vor framliðni bróðir! með þakklátum tilfinningum fyrir þær unaðsemdir, sem vèr nutum í þínum samvistum og návistum. Drottinn!

veit þú hans anda sælunnar frið og fró, gjörðu hans dupt, sem héðan er útborið og niðursáð verður í veikleika, vegsamlegt á hinum mikla upprisudegi alls holds fyrir Jesúm Kristum. Amen.

---

# II.

## LÍKRÆÐA,

flutt í Reykjavíkur dómkirkju, af prófasti Ó. Pálssyni, dómkirkjupresti.

---

Miskunsami guð! þú sendir bæði sorg og gleði með hinu sama föðurlega hjarta til allra þinna barna; já, hugga þú og styrk hjörtu þeirra, sem syrgja yfir þessum moldum. Vertu sjálfur hinn trúfasti ástvinur þeirra, sem fella harmatár yfir ástvinamissinum. Og vor allra, sem hèr erum komnir og heiðrum minningu hins góða manns, sem þú hefur kallað til þín, virztu að minnast í náð og miskun, að það verði oss innrætt, að vera viðbúnir við vorri óvissri dauðastund, svo hve nær sem hún kemur, fáum vèr dáið í þèr og öðlast lífsins kórónu. Amen.

---

Vèr höfum komið hèr saman til þess, að veita vora síðustu þjónustu einum af hinum sannkölluðu góðu meðbræðrum vorum. Dauðinn hefur svo sem í skyndingu brugðið sinni sárbeittu sigð og tekið hann í burtu frá oss á hádegisstundu lífsins, þar sem hann enn nú með fullu fjöri, með jafnri ráðvendni og dug gegndi skylduverkum sínum, og gröfin verður honum svo tilreidd, að margur staðnæmist þar með hreinskilnum

söknuði, en allir þeir, sem nokkuð gjör þekktu þennan vorn framliðna bróður, munu þar heiðra minningu hins rjettláta, sem máske með þeim grandvarlegleika, sem það er framast unnt fyrir veikan mann, stundaði þetta, sem varðar mest af öllu, að varðveita óskerta samvizku bæði fyrir guði og mönnum. Stærri hrósunar fær enginn leitað hèr stundlega, og hún er í raun rèttri sú eina sanna, því hún er sú, sem fylgir manninum eptir hèðan og þangað, sem hann fer, til þess að meðtaka hlutskipti þeirra, sem hjeldu trúnni til enda. En hún er og svo fyrir þönkum og hjörtum þeirra, sem eptir lifa, hin sanna hrósun; því hverja sannfæringu, sem meira er varið í, geta þeir geymt yfir hans gröf, en þá, að þar sè það lífsskeið runnið til enda, sem jafnan var þreytt á vegum dyggðar og ráðvendni. Og þeir, sem sorgbitnir standa við gröf hins horfna ástvinar, þeir fá og í sanni við þetta eitt huggast, að sá vegur, sem hèr virtist að enda, hann lá til guðs, og það er þeirra síðasta og dýrmætasta huggun, að og svo þeirra eigin lífsleið muni þar hafa sitt síðasta takmark, og þeir sameinast þar aptur fagnandi og glaðir, sem hèr skildu með sorg.

Þessi vor sæli bróðir er hèðan horfinn svo sem á miðjum degi lífsins, því hann lifði að eins nokkuð á hið fertugasta og áttunda æfiár; hann, sem fyrir fáum dögum gekk með fullu fjöri að sínum skylduverkum, með sinni vanalegu trúmennsku og dugnaði, hann liggur nú andvana lík. Það er jafnan sorglegt og sviplegt, þegar bræður vorir hverfa oss þannig, og er það því fremur, sem vèr eigum að sjá þeim á

bak, sem voru og reyndust oss betri. Og við gröf þessa bróður söknum vèr allir úr flokki vorum hins vandaða góðmennis, sem var bæði hugljúfur og kær hverjum, sem við hann kynntist. Vèr þekktum hjá honum bæði dug og þrek, sem gjörði, að hann mátti teljast með dugnaðarmönnum í sinni stètt; en einkum var því pundi varið með hinni grandvöru trúmennsku, þar sem að vaka átti yfir og líta á annara hag. Hvað honum var trúað fyrir, geymdi hann svo, að hann vildi heldur allan halla líða sjálfur, en að annara rètti væri misboðið í nokkru.

En þegar minnzt er á þetta í fari hins framliðna, þá er í endurminningu þeirra, sem þekktu hann, svo margt sameinað þar við, sem tiltalar hjörtunum og gjörir minningu hans heiðurs og elsku verða. Vèr göngum ekki að hans gröf fremur en nokkurri annari, eða fremur en nokkur einn af oss getur vænt að þeir eptirlifandi munu einu sinni ganga að hans eigin gröf, án þess að vèr vitum, að á veikleika sè að minnast. En — það munu flestir, sem verði að játa fyrir sjálfum sèr, að þeir mega óska þess af hjarta, að þeir láti ekki meira eptir af þvílíkri minningu, en þessi framliðni bróðir. En — þeir mega og svo óska hins, að þeir fái skilið eptir minningu hans hreinu og óflekkuðu manndyggða. Því það verður með miklum sanni sagt, að sál hans var bæði hrein og trygg og frásneidd allri hrekkvísi; þar sem aðrir í kring um hann, eins og jafnan í heimi þessum, lögðu leiðir sínar um krókótta vegu, þá hèlt hann jafnan sinni sömu stefnu, hreinn og beinn í hugsun, orði og við-

móti, og það var þar fyrir, að heimsins vèlabrögð gjörðu minna til að skaða hann, en margur hugði eða gætti. Sál hans var yfir höfuð hin stöðuga og þrekmikla, sem jafnan hèlt það í fyrirrúmi fyrir öllu, að gá að guði og því, sem rètt er. Með þessu sama hugarfari leit hann á sín eigin lífskjör; þau voru opt og tíðum sameinuð talsverðum örðugleikum; en hann gegnumgekk það þolgóður, og þegar hvað eina því líkt var afstaðið, horfði hann til baka yfir það með hinu sannguðrækilega hugarfari; og hann minntist opt viknaður á handleiðslu drottins, þakklátur fyrir það, hvernig hann hafði framleitt hann í gegnum lífsins rannir, og gefið á margan veg að njóta þess, sem í sanni má kallast blessun. Hann ljet það jafnan ásannast, að hann var leiddur í gegnum lífið af föðurhendi, og kunni af henni að taka við hinu stríða, eins og hinu blíða.

Í öllu viðmóti sínu var þessi framliðni jafnan hið sannkallaða góðmenni, sem það í öllu mátti sjá og finna, og aldrei vildi neinum öðruvísi en vel, hjálpsamur opt, framar en hann mátti, hreinskiptinn, einlægur og alúðlegur við alla þá, sem við hann áttu að skipta. En hann var og svo tryggur og falslaus vinur þeirra, sem hann gjörði sèr að vinum, og sá, sem aldrei gleymdi því, er honum hafði verið gjört vel til, og að því skapi var hann umburðarlyndur við það, sem honum kunni að vera á móti gjört, en lèt sèr annt um þetta, að hann sjálfur aldrei móðgaði neinn. Það er því í mörgu falli, að vèr með verðskulduðum söknuði skiljumst við þennan góða bróður, sem umgekkst hjer eins og sannur dánumaður,

og víst því hugþekkari hverjum einum, sem hann hafði meira af honum að segja.

Hvað þetta sæla góðmenni var við alla þá, sem við hann kynntust, það var hann þó einkum þeim, sem stóðu honum næst, við ættingja sína og sitt eigið hús. Þar kom fram hið góða og viðkvæma hjartalag hans. Ekkja hans, sem búið hafði með honum á 25. ár, saknar þar hins tryggasta og umhyggjusamasta maka, sem reyndist henni jafnan því betur, sem á meiri raunum var að kenna, með alúð og vakandi umönnun fyrir því, sem eflt gat hennar heillir. Sorgbitin horfir hún hèr á eptir sínum bezta ástvini, og minnist þess, hvernig hann, þakklátur og undirgefinn undir guðs vilja, tók sameiginlega með henni öllum lífsins kjörum, og gjörði það, hvað í hans valdi stóð, til þess að lètta henni þau örðugu sporin, sem þau hlutu að ganga saman. Sú samleið, sem, hvað sem á henni mætti, var jafnan gengin samhuga, í ró og friði, er að sinni slitin, en hin huggandi trú og von er þessi, að hún aptur muni liggja saman í hans friðarheimkynni, í hverjum allar hreinhjartaðar sálir munu sameinast, án þess að neinar dauðans aðfarir fái framar aðskilið.

Það eru 5 börn, sem fella hin hreinskilnu saknaðartár yfir gröf þessa bróður vors, en önnur 5 hafa þegar fagnandi horfið í hans faðm. Og þau börn hans, sem lifa hèr eptir, syrgja, þar sem hann er, hinn góða föður, sem varði kröptum sínum til þess að annast þau, minntist þeirra jafnan með viðkvæmu hjarta, og óskaði einskis fremur, en að fá leitt þau áfram til dyggðar og guðsótta, til þess, sem væri þeirra

sönn lukka. Þó honum væri snemma burtu kippt, veittist honum samt að lifa, þangað til hann hafði leitt þau öll fram yfir æskuskeiðið. Og mèr er glöggt í minni, með hverjum guðrækilegum orðum að hann ekki alls fyrir löngu, þegar hann hafði lokið þessari skyldu við hið yngsta barn sitt, þakkaði drottni bæði fyrir það, að hann gaf honum að endast til þess, og fyrir alla handleiðslu hans, og það var eins og þá horfði hann glögt fram á, að það fótmálið væri nærri, sem nú er stigið.

Og það er stigið; hið hugþekka góðmenni er ekki lengur hèr á meðal vor; hann er horfinn þangað, hvar það er allra vor ósk og von að lenda, þegar þetta lífsskeið er úti. En gröfin, í hverri hans dauðlegar leifar verða lagðar til hvíldar, hún minnir oss á þær fögru dyggðir: hina grandvöru trúmennsku og ráðvendni, hið guðrækna og góða hjartalag, tryggð og staðfestu og góðan vilja til allra; já, hún minnir á það í mörgu falli, hvernig vèr skulum lifa til þess, að vèr fáum að lyktum dáið dauða hins rjettláta; því það er gröf þess manns, hvers lífsferill að minnir í svo mörgu á þetta boð og fyrirheit: „Vertu trúr allt til dauðans, og eg skal gefa þèr lífsins kórónu“. Amen.

---

# III.

# GRAFSKRIPT OG ERFILJÓÐ.

## 1. Grafskript.



Galt hèr skuld alls lífs
góðum harmdauði
Factor MATTHÍAS JÓNSSON MATTHIESEN,
fæddur 6. júní 1812,
giptur 26. júní 1835
Guðrúnu Steindórsdóttur Vaage,
átti með henni 10 börn, af þeim lifa 5,
dáinn 18. des. 1859.

* * *

Hann var öllum góðviljaður,
vinum trúfastur,
skyldmennum ástríkur,
þurfꞇugum hjálpsamur.
Líf hans var fyrirhyggjusamt, ötult, starfsamt;
viðmótið ljúfmannlegt, falslaust,
tilgjörðarlaust, glaðlegt og þó stillt.

Því
sakna skyldmenni,
sakna vinir,
sakna hjálpþurfar,
saknar góður hver
hins góðhjartaða.

Lokið er starfi,
lokið mæðu,
lokið lífs er skuld.
En sá, er skuld vora
skuldlaus galt,
skuld hefur afmáð
hina skelfilegu.

Því að hans orð
um aldir standa:
munu miskunsamir
miskun hljóta;
er því nafn ritað
af náð drottins
liðins lífs í bók.

Svo setti framliðnum vini
P. G.

---

## 2. Erfiljóð.

†

1.

Hryllir opt hug,
Helja nær lífsandann rekur á bug;
hreystin sjálf verður að veiki,
vonin á reiki.

2.

Hversu sem hèr
hèrvistar samferðin gleðileg er
lífsins á skammförnu skeiði,
skilja þrátt leiðir.

3.

Þung finnst oss þraut
það, fyr en oss varði af rennslèttri braut,
horfinn er Matthías mæti,
er margt bar ágæti.

4.

Staðfesta, snilld,
stakleg mannelska, tryggð, friður, góðvild,
hans lýstu hverri' á stundu
hjartgöfgri lundu.

5.

Ástúð alreynd,
ættrækni samtaka dugnaði' og greind
önnur trautt eins meðal lýða
mun auðfengin víða.

6.

Saknaðar-sár
svella nú ástvinum, fella mjög tár
allmargir angurs við nauðir,
auðgir og snauðir.

7.

Hve systkin hans,
hjú, börn og kvinna hins nýtasta manns
nauðug að nábýli feta
nærri má geta.

8.

Horfinn er hann,
holdið gröf byggir, en andinn ljóssrann;

hal engan hæfir úr máta
heimnuminn gráta.

9.

Liggur leið vor
loks allra saman við efsta fótspor,
hana þó krókótta köllum,
Krists að ljóss-höllum.

10.

Opna blóðund
Alvaldur græðir, hann sæti þinn blund;
vinur! öll aldamót yfir
andi þinn lifir.

*G. Torfason.*

Hèr aptan við er prentuð grafskript og erfiljóð, er samin voru eptir bróður hins framliðna, Guðmund heitinn Jónsson, af því að ekki gafst betra tækifæri til að geyma þau á prenti handa ættingjum og vinum.

1. Grafskript.



Hèr hvílir
yngismaður sem andvana lík,
GUÐMUNDUR JÓNSSON MATTHIESEN,
fæddur 30. maí 1814,
dáinn 20. febrúar 1843.
Hann
harma foreldrar og systkini sjö,
trega vinir, og vandamenn.
Hans
sakna þeir, sem þekktu.

  

Dauðinn ef beittum bregður ljá,
brýndum helsóttar eitursteini,
hreysti' og fríðleikur hníga má,
hagleikur, snilld ei varna meini;
allir föllum vèr einn í val,
sá ungi má, en gamall hlýtur;

ósærð af návalds feigðar fal
fer dyggð til guðs og launa nýtur.

Svo minntist bróður síns syrgjandi
*Páll J. Matthiesen.*

---

## 2. Erfiljóð

við andlátsfregn GUÐMUNDAR JÓNSSONAR prests MATTHÍASSONAR á Arnarbæli (er deyði 20. febrúar 1843).

1.

Opt verður svart fyrir sjónum,
því svipul er gleði;
fátt er, sem þó reynist þyngra,
en þegar til moldar
ungir og öflugir falla,
sem yndi' og stoð veita,
þá er sem hásunna hverfi
og húmi' að dagmálum.

2.

Nú er sá fallinn til foldar,
er foldar var sómi;
geymist þar gimsteinn í jörðu,
sem Guðmundur hvílir;
banamein olli, því ellin
þeim ei veitti kvilla;

kölluð var hetjan, er hlýða
varð helþrumu röddu.

3.

Nú ertu fallinn til foldar,
er flestir þó vildu
tilvinna mikið að mættir
í mannbyggðum lifa;
foreldrar sárlega sakna,
þig systkinin trega,
vinir og hásetar harma
með heimilisfólki.

4.

Það er mèr ósýnt, að eigi
sèr eins margar dyggðir
nokkurs manns bústað í brjósti,
sem birtust í þínu.
Geðlempni, góðfýsi, stilling
og glaðværð í hófi,
tálleysi, tryggð og þolgæði,
er trautt fær sèr maka.

5.

Fylgdust að framkvæmd og iðnin
og forsjálni gætin,
samtaka sinnis-háleika
og sálar-atgjörfi;
hugrekkin, hetjumegn studdi
með handlaga íþróttum;

votta það verkin hin merku,
er verðskulda hrósið.

6.

Því ertu fallinn til foldar,
að faðirinn góði
lèt þig um hádegi hvílast;
þú hafðir vel unnið;
magnþrota mundin þín hvílist
rótt móður í skauti;
andi þinn fagnandi fluttist
til fullsælu - starfa.

*G. Torfason.*

---

6

Þorleifi Jónssyni
29/4. 1878.



# JÓRUNN ÍSLEIFSDÓTTIR MELSTEÐ.

MDCCCXVI—MDCCCLVIII.

# I.

# RÆÐUR.

## Húskveðja eptir prestaskólakennara Sigurð Melsteð.

---

Í. J. N.

Hversu beiskur ertu, dauði! hversu beisk er þín endurminning! þessi sorgarorð eru gömul á vörum mannanna, og munu heyrast þaðan, á meðan þeir eru settir á þetta dauðlegleikans og skilnaðarins land; skilnaðarins stund á milli ástvina er jafnan sorgarstund, og beiskur er dauðinn vissulega, sem optastnær gengur þannig í garð, að hann slítur hin viðkvæmustu ástarbönd, hrífur ástvin frá brjósti ástvinar, barnið frá móðurhjartanu, foreldra frá börnum, makann úr faðmi makans. Æ! hvílík ráðgáta er oss skammsýnum mönnum vort líf, hversu erfitt er oss einatt að átta oss hèr á þessari vorri stundarvegferð! hversu þungbært að geta skilið og tekið rèttilega þeim kjörum, sem oss eru úthlutuð! En — allir þínir vegir, drottinn! eru einber speki og náð, því ber oss að trúa því staðfastlega, að allt, sem þú úthlutar oss, sè oss sent í vísdómsfullum

og gæzkuríkum tilgángi. Gleðinnar kjörum útbýtir þú af þinni náð, sorgarinnar bikar rèttir þú eins börnum þínum af mildiríkum föðurkærleika. Vertu oss, miskunsami guð! nálægur á þessari sorgarstundu, sendu þinn huggunaranda niður í hin harmþrúngnu hjörtu, svo að sorgin helgist og verði þèr þóknanleg, og þessi sorgarstund verði oss að vonarstundu.

Jú vissulega er þetta sár sorgarstund; þessi líkkista, sem vèr nú stöndum við, geymir andvana líkama framliðinnar systur, sem nú ætlar að yfirgefa þetta heimili sitt í síðasta sinni, og kveðja þá, sem hún unni þar hugástum; hún skilur nú að líkamlegum návistum við alla sína ástvini, sem geyma eptir ógleymanlega minníngu hennar í tregandi en þakklátum hjörtum. Allir, sem þekktu þig, sæla framliðna systir! hlutu að elska og virða hina hreinu sál, sem fram gekk hèr í guðhræðslu og grandvarleika fyrir drottni; allir, sem kynntust þjer, hlutu að dást að skrautbúníngi hjarta þíns, sem lýsti sèr í hógværu blíðlyndi, innilegri hjartagæzku, stöðugri tryggð, auðmýkt og þolinmæði, og hafði rót sína í sönnum guðsótta. Því betur, sem eg lærði að þekkja þig, því lengur sem eg kynntist þínu hreina, elskulega hugarfari, og gafst kostur á að taka eptir því, hversu þú af samvizkusemi í því, að uppfylla skyldur þínar, einatt gekkst fram af sjálfri þèr, og gleymdir þínum veiku kröptum, hversu þú sèrhvert augnablik varst reiðubúin að afneita sjálfri þèr til að þjóna öðrum, hversu þú hjartanlega lèzt þèr annt um, að gjöra mínum ástkæra bróður, og þinni öldruðu, æru-

verðu móður lífið farsælt og ánægjulegt, því innilegar hlaut eg að elska þig og virða. Allt frá barnæsku hafði þín hreina sál inndrukkið guðsóttann í húsum guðhræddra foreldra; þar hafði þèr snemma verið tamið að hafa umgengni þína við guð, þar hafði þèr í æskunni verið innrætt, að hèr á jörðu erum vèr gestir og ferðamenn, og að vort rètta föðurland er á himnum. Já! vissulega þekktir þú af eigin lífsreynslu, þó þín jarðneska vegferð væri ekki laung, að hèr erum vèr gestir og ferðamenn, að vèr hèr á jörðu höfum engan blífanlegan samastað; þess vegna leitaðir þú líka hèr hins sanna föðurlands; þess vegna horfðir þú stöðuglega hèr niðri upp til hinna himnesku heimkynna; þess vegna varstu hèr á jörðu svo handgengin himninum. Nú hefur þú fundið hið varanlega heimkynni, sem frelsari þinn og vor allra hefur fyrirbúið þèr í húsi föður síns; hann, sem þitt hreina hjarta hafði stöðuglega umgengni við, en sem þú hèr að eins sást í ráðgátu, hann hefur þú nú sèð augliti til auglitis; sælir eru hjartahreinir, þeir munu guð sjá! Eins og þú, mín ógleymanlega sæla systir! varst þegar hèr á jörðu handgengin himninum, eins varstu líka handgengin dauðanum. Einatt vitjaði dauðinn heimilis þíns, einatt var aðkoma hans fyrir þig sár og sviðamikil, þegar hann kippti úr faðmi þèr þínum úngu ástvinum, sem drottinn hafði gefið þèr, og dauðans beitti broddur særði um leið þitt viðkvæma móðurhjarta djúpum sárum. Einatt máttir þú sjálf reyna árásir dauðans, þegar hann vitjaði þín í þúngum sjúkdómum, og rèðst á hina

veiku tjaldbúð líkama þíns; því — hèr barstu dýrmætan fjársjóð í veiku leirkeri; hèr varstu orðin samrýnd krossbyrði vanheilsunnar, og áttir eins og í sífelldu dauðastríði; þess vegna heimsótti dauðinn þig ekki heldur í þetta sinn eins og ókunnugur gestur; þú varst orðin handgengin honum í lífinu, hann kom ekki til þín í síðasta sinni eins og óttalegur sigrari lífsins, heldur eins og friðarins sendiboði, eins og frelsisins engill, til að leysa þína sælu önd úr fjötrum líkamans og flytja hana til hinna eilífu heimkynna, til borgar hins lifanda guðs; þar á friðarins landi hefur þinn þreytti andi fundið hvíld, þar hefur þú aptur samtengzt þeim ástvinum, sem á undan þèr eru farnir, þar á landi lifenda hefur þú fundið aptur þína úngu ástvini, sem þú tregaðir hèr, til þess aldrei að skilja við þá framar; þar mun engin sorg framar vitja þín, enginn sjúkdómur framar heimsækja þig, og dauðinn aldrei framar beiskja þèr fögnuð lífsins.

Lífsleið þín hèr, sæla systir! var ekki laung, lífsins og dauðans herra kallaði þig til sín á miðri vegferðinni; hinn himneski faðir, sem telur vora lífdaga, spyr ekki um fjölda vorra lífsstunda, heldur um það, hvernig vèr höfum lifað þær; guð hafði velþóknun á hjarta þínu, honum geðjaðist, hvernig þú hafðir brúkað þinn náðartíma, hann tók þig til sín á miðdegi lífsins, því í hans augliti varstu fullþroskuð fyrir himininn.

Vèr, sem hèr eigum enn þá eptir stundardvöl, látum oss því ekki harma burtför vorrar framliðnu

systur! nei, vèr hörmum hana ekki, vèr samfögnum lausn hennar, þeim sigri, sem hún hefur unnið, því betra hlutskipti, sem henni hefur hlotnazt; en með sárum söknuði tregum vèr allir, sem þekktum hennar guðhrædda og elskulega hugarfar, viðskilnað hennar við oss, því oss lángaði til að samferðast henni lengri tíma, ef það hefði verið guðs vilji.

Minníng hennar mun jafnan lifa í blessun, ekki einúngis í þessum húsum, sem hún kveður nú, heldur og í hjörtum allra ástvina hennar, og allra, sem nokkuð þekktu hana. Í guðhræðslu og grandvarlegleika, í hógværð og friði var framgánga hennar hèr; nú er hún inngengin í sælunnar og friðarins eilífu heimkynni. Þaðan sendir hún oss öllum sína friðarkveðju; innilegri þakklætiskveðju kveður hún þig, ástkæri bróðir! sem reyndist henni trúr og óþreytandi leiðtogi á samferð ykkar, sem barst með henni krossbyrði lífsins, sampíndist veikindum hennar, og hjúkraðir henni með viðkvæmri umhyggju í hennar lángvinnu og iðulegu sjúkdómum. Eg veit, að þitt blíða og trygga hjarta tregar sárt og innilega burtför þess tryggasta og ástkærasta vinar, sem drottinn hefur gefið þèr, hluttekníng allra viðstaddra vina og vandamanna er vottur þess, að þitt sorgarefni er mikið. En eg veit líka, að kristileg trú hefur djúpt fest rætur í hjarta þínu; af því eg veit, að þú snemma hefur tamið þèr að horfa til himins, til vors sanna föðurlands, þá veit eg líka, að frá hinum himnesku heimkynnum muni huggunarinnar ljós leiptra niður í þitt harmþrúngna hjarta,

og að þú munir finna hugsvölun hjarta þínu í þeirri huggun, sem kemur hèr að ofan. Þángað, til himins, þar sem þinn ástkæri maki er kominn í tölu annara ástvina, sem á undan henni voru farnir, rennir þú huga þínum á þessari stundu; þángað liggur einnig vor leið, þar munum vèr innan lítils tíma sjá hana aptur, því ekki eru þessir fáu lífdagar, þó oss einatt finnist þeir lángir og erfiðir, annað en lítill tími, sem liðinn er, áður en oss varir. — Yður, æruverða, sártsyrgjandi ekkjufrú! kveður yðar heittelskaða dóttir ástar- og þakklætiskveðju; straung var yðar vegferð með henni á leið lífsins, en óþreytandi reyndist yðar móðurkærleiki að styðja hana og styrkja á hinni erfiðu leið, allt frá vöggunni til grafarinnar; þúngbært var yðar tilfinníngarsama móðurhjarta, að sjá einatt heittelskaða einkadóttur andvarpa þúngt undir krossbyrði þjáninganna, en lèttbært var yðar þrekmikla móðurkærleika, að gleyma yðar eigin þúngu byrði, til að lètta undir þúnga yðar líðandi ástvinar. Hinum algóða hefur þóknazt, sártsyrgjandi ekkjufrú! að senda yður mikla reynslu; honum hefur þóknazt, að margreyna yður í lífsins skóla; honum hefur þóknazt enn á ný að særa yður nýju sári; en vissulega mun hann, sem er guð allrar huggunar, nú sem fyr með reynslunni senda sinn heilaga huggunaranda í yðar harmþrúngna hjarta; vissulega mun hann, sem er athvarf ekknanna, nú sem fyr, verða yðar athvarf; vissulega mun hann, sem híngað til hefur verið yðar styrkur, ekki heldur nú láta yður bregðast sinn styrk; fyrir hans náð munuð þèr

geta sagt: »þó að minn ytri maður hrörni, þá endurnýjast samt minn innri maður dag eptir dag«.. Hann, sem hefur gróðursett móðurkærleikann, mun telja þau tár, sem hið tregandi móðurhjarta úthellir; þeirri hryggð, sem þèr nú hafið, mun hann síðar breyta í fögnuð á sælunnar og fagnaðarins landi, þegar þèr aptur fáið að sjá yðar sælu dóttur í tölu guðs útvaldra barna. — Yður, úngu ástvinir! kveður yðar elskaða, sæla móðir. Látið yðar sorgbitnu hjörtu ekki skelfast! Hefjið hugann til hinna himnesku heimkynna; þaðan ávarpar yðar sæla móðir yður sínum friðar- og blessunaróskum; þar biður hún fyrir yður, að þèr megið fara sívaxandi í náð hjá guði og mönnum, að þèr megið verða sæl bæði þessa heims og annars; hafið, eptir dæmi yðar sælu móður, stöðuglega umgengni yðar við guð, gleðjið hana í himninum, með því að framgánga hèr á jörðu í guðsótta og dyggð; huggið, ástkæru úngu vinir! yðar sártsyrgjandi föður með dyggðugri breytni; gleðjið yðar öldruðu, margreyndu ömmu með lofsverðum mannkostum, og gjörið henni með þeim kvölddag lífs hennar unaðarsamlegan; það er sú bezta lækníng, sem þèr getið veitt þeirra særðu hjörtum. Setjið traust yðar og athvarf til guðs; og hann, sem aldrei gleymir sínum börnum, mun geyma yður eilíflega í sínum föðurfaðmi.

Svo látum oss þá hefja hugann til himinsins; látum oss hafa það hugfast, að vèr felum himninum en ekki gröfinni vora framliðnu ástvini; í þeirri öruggu trú fylgjum vèr þínum jarðnesku leifum, sæla

systir! í guðs hús, áður en þær eru lagðar í hinn helgaða reit framliðinna. Blessaðu oss, drottinn! þessa sorgargaungu; láttu þessa sorgarstundu, og sèrhverja stundu lífs vors minna oss á, að vèr hèr erum gestir og ferðamenn, og að vort sanna föðurland er á himnum, svo að vèr, meðan vor náðartími stendur yfir, hèr á jörðunni höfum vora umgengni á himnum. Bænheyr það í þíns sonar nafni, amen.

---

Ræða flutt í Reykjavíkur-dómkirkju af prófasti Ó. Pálssyni.

---

Á þínu valdi, drottinn! erum vèr dauðlegir og allt vort ráð; þú sendir oss sorg og reynslu þessa lífs af hinni sömu föðurgæzku, sem veitir og svo gleðinnar stundir. Og gef þú oss ætíð, og gef oss einnig á þessari stundu, að taka þeirri sorg, sem þú sendir, með trú og trausti og fúsri undirgefni undir þinn föðurvilja. Gef það öllum þeim, sem syrgja yfir þessum moldum. Þá eru þeir sælir, þótt þeir harmi, því þeir munu huggaðir verða. Amen!

---

Þegar oss mæta hinar þúngbæru sorgarstundir, þá er jafnan eitt og hið sama skjólið, sem vèr fáum leitað og leitum í, til þess að öðlast huggun og sorganna lètti; en það er hjá guði, föður misk-

unsemdanna. Og sælir erum vèr, hver sorg sem oss mætir, ef vèr einúngis fáum falið oss hans mildri föðurhendi; því hún ein megnar að græða öll vor sár og þerra harmatárin af vorum augum. Æ, látum oss þá í hans nafni og hans miskunarskjóli eyða þessari sorgarstundu. Vor allra hjartans ósk er víst sú, að hún hefði mátt hjá oss líða; því skyldi hið syrgjandi hjarta nokkru sinni neita sèr um þá svölun, að andvarpa með honum, sem sagði; »Minn faðir! ef það er mögulegt, þá líði þessi kaleikur frá mèr«? Biðjum vèr þannig með honum, þá biðjum vèr í sannri trú, og getum einnig bætt hinu við: »þó ekki eins og eg vil, heldur eins og þú vilt«. Og guð gefi það öllum, sem hèr syrgja, að geta með þvílíku hugarfari fylgt til grafarinnar þeirri elskuðu systur vorri, sem hèr hefur svo snemma, og harmdauð öllum, sofnað hinum síðasta dúr. Hjartnanna sár eru opt næsta viðkvæm fyrir þá, sem eptir lifa, þegar hin góða manneskja verður, eins og hèr hefur skeð, burtkölluð um hádegisstundu lífsins og mitt í þess helgustu störfum. Því fremur sem manneskjunnar dyggð skartaði fagurt um hið stutta lífsskeið, því dýrmætari hún fyrir svo margt elskuvert, sem bjó í fari hennar, verður ástvinum sínum, því fremur veitir það örðugt, að halda aptur hinum beisku sorgartárum yfir hennar gröf. Sú blíðari tilfinníng hjartans, sem lætur þau fljóta, er innrætt af skaparans hendi, og því höldum vèr ekki aptur þeirri fórn, sem jafnt heiðrar minníngu hinna ástkæru, og svalar vorum sorgmæddu hjörtum. Og syrgjum vèr

þannig ástvini vora, sem það gefst ekki að njóta lengur hèr stundlega, þá vitum, að það skeður eptir vilja guðs, sem gjörir ekkert tilgángslaust, og hefur heyrt hvert andvarp, talið hvert tár vorrar hreinskilnu sorgar, með hinni sömu föðurgæzku, með hverri hann úthlutar svo miklu af því, sem er til að gleðja. Gætum vèr þessa, þá kunnum vèr og svo að syrgja með voninni til hans, með því hjartalagi, sem trúaröruggt felur sig hans vilja, í sorg sem í gleði, og segir: »Ekki eins og eg vil, heldur eins og þú vilt«. Sú huggun, sem það gefur, hefur meira ágæti með sèr, en nokkur sú gleði, sem af heiminum er; og hún svalar því fremur hjörtunum, sem innilegri og hreinni er vor sorg, sem hinn saknaði ástvinur var betri og samtengdur oss með hjartfólgnari elsku. Betri gjöf, en að njóta þvílíkra, fær guðs föðurhönd aldrei rètt að oss, en vèr könnumst bezt við elsku hans, sem gefur, með því að hneigja vor hjörtu undir hans blessaðan vilja, og vegsama eins hans nafn, þegar hann tekur aptur sitt lán.

Hèr er það hin sannkallaða góða og elskuverða manneskja, sem vèr með sorg og söknuði hljótum að fylgja til grafar. Það mun varla nokkur einn af yður, sem hèr eruð staddir, að hann fái með öðrum tilfinníngum gengið þessa gaungu, eða numið staðar við hennar gröf. Lífið var ekki lángt, því það náði ekki fleirum en rúmum 42 árum, og þó munu allir, sem til þekktu, játa, að það hafði flest það sèr til ágætis, sem jafnvel hinn hái aldur sjaldan fær náð. Svo var það búið flestum þeim kvenndyggðum, sem

sameinazt gátu, til að prýða það. það er sárt og tilfinnanlegt fyrir þá, sem eptir lifa, þegar þvílíkri manneskju verður svo snemma kippt i burtu; vegir guðs, sem ræður því, liggja þá huldir fyrir oss dauðlegum, og eitt einúngis skynjum vèr, og það má um leið hugga vor sorgbitin hjörtu, að því betri einn var og verðugri vorrar elsku, því fremur á hann sitt sanna heimkynni á öðrum sælli og betri stað, en þessari jörðu, og um þvílíka sjáum vèr það opt, að þessi stundlega dvöl verður næsta stutt fyrir þá.

þessi hin framliðna hafði mikið þegið af guði. Henni virtist nærri að jöfnu veitt bæði fríðleikur og góðar sálargáfur, gáfur fyrir hvers kyns nám, og það náttúrufar, sem í alla staði hneigðist að því, sem gott er. Hún naut þess mikla láns, að eiga hina beztu foreldra, sem leiddu hana með ástríkri umhyggju fram yfir æskunnar ár; og hvað sjaldgæfara er, jafnvel þó árin ekki verði fleiri, en hèr er sagt, þá var hinni nákvæmu móðurhendi aldrei af henni svipt, já, hún hefur og svo nú tekið þátt í því þúngbæra skylduverki, að apturlykja síðast hennar augu. Fáir munu í foreldra húsum verða njótandi betri og fullkomnari menntunar, hvort heldur til sálar eður líkama, en þessi framliðna; enda mun það mega fullyrða, að hún í flestu þvílíku skaraði fram úr öðrum. það var auðsjáanlegt á öllu, og eins á því, hvernig hún, eins og húsmóðir, stóð í sinni stètt. þetta er mikils vert, en hèr var það því fremur, sem það var sameinað flestum þeim dyggðum, sem eru sálarinnar sannasta prýði. Hèr

var sú manneskja, sem það var í öllu svo stöðuglega innrætt, að vanda sitt ráð, eins og fyrir guðs augliti. Hjartað var bæði hreint og stöðugt í tryggðum og í öllu góðu; framgángan siðsöm og stillt, viðmótið blítt og hógvært, og tíðast temprað með þeirri hæglátu glaðværð, sem hlýtur að vera svo geðþekk öllum.

Þó æfiárin væru ekki mörg, má það hèr samt segja, að miklu dagsverki var af lokið. Hátt á 18. ár hefur þessi framliðna bæði í blíðu og stríðu verið hin sama trygga og blíðlynda aðstoð ektamannsins, sem nú syrgir við hennar gröf; ástrík og nákvæm móðir barna sinna, bæði þeirra, sem hún hlaut að sjá á bak, og eins hinna þriggja, sem með elsku- og saknaðartárum heiðra minníngu hennar, þegar hún er liðin. Hún gætti síns húss með árvekni, og mátti í alla staði segjast að vera þess prýði. Því var það svo, að þó á margri reynslu væri að kenna, bjó þar jafnan hin sanna blessun guðs. Vèr hvorki viljum nè getum rèttilega aðskilið þetta frá því, sem eg vil halda að hafi verið aðaleinkennið á sálu hennar, en eg vil orða það svo, að hún hafi verið handgengin guði. Og það var margt, sem lýsti þessu í dagfari vorrar sælu systur. Hún naut að vísu mikils af sannkölluðu meðlæti þessara lífdaga: guð gaf henni góðan og blíðlyndan ektamaka og efnileg börn; hún naut þeirrar gleði, að móðirin, sem hún bæði elskaði og hafði í heiðri, veik aldrei úr húsi hennar, og að hin nákvæma móðurhönd var henni jafnan því meiri og betri aðstoð,

sem meira reyndi á. En með þessu fylgdi og svo mörg þúngbær reynsla. Hún kenndi bæði á sárum ástvinamissi, og hennar viðkvæma móðurhjarta reyndist mikið í því, að sjá upp á þúngar líðanir barna sinna, og fimm þeirra hafa andazt á hennar örmum. Sjálf reyndi hún mikinn heilsubrest, og lá optar en einu sinni fyrir dauðans dyrum. það er hægt að geta í vonirnar, hvílík áhrif þessi reynsla hlaut að hafa á blítt og viðkvæmt hjarta, og ekki að undra, þó hún hefði gjört mikið að því, að niðurbeygja lífsfjörið. En hitt er víst, að þó tíðast væri að kenna á einhverju af þessu, þá vèk aldrei frá henni traustið til guðs og hans gæzkuríkrar forsjónar. Hjartað, sem það var tamt að umgangast hann, minntist jafnan með auðmýkt við hans hönd, þó hún hvíldi þúngt á því. það var þetta, sem sýndi hina sannkölluðu guðræknu manneskju; og það kom hèr jafnt fram í þolgæði í mannraununum, og í því, að vanda svo í alla staði sitt ráð, eins og fyrir augliti guðs. þetta einkenni fylgdi henni víst til hinnar síðustu stundar. Undir hinum þúngu þjáníngum, sem opt virtust að vera svo miklar, að þær hlytu að svipta sjónar á öllu því, sem af heiminum er, mun sálin þess stöðugar hafa haft sína umgengni hjá guði. það var á hinu síðasta dægri lífsins, að hún einhverju sinni vaknaði af nokkurs konar svefnværð með þeim orðum, að nú hefði hún »verið að tala við guð«. Hvort heldur þau orðin sjálf hafa í það skipti verið töluð með glöggri hugsun eður ekki, þá vitna þau um hið sama, hvar hugurinn hafði sein-

ast búið. Og enginn af oss fær óskað sèr nokkurs betra á sinni síðustu stundu, en að hugir vorir megi þá vera hjá guði, vorum seinustu orðum snúið til hans, og hinum seinustu andvörpum varpað í hans föðurfaðm. En það veitist þeim einum, sem á lífsins heilbrigðu dögum lifðu í guði og höfðu sína umgengni við hann.

þannig er þessi vor elskaða systir skilin hèr við, söknuð oss öllum, en sárlega treguð af eptirlifandi ástvinum. Hèr er bæði öldruð móðir, sem, þreytt af margfaldri reynslu lífsins, hefur enn nú hlotið að búa sína elskaða dóttur til hinnar síðustu hvíldar, og hefur við það eitt að huggast, að innan lítils tíma muni það veitast, að sjá aptur hina ástkæru, sem fyrri eru farnir, — og hèr er sorgbitinn ektamaður, sem svo snemma hlýtur að skila aptur því bezta láni, sem guðs föðurforsjón hafði veitt, og gjörir það bæði með hrærðu hjarta, og með þakklæti til gjafarans, fyrir alla þá blessun, sem hann naut með þessari framliðnu. Stundlegar samvistir hefur dauðinn náð að slíta, en hann fær aldrei slitið kærleikans heilaga band, því það er tengt af guði, sem er sterkari en dauðinn, og sem á sælum samfundadegi mun tengja það aptur, svo að ekkert megnar framar að skilja. Hèr syrgja börnin elskaða móður, sem með stöðugri nákvæmni og blíðu bar þau og þeirra heill fyrir brjósti. Já, þeir eru enn nú fleiri, sem maklega telja sig með ástvinum hennar, sem öllum vildi hið bezta og gladdist við allra heill. Og yður öllum, mín elskuðu! fæ eg einúngis sagt

hið eina, sem eg aldrei hef með meiri sanni getað sagt yfir líkkistunni, en nú: vitið, að hèr hefur sú manneskja skilið við, sem guð hefur útvalið, að sú sál, sem byggði þessa föllnu tjaldbúð, átti vissa heimkomu í hans föðurskaut. Eg veit, að hjörtu yðar fá ekki neitað sèr um sorgarinnar beisku svölun, en til þess að tárin þorni af yðar sorgmæddu augum, þá snúið sálarinnar sjón að því sæla ljósi, sem skín yfir alla hina útvöldu guðs. Hann gefi yður að gjöra það, sem að síðustu mun snúa allri vorri stundlegri hryggð í fögnuð.

Það er þángað, sem vèr allir eptirþreyjandi horfum eptir þèr, vor sæla, burtsofnaða systir. Þú kennir ekki framar á þessa heims sorgum, en nýtur æðri og meiri gleði, en hann fær nokkru sinni veitt. Guði sè lof fyrir það, hvað þú varst um lífsins stutta skeið. Vèr kveðjum þig allir með þeirri hjartans ósk, að hvenær sem kemur vor síðasta stund, þá gefi hann oss að ná þeim sömu friðarins heimkynnum, sem þú hefur þegar gist. Amen!

---

# II.

# GRAFSKRIPT OG ERFILJÓÐ.

## 1. Grafskript.



Dáin úr dauðaheimi lifir nú lífi æðra
JÓRUNN ÍSLEIFSDÓTTIR MELSTEÐ,
fædd á Brekku á Álptanesi 14. d. maímán. 1816;
gipt þar 30. d. desemberm. 1840
cand. philos. Páli Melsteð,
móðir 8 barna,
— 5, sem dóu á undan henni, og 3, sem lifa, —
dáin í Reykjavík 21. d. ágústmán. 1858.

---

Hafði hinn Alvaldi
henni veitta
kosti mæta' og marga:
gáfur, geðprýði,
góðvild staka,
blítt og hógvært hjarta.

Hafði' og uppeldi,
í ótta drottins
og hvers kyns mætum menntum,

búið hana öllu,
bezt er jafnan
hefðarkonum hæfir.

En sjálf hún hafði
hegðun alla
drottni' og dyggðum helgað;
gott að vinna,
guði' að þjóna
mest hún mat af öllu,

---

Vinsældir, heiður, hrós
henni þó fèlli í skaut,
samt hennar líf var ljós,
sem laungum blakta hlaut;
því margur mæðugustur
hèr á það lagði' og olli þraut.

Sjúkleiki' og sorgir með
sárt þó að legðust á,
æ hennar glatt var geð,
því guði jafnan hjá
hún hjartað hafði' og trúði,
að gott er allt þeim föður frá.

Athæfið allt og mál
um það ljóst vitni bar,
að ástrík og einlæg sál
innra bjó fyrir þàr;
vegna þess ætíð öllum
— en sínum helzt — hún hjartkær var.

Nú drottins hefur hönd
hennar öll meinin grætt;
nú hennar alsæl önd
aptur þeim hefur mætt,
sem hjer hún hlaut að missa;
grátum ei, — hennar böl er bætt!

---

Gef, að hver gæti' og skilji,
guð! að þinn helgur vilji
speki og náð eilíf er;
guð! hjartna græddu sárin,
guð! sorga þerrðu tárin
þeirra, sem harma hèr!

*Helgi Hálfdánarson.*

---

## 2. Erfiljóð.

†

1.

Mörg hafa blómin furðu-fríð
fallið að rótum svarðar,
sem fuglaröddin fögur og blíð
fylgdi að skauti jarðar;
þeir lofuðu guð, er allt það á
aptur af jörð vill til sín fá,
í hópinn sinnar hjarðar.

2.

Æfi blómanna allra þú

eptir lèzt, góða kvendi!
ásjónu þeirra, traust og trú
tókst þú með blíðri hendi,
lèreptin fengu líf og mál,
þá lèkst þú þèr með skæri og nál;
guð þèr þá gáfu kenndi.

3.

En eitt er blóm, sem enginn sèr,
of stutt það hjá oss dvaldi,
guð kveykti það á kinnum þèr,
kærleiksfullur hann valdi
þig sèr að vini og veitti þèr,
veglegast það í heimi er;
dapur er dauðinn kaldi!

4.

Í roða sínum rósin dó,
raddlaus er túngan blíða,
og ímynd þína oss enginn bjó
svo ástríka og fríða;
grátandi að þínum grafarreit
gengur skáldið, með tárin heit,
að kveðja kvendið þýða.

*Gísli Thorarensen.*

---

Hvað ertu að gjöra;
grimmúðgi dauði!
þá beitir sigð þinni
á blóm en fegurstu,
og særir um leið

sári djúpu
hjörtu tryggðföst
og hugarblíð?

Hvað ert' að gjöra,
þá hörðum járngreipum
sárinda og sóttar
þú sundur liðar
hallir veglegar
himin-sendra
gesta góligra,
guðs ástgjafa?

Æ, hví hlaut Jórunn,
Ísleifi borin,
blóm-kvendið þýða,
þrek-kvendið stillta,
tryggð-kvendið ljúfa,
með tállausa hjartað,
að bergja svo úng
á bikar vanheilsu,
og hníga svo snemma
fur heljarbrandi?

Hvað er líf vort
á landi dauðans?
Skóli skammvinnur,
skilyrðis dvöl,
undirbúníngur,
og ekkert meira,
lífs vors ens sanna,
hvers lok ei bíða.

Hvað er líkaminn?
Leirbúð jarðnesk,
fagurt en fallvalt
furðu-smíði.
Hvert er ágæti
hèrvistar-daga?
Armæða, þreyta,
ánauð og stríð.

Gott er andanum
ódauðlega,
sem unni guði
og góðu öllu,
úr fjötrum jarðneskum
sem fyrst að leysast,
og fæðast í náðarskaut
frelsarans góða,
og laugast í kærleiks-
lind himneskri.

Gott er guðsbörnum
að gánga með sigri
úr baráttu jarðar
og böls aðköstum,
hvenær sem þóknast
himnaföður
að fóstur það fæðist
í flokk hans útvaldra.

Gott er að flytjast
á guðs engla vagni

úr faðmi fastlyndra
fróns ástvina
í faðminn útbreidda
frelsarans blíða,
og verða þar fagnað
af vinum fyrrkomnum.

Falla hèr fögur blóm,
er fold vora prýða
að gróðursetjist þau
í guðs dýrðar akri,
og skíni þar útvaldra
unaðsljóma,
sem engum áskyggist
ama stundarheims.

Sjáið í trúnni
syrgjandi vinir!
hve fagurt Jórunn skín
hjá frelsarans stóli.
Heyrið himneskan
hreim lofsaungva,
er engils vörum
út af streyma.

Sjáið í trúnni
á sælli stundu,
heim þá kallizt þèr
frá hèrvistar reynslum,
engilfaðm skínanda
yður á móti

blítt hve hún breiðir
í borg guðs lifanda!

þökkum himnaföður
þrótt, heilsu, líf,
verjum því og vinnum
í víngarði hans,
hræðumst ei dagsins
hita nè þúnga,
en hugsum vonglaðir
til heillastundar;
þá förum vèr og finnum
fullsæla vini.

*Sveinn Níelsson.*

---

1.

Hvert er farin hin fagra og blíða,
fyrr sem gullörmum vafði þig tveim,
úr eymda flóði lífs er nam líða,
hvert leið hún í svipa myrkfáinn heim?
nei! til dýrðlegra Serafims sala,
þar sjer hinn þríhelgi tignarstól bjó,
og' hans hyrðsveitir aldur sinn ala,
sem örkfángin dúfa hin leysta burt fló

2.

Múgur eingla þar mót' henni skundar,
meðtekur fagnandi nýkominn gest;
*fimm* þó fremstir og öllum á undan
að henni svífa, sem fagni þeir mest;

með gulltár í augum glaðir umkríngja
guðkjörinn dýrðlíng og leiða með sèr.
»Móðir, móðir«! svo sætan þeir sýngja,
»sögð ertu' í guðs nafni velkomin hjer!«

3.

Og hinn sendi þeim samsýngur flokkur:
»Sögð ertú' í Guðs nafni velkomin hèr!«
enn hann furðar, að flekkur vart nokkur
finnst á henni, sem komin þá er.
Hana því mundi og hreina ei finna
himin, þars æ býr sannleikinn skær,
heims er lastgjarnir lofuðu munnar,
og lýgi skeytin sèr hopuðu fjær?

4.

Sitt í fjelag með fögnuði kjósa
flokkar himins hið ágæta víf,
leiða' um ódáins akurinn ljósa,
hvar unan er sjerhvað og gleði og líf,
enn er lykkjur þar leiðinni breyta
litur, þaðan hin himneska þjó,
eptir jörðunni' er augað að leita
og þeim vinum, er með hún þar bjó

5.

Þú, sem sárar með sútir í brjósti
saknandi mænir til hennar svo títt,
lífs í nöprum þú gráta mátt gjósti,
hvar geturðu hjarta svo ástríkt, svo blítt?
Geym vel í minni það gott allt hún veitti,
hins góða hjarta það svöðun er dýr,

og von, þá ekkert, já ekkert sem þreytti,
eilífa huggun hún sál þinni býr.

6.

Dauflegt er hjá þèr í híbýlum vinur!
harla dapurt allt kríngum þig er;
hress viltu sýnast, enn hjarta þitt stynur,
hrínginn vina þann brotna þá sèr.
Enn á nóttum, þá ljós eru liðin
og liður hjarta þitt sárast og mest,
blund' þú sviptist, og finnur síst friðinn,
færðu þó enn þá hjartkæran gest.

7.

Hún, er fyrrum títt sat þèr við síðu
á sál eða líkama', er mein barstu hljótt,
en við rúm þitt með bragði svo blíðu
broshýr situr, þó hylji' hana nótt;
átt' nú að varðeingli áður þinn maka,
hún ann þjer af hjarta, man þig sem þá,
í kyrrþey horfið hún hefur til baka
frá heimi þeim, hvar hún þig ekki sá.

8.

Enn þá nálæg þjer er hún og jafna
einum hugurinn dvelur hjá þèr;
enn hún gleðst, þegar yndi þitt dafnar,
enn hún hryggist, nær sorgin þig sker.
Hennar ekkert þig hylli lát ræna,
hraustlega berstu þó dragi' yfir ský,
og lúinn torfu nær leggst undir græna,
laun þín meðtaktu faðmi hennar í.

*Ólafur Indriðason.*

Þorleifr Jónsson
4./4. 1878.

# PRJEDIKUN

Á 4. SUNNUDAG EPTIR TRINITATIS

EPTIR

**MAG. JÓN ÞORKELSSON VÍDALÍN**

SKÁLHOLTSBISKUP.

—

ÚTGEFANDI:

*JÓN BJARNASON STRAUMFJÖRÐ.*

REYKJAVÍK 1878.

PRENTUÐ Í PRENTSMIÐJU ÍSAFOLDAR.

Sigm. Guðmundsson.

# KÆRU LANDAR!

Hjer kemur yður fyrir sjónir ein ræða eptir hinn nafntogaða kennimanna-meistara vorn, Mag. Jón Þorkelsson Vídalín, Skálholtsbiskup; hennar er, það jeg veit, hvergi getið í ritum þeim, sem eptir hann finnast, eður um hans æfi eður lífsstarfa skrifuð eru. Hvað slíku valda kann, er jeg eigi sannfróður um, hvort það er að kenna eptirmönnum hans, biskupunum, sem að líkindum ættu að vera fróðastir um öll störf formanna sinna, eigi sízt hinna merkustu af þeim, og þess vegna gætu látið ýms gömul rit koma fyrir almennings sjónir, þeim fyrverandi Guðs mönnum til blessaðrar og ævarandi minningar, sem eiga alls landsins og allra eptirkomanda sinna æfinlegar þakkir skilið fyrir lífsstarfa sinn landinu til frama og blessunar; — eður að það er af hálfu hinna veraldlegu höfðingja lands vors, er hafa nú á síðari tímum, haft hönd í bagga um útgáfur ýmsra bóka, og einkum nú á hinum síðustu tímum. Máske hvorumtveggja hafi ræða þessi þótt benda lengra fram í veginn en einungis það árið, er hún var rituð á, og þann tíðaranda, er þá var. En hvernig sem þessu er varið, mun ræða þessi flestum ókunn, og

er hún þannig komin í mínar hendur, að herra lögregluþjónn Jón Borgfirðingur hefur góðfúslega lánað mjer ræðuna, þá, er þessi er skrifuð og prentuð eptir; segist hann fyrir nokkrum árum hafa fengið sína skrifaða eptir gömlum ritum ofan úr Borgarfirði; og er það vel líklegt, að ræða þessi hafi þar dulizt í einhverjum gömlum bókum eður ritum, því allir vita, að Jón prófastur Halldórsson í Hítardal og Jón biskup Vídalín voru í miklum kærleikum hvor við annan og skrifuðust opt á. Er því eigi ólíklegt, að ræða þessi hafi getað dulizt þar í einhverjum ritum afkomanda síra Jóns eður annara vandamanna; það vita menn fyrir víst, að þau árin, er Jón biskup var að semja postillu sína, sendi hann Jóni prófasti Halldórssyni sitt árið hvorn partinn til yfirlesturs; og bendir það meðal annars á, að Vídalín hefur eigi viljað semja og því síður umbreyta bókum og troða þeim svo upp á landið og gjöra þær gildandi, hvort sem þættu vel eða illa úr garði gjörðar, án þess að láta hina helztu og beztu andlegrar-stjettar-menn sjá verk sín og láta í ljósi álit sitt um þau. Sama má einnig sjá af 1. útgáfunni af öllum bókum hans, sem prentaðar eru á Hólum, að honum lifanda, því Steinn biskup Jónsson hefur ritað formála fyrir þeim og látið í ljósi álit sitt um ágæti þeirra.

Inntak ræðunnar er um lögin, og hún bendir einkum á meðferð laganna á þeim tíma, er höfundurinn lifði. Guði sje lof, ef þeirra meðferð hefur batnað síðan um hans daga, en Andskotinn hafi skömm, ef hann hefir komið nokkrum til að misbrúka lögin síðan, og hver sá dómari ætti að ganga huldu höfði, er vissi sig hafa gengið í fótspor þeirra formanna sinna, sem Jón Vídalín talar um að gjöri rjettinn að malurt, hvort sem það er með rjettar-neitun eður röngum dómum, en þó eigi sízt fyrir embættis-leti og stjórnleysi, ef

því líkt hefði fundizt síðan um Vídalíns daga; og kynni máske einhver að segja, að hjer ætti við sú bending, er hann talar um misbrúkun laganna á hans dögum, að ef þvílíku skuli lengi framfara, er um hans daga gekk, þá muni Drottinn svo drepa á þeirra manna hrygg, er þá lifðu, að svíða muni til eptirkomandanna. — Þessi fáu orð, er jeg nú skrifað hefi, eru eigi til þess að lofa eður tala fyrir þessari ræðu, því hún lofar sig sjálf, eins og öll verk Jóns Vídalíns, sem skal og má reiknast hinn dýrðlegasti kennimaður, sem Ísland hefur borið, og jeg er viss um, að þeir Íslands synir, sem lifa í hinni einföldu kristilegu trú og ekki taka eintóman einkennisskrúða andlegs volæðis fram yfir hið hreina og óblandaða Guðs orð, sem talar rjett í hverja átt sem er, — taka allir fegins hendi við henni, og misvirða alls eigi, þó að jeg sem umkomulaus og lítt menntaður verzlunarþjónn hafi tekið mjer það sjálfræði í vald, að láta það verk hins ódauðlega meistara koma fyrir almennings sjónir, sem höfuðprestar og skriptlærðir annaðhvort eigi hafa getað eða eigi viljað gjöra nú á 1½ öld. Og þó jeg nú viti, að sumir menntaðir menn hneixlist ef til vill á þessu fyrirtæki mínu, þá skiptir mig það engu, því jeg veit, að enginn eykur sóma sinn með því.

Þá vil jeg geta þess, að ár það, sem ræða þessi var haldin á, mun eigi auðvelt að finna; að minnsta kosti hefi jeg eigi getað það, og hefi eg þó yfirfarið alþingisbækurnar frá 1711—1720 og sömuleiðis Biskupasögur Jóns prófasts Halldórssonar, en að líkindum mun það verið hafa 1718 eptir því sem reiknað hefur verið eptir rími; og eptir því sem fróðir menn segja, bar 4. sunnudag eptir Trinitatishátíð þá upp á 10. júlí, en þing var sett þann 8. s. m., og mun því ræðan haldin verið það sama ár. Segir sagan þá, að Vídalín hafi

haft meðferðis til alþingis 11 stefnur, en fjekk engu málinu framgengt sakir undanbragða Odds lögmanns Sigurðssonar, enda voru þær flestar honum eitthvað viðvíkjandi, því þá var ríki hans og uppgangur sem mestur. Þá er mælt að biskup hafi sagt, að bezt væri að fresta þinginu fram yfir helgina, og bætt því við, að hann ætlaði þá (á sunnudaginn) að stíga í stólinn. Hann gjörði það og flutti þá þessa ræðu; og er þess getið til marks um, að einhverjum muni hafa þótt hún mergjuð, að frændi hans, Páll lögmaður Vídalín, hafi átt að ganga úr kirkju í miðri prjedikun, og orðið þetta að orði: „Skárri er það nú ræðan; mikill dómadags . . . . . . . er á honum Jóni“. En þá kom Oddur daginn eptir með nýjar flækjur, og fjekk biskup engu áorkað með allar sínar stefnur; og sýnir það, að opt hefur lagaleysi við brunnið á landi hjer.

Árið 1720 var dauðaár hins mikla höfuðsnillings íslenzkra kennimanna, því aldrei hefir nokkur fyrir Vídalíns daga og *því síður eptir hann* komið hjer fram með eins skörunglega kenningu og hann gjörði, jeg meina þá kenningu, sem eins hefur verið áminnandi, ráðleggjandi og refsandi eins og hans var, en þó undir eins huggandi, styrkjandi og fræðandi, og eins fullkomlega útskýrða og forsvaraða eptir heilagri ritningu eins og hann kom fram með. Það hefur margur sagt, að ef Vídalín væri nú á dögum að kenna og prjedika, þá mundu kenningar hans varla eiga við vorn tíðaranda og kröfur kristindómsins á vorum dögum. Margur lýgur meiru en það; jeg játa það og satt vera að nokkru leyti; en jeg vil spyrja, á hverju byggja menn þessar skoðanir sínar? Það skyldi þá aldrei vera byggt á því, að þeim hinum sömu þætti Vídalín láta Heilaga Ritningu tala allt of mikið, sanna, útskýra og staðfesta kenningu sína,

því nú á dögum eru menn eigi slíku vanir. Nú er sá tími kominn, að hver vill láta prjedika eins og hann girnir í þann og þann svipinn, og er sú spilling skríðin inn fyrir Drottins altari í hinni kristilegu kirkju vor á meðal (jeg meina ekki eingöngu hina sýnilegu kirkju); og einn samvizkusamur sálnahirðir, sem óskandi er að sem flestir væri, þorir nú eigi að segja sóknarbarni sínu til syndanna, sem þó er hans embættis-skylda, án þess að hljóta að fara á bak við þá vináttu og virðingu, er hann með rjettu á skilið af tilheyrendum sínum.

Þegar þjer nú, kæru vinir, athugið þetta með skynsemi, er jeg nú sagt hefi, sem þó er eigi hálfsagt, ef nokkuð duga skyldi, þá vona jeg, að þjer munuð sjá, að ef gamli Vídalín mætti nú stíga úr gröf sinni í stólinn, og bæta nú við það, sem hann hefur svo víða bent á í kenningum sínum, trúarleysið, bænræktarleysið og kærleiksleysið, er hann svo opt tekur fram í ræðum sínum, að sje hið fyrsta til að sundra kirkju Drottins á Íslandi, þá segi jeg, að enginn 'mundi segja, að Vídalín gæti eigi prjedikað nú eins og hann gat það fyrir 1 1/2 öld síðan, því jeg efast eigi um, að hann mundi flestum fremur geta opnað eyru margra enn í dag fyrir hinum hreina, skarpa og heilaga sannleika, fyrir hinum mikla mismun á Guðs gæzku og Djöfulsins illsku, fyrir hinni dýrðlegu sælu í Guðs ríki og hinni eilífu kvöl í helvíti, er nú svo sjaldan er nefnt, o. s. frv. Þetta mun nú eigi þykja eiga hjer við; en ef vjer athugum nú ástand kristninnar hjer á landi, og hvernig hún liggur nú fallin í fjörbrotum dauðans, og annað er eigi sýnilegt, en að hún annaðhvort slokni útaf af sjálfri sjer, eður hún verði einhverjum af hinum vesölustu af falskennendunum að bráð, hvað Drottinn vor náðarsamlega varðveiti

sína kristni frá, en gefi henni aptur á móti þá forstjóra og fyrirliða, sem þora og kunna að bera hin hreinu vopn sannleikans, hin góðu vopn andans, og hin kröptugu vopn orðsins fyrir höfuð henni, því þá mun henni vel vegna.

Nú kveð jeg ykkur, kæru landar, sannleikans vini, heyrara og gjörara, og sendi yður ræðu þessa, sem eina af hinum kærkomnustu, sem þjer hafið lesið nýprentaða nú um miðbik þessarar aldar. Vona jeg og óska, að þjer veitið henni góða viðtöku, því þá er starf mitt að fullu bætt, og þá mun jeg, ef Guð lofar, síðar birta fleira af ritum Vídalíns, sem enn eru ókunn.

*Guð sje með yður öllum!*

Reykjavík, 28. marzmánaðar 1878.

Útgefandinn.

# Vorir tímar standa í guðs hendi.

**Nýárs-ræða**

eptir

**Búa** prófast **Jónsson**,

er hann samdi í banalegu sinni í desemberm. 1848.

---

**Kaupmannahöfn.**

Kostnaðarmaður *H. Johnson.*

Prentuð hjá *S. L. Möller.*

1856.

Öllum vinum

**höfundarins,**

en einkum hinum fyrverandi söfnuðum hans

# í Prestsbakka og Óspakseyrar sóknum,

tileinkast þessar

**síðustu raddir hins burtsofnaða hirðis.**

## Formáli.

---

Það er ekki svo fágætt hjerna á Íslandi, að afbragðsmenn fæðast, lifa og deyja, án þess menn almennt taki eptir hvað í þeim býr. Það, sem þeir hafa hugsað, talað og gjört, deyr optast með þeim, og minningin ein, lifir eins og hálfslokknað ljós í hjörtum hinna fáu, sem þekktu þá og voru þeim handgengnastir. Einn af þessum mönnum má óhætt telja Búa prófast Jónsson. Og þar eð enginn hefur enn orðið til, að halda verðskuldaðri minningu hans á lopt, þykir oss vel við eiga, að minnast lítið eitt á hann, um leið og vjer gjörum grein fyrir því, hvernig ræða sú er tilkomin, er hjer kemur fyrir almennings sjónir.

Sjera Búi sál. var kominn af fátækum og umkomulitlum foreldrum, sem ekki þóttu líklegir til

að geta sett son sinn til mennta. Engu að síður nam hann þó, þegar á unga aldri, svo mikið, að námfýsi hans og skarpleiki vakti fljótt eptirtekt annara. Síðan byrjaði hann, með góðra manna tilstyrk skólalærdóm og komst von bráðar í Bessastaða skóla*); var hann þaðan útskrifaður með ágætum vitnisburði. Skömmu seinna varð hann aðstoðarprestur suður í Borgarfirði, en þar á eptir prestur að Prestsbakka og prófastur í Strandasýslu, dó hann þar 26. desemberm. 1848.

Það ber öllum saman í því, að sjera Búi hafi verið einhver hinn liprasti gáfumaður. Andinn var siffjörugur. Hugsanir hans voru ljósar og skarpar, en hugmyndirnar svo liprar og jafnframt hnittilegar, að hann ávallt gat frætt og glatt undireins, jafnt hinn menntaða sem hinn ómenntaða. Han hafði stakt minni. Ef hann hafði einhvers staðar lesið eða heyrt eitthvað, sem honum fannst til, gleymdi hann því ekki, og hafði það þar að auki á takteinum þar sem það átti við. Skáld var hann, og einhver hinn bezti rímari; lá það allt á hraðbergi og urðu

*) Sá sem mest og bezt styrkti hann til þess, var sjera Þorleifur Jónsson, prófastur í Hvammi.

honum jafnaðarlega ljóð af munni, sem voru ávallt nett og lipur. Yfrið fljótur var hann að átta sig í hverju sem var, er snerti vísindaleg efni; eins var hann manna lagnastur á, að vekja á þeim skilning annara.

Klerkur var hann góður, og er orð á því gjört, hvað ljósar og hjartnæmar hafi verið ræður hans, enda var honum með sköpuð töluverð mælska. Hann var guðræddur ráðvendnismaður og vildi, eins og menn segja, ekki vamm sitt vita, því hann var ekki af þessum heimi eða mikill veraldarmaður; hugurinn var á æðri stöðvum, svo sálin sýndist opt að bera bústað sinn ofurliða; skopuðust þá hinir fávísu að látbragði líkamans, á meðan hinir skynsamari dáðust að atgjörfi andans.

Ræða sú er hjer birtist, er hin síðasta, er sjera Búi samdi, í banalegunni, litlu fyrir dauða sinn; því þegar af bráði, var andinn jafnan hraustur, þó tjaldbúð hans væri að hruni komin. Hann vonaði enn einusinni að geta fullnægt skyldu þeirri, er honum þótti jafnan yndislegust, — að tala við söfnuð sinn í húsi drottins. En það auðnaðist ekki. Dauðinn hreif hann burt, fimm dögum áður en orð þessi áttu að framflytjast, þessi orðin, sem vjer

nú berum undir álit landa vorra, og sem vjer flytjum vinum hins framliðna eins og ástríkan óm, þess er dó út á hinum kólnuðu vörum.

Að vísu játum vjer, að ef gefa hefði átt út ræðu, til að sýna hver prjedikari sjera Búi sál. var, væri það óheppilegt val að taka þessa, er hann samdi dauðvona með veikluðum kröptum, en bæði er það, að oss fannst ræðan, einmitt vegna þess, bezt löguð til að gefast út svona sjerstök, og líka hitt, að vjer höfum ekki aðgang að neinu öðru, sem eptir hann liggur, enn sem komið er.

---

# Vorir tímar standa í guðs hendi.

Ræða á nýársdag árið 1849.

---

## Bænin.

Allt sem vjer verðum varir við, fyrir utan oss, allt sem vjer finnum til í vorum hjörtum, knýr oss, ó, guð! til að hefja huga vorn til þín, á þessari helgu stundu; knýr oss að lofa þig og vegsama; knýr oss til að biðja þig og ákalla af hjarta; því þú ert uppsprettan allra gæða og lætur þau með afli miskunar þinnar streyma niður til vor. Þú svalar hinum þyrstu sálum, er þær koma að þessum brunni, og lætur þær aldrei synjandi frá þjer fara. Svala þá sálum vorum í dag, himneski faðir! sem með nýju ári bidja þig um nýja miskun, nýja vernd, nýja huggun og hjálpræði. Láttu minningu dauðans, sem hverfulleiki tímans vekur hjá oss við áraskiptin, minna oss á þau dýrmætu sannindi, að vorir dagar standa í þinni hendi. Minntu oss á, að hið mikla nafn, sem eptir þinni ráðstöfun var gefið því himneska barni, sem fæddist á þessum dögum, að vjer glaðir og öruggir vörpum oss í þinn miskunar faðm og treystum því, að fyrst þú hefur gefið oss soninn, munir þú gefa oss alla góða hluti með honum. Amen.

## Guðspjallið Lúk. 2. 21.

Vorir tímar standa í guðs hendi. Hver dagur, ef ekki þessi dagur, ástkæru tilheyrendur! ætti að minna oss á þessi eptirtektaverðu orð? Nýtt ár er komið, sem minnir oss á, að hið gamla, sem út er runnið, hafi bætzt við vora áratölu; hafi aukið þau árin um eitt, sem vjer teljum oss á baki frá fæðingu vorri. Þessi árin getum vjer talið, en hin ekki, sem eru fyrir framan oss, sem eru á milli vor og dauðans; en það eitt vitum vjer samt, að því fleiri sem liðin eru, því færri eigum vjer eptir. Mjög er að sönnu mannleg æfi mislöng, en þó kemur eitt sinn fyrir öllum að hinu fyrirsetta takmarki, því dauðinn er syndarinnar verðlaun, en allir hafa syndguð. Þetta vitum vjer allir. Ský dauðans vofir eins yfir hinum elzta og hinum yngsta, og enginn er svo vitur meðal mannanna sona, að hann viti yfir hvern það muni fyrst detta. Á þessi lærdómsríku sannindi hljóta hver áraskipti að minna oss; þau sannindi, sem annars ættu aldrei að líða oss úr minni: að æfin styttist því meir sem röð áranna lengist, að vjer stöndum fyrir dauðans dyrum þegar minnst varir. Vjer munum ávallt eptir nokkrum framliðnum á hverjum nýársdegi, sem á hinum næst undanfarna nýársdegi voru í fullu fjöri eins og vjer. Sumir af þeim voru bræður vorir, systur, heimilismenn eða nágrannar, kennimenn vorir og jafnvel konungar. Þetta getur nú komið fram við

mig, má hver einn hugsa af þessum söfnuði: „Hver veit hvað fjærri er æfi endi?” Hver veit nema jeg sjái þessa nýárssól síðasta með jarðneskum augum? Hver veit nema jeg fari þenna nýársdag í síðasta sinni til kirkju minnar? En eins og þetta getur komið yður í hug, sem tilheyrendum, eins getur það komið mjer í hug, sem kennimanni: Jeg get hugsað, og mjer finnst allt láta að því, að þetta verði seinasti nýársdagurinn, sem jeg prjedika guðsorð í því húsi, sem af manna höndum er uppbyggt. Það er ekki langt síðan einn af kennimönnunum í þessu byggðarlagi var lagður í gröfina; hann lifði þó, og messaði, að mig minnir, í sínu guðshúsi, þenna hátíðisdag í fyrra. Til er ræða, sem merkur kennimaður flutti á nýársdag, heill og hraustur, en þremur dögum síðar dó hann sviplegum dauða. Hún er yfir þenna texta: „vorir tímar standa í guðs hendi”. Þetta eptirtektaverða atvik flaug mjer í hug, þegar jeg var að skygnast eptir því með sjálfum mjer, hvað jeg ætti að velja mjer fyrir umtalsefni í helgidóminum, á þessum blessaða degi; því þó það, sem fram við mig kemur, sje mjer hulið, eins og það var áður áminnstum kennimanni, þá er það samt víst, að þessi orðin: vorir tímar standa í guðs hendi, eru hjartnæm orð, eru dýrmæt orð, eru þýðingarmikil orð, fyrir oss alla. Jeg veit ekki hvernig sá lagði þau út, er hjelt yfir þau hina síðustu ræðu sína í húsi drottins, því jeg hef aldrei sjeð ræðu hans, en jeg treysti mjer til, að láta hjarta mitt út-

leggja þau, með því skilnings ljósi, sem guð hefur gefið mjer náð til að öðlazt á sínum heimnesku sannindum. Látum oss því, með fulltingi heilaga anda, íhuga þessi orðin:

**Vorir tímar standa í guðs hendi,**

og læra að skynja, hvað þau kenna oss.

---

Vorir tímar standa í guðs hendi. Eru þessi orð sönn og trúanleg? það er rjett eins að setja fram þessa spurningu, eins og að spyrja, hvort það sje satt, að dagurinn komi á eptir nóttina, sumarið eptir veturinn; hvort eldurinn væri heitur eða ljósið bjart. þyki engum þetta þurfa spurningar við, þá er eins um hitt. Skynsemin kennir oss, að eins og skaparinn hafði vald til að gefa oss lífið í fyrstu, eins hljóti hann að hafa vald til að svipta því af oss, hvenær sem hann vill, og að hinn alvitri stjórnari stýri lífstundum mannanna, eins og öðru, sem við ber í heiminum. En fremur getum vjer með skynsemi vorri gjört þessa ályktun: því meiri velgjörninga sem guð veitir oss, því betur vill hann oss og því meiri afskipti hefur hann þá af því, sem fram við oss kemur í lífinu. Nú er mannsins dauðastund, eins og hans fæðingarstund, hin merkilegasta og afdrifamesta af öllum hans lífs stundum, og fyrst guðs hönd er jafnvel í verki með, í hinum smærstu atvikum, er fram við oss koma, hvað miklu fremur mun hann þá hlutast til um vora dauða-

stund? þetta kennir nú skynsemin oss, en guðsorð sker úr málunum, og slítur alla þrætu. Öll yðar höfuðhár eru líka talin, segir frelsarinn. Betur gat ekki sannleikans munnur sýnt, hvað nákvæm guðleg afskipti væru af mannanna högum, en að segja, að hann teldi jafnvel hárin á höfðum vorum. þannig standa þá vorir tímar í guðs hendi, því hann er, eins og ritningin segir, lífsins og dauðans herra. Hann bæði getur tekið lífið af oss, hvenær sem hann vill, og gjörir það líka, þegar honum þóknast. Hann afmælir hverjum sinn tíma: ungbarninu; fullorðna manninum og hinum aldurhnigna. þær orsakir, sem draga sjerhvern þessara til dauða, koma frá drottni; þær eru englar hans, sem framkvæma hans boð, þær eru þjónar hans, sem gjöra hans vilja. það er víst, að guð gat látið hin ómálgu börn, sem deyja, verða 100 ára gömul og eins gat hann látið gamalmennið deyja á barns aldri, hefði honum það þóknast, en það, sem fram er komið, var eptir hans vilja.

Vorir tímar standa í guðs hendi. Hver eru fagnaðartíðindin fegri, hver eru huggunarorðin meiri! Gætum að, dýrkeyptu tilh.! vorir tímar standa í guðs hendi; ekki standa þeir í mannanna hendi, ekki standa þeir í vorri eigin hendi. Ef vorir tímar stæðu í manna höndum, en ekki guðs hendi, mætti segja, að vjer ættum vesælan griðastað, og aumkunarlegt athvarf. Ef að skammsýnir menn, eins og vjer, eða þá óvinir vorir og hinir illgjörnu, hefðu

þessi ráð í hendi sinni: það væri oss ekki til huggunar, eða fagnaðar, heldur til ógnar og skelfingar. Engu værum vjer heldur bættari fyrir það, þó vorir tímar stæðu í sjálfra vor hendi, þótt vjer ættum ráð á að lifa eður deyja eptir vild vorri. Því hvað vitum vjer, hvað lengi oss er hentugt að lifa, eða hvenær fyrir beztu að deyja. — En guði sjeu eilífar þakkir! vorir tímar standa ekki í skepnunnar hendi; þeir standa í skaparans hendi; þeir standa í guðs hendi; þeir standa í hins eilífa, almáttuga, alvísa, ástríka guðs hendi; í hendi vors himneska föðurs, sem elskar oss svo heitt, að enginn jarðneskur faðir getur haft jafn heita ást á börnum sínum. Vjer þurfum því ekki að vera hræddir um, að guð taki af oss lífið af heipt eða hatri, eins og vjer mættum óttast af mönnum, ef tímar vorir stæðu í þeirra hendi. Guð er upphafinn yfir allan mannlegan breiskleika, allan ófullkomlegleika, því hann er ljós og í honum er ekkert myrkur, segir ritningin. Af kærleika kallar drottinn oss úr heimi þessum, þegar vjer förum hjeðan. Af alvizku sinni sjer hann oss þá betra að deyja en lifa; af elsku sinni útvelur hann oss það hlutskiptið, sem hentast er.

Vorir tímar standa í guðs hendi. Þessi dýrmæta vissa, sem vjer höfum nú sjeð að ekki verður hrakin, veldur því, að dauði mannanna getur aldrei orðið efni til rjettvísrar umkvörtunar, eður óánægju. Hvað sem oss sýnist, þá er það.

sem er, að guð er kærleikurinn. Öll hans verk, allar hans ráðstafanir, meiri eða minni, eru frá eilífð útflotnar af kærleikans uppsprettu, og af þeim hinum sama brunni, munu verk drottins fljóta um alla eilífð, því hjá föður ljósanna er engin umbreyting nje umbreytingar skuggi. Ásökum því ekki guðs alvísu forsjón við burtköllun meðbræðra vorra! Vantreystum ekki kærleika hans og speki. Allir hlutir hafa sinn tíma, segir Salómon. Tími er að fæðast og tími er að deyja; því eins og vor dauðastund er í drottins hendi, eins er það með vora fæðingarstund. Að vísu er það svo um flesta menn, að vjer getum ekki sjeð, hvers vegna þeir fæddust á þessum tíma fremur en öðrum, en þó er það augljóst um marga, sem uppi hafa verið í heiminum og miklum breitingum af stað komið, að þeir einmitt hafa lifað á þeirri öld, sem hefur eins og krafizt þeirra, fremur öðrum tímum fyrir og eptir þeirra daga. Og þar geta jafnvel hin sljógskygnu mannlegu augu, ekki annað en sjeð forsjónar handleidslu drottins! Mörg dæmi mætti til nefna, en jeg ætla fyrst að taka á þeim, sem mestur var af kvinnu fæddur, guðs eingetnum syni, Jesú Kristi frelsara vorum. Hann kom í heiminn, eins og ritningin segir, í tímans fyllingu, það er að skilja: þegar svo langt var liðið fram á tíma mannkynsins, að það gat tekið á móti þessu himneska hjálpræði. Það var sá tími, sem guð hafði tiltekið í sínum fyrirheitum. Krists öld, var

því einmitt hin hentugasta til að vera Kristsöld. Mannkynssagan vottar það ljóslega, að engar aldir, hvorki á undan nje eptir, voru eins kjörnar til þess að taka á móti Jesú opinberun, eins og þessi. Sama getum vjer sagt um öldina, þegar hinn sæli guðs maður Lúther kom fram, eins og kappi, sendur af guði til að viðreisa krists ríki meðal vor. þessi dæmi eru svo skírttalandi vottur um guðlega ást og guðlega speki, um guðleg afskipti af högum mannanna, að jeg ætla ekki að telja fleiri; hvervetna lýsir það sjer, að vorir tímar standa i guðs hendi. Færstir gefa reyndar gætur að mannanna fæðingarstund, en flestir þar á mót veita eptirtekt þeirra dauðastund. þetta er líka eðlilegt. Allra manna fæðing ber að með líkum hætti, allir eru í fæðingunni hver öðrum líkir. þá veit enginn, hvað hverjum einum er ætlað að verða, eða hvað lengi honum audnist að lifa. Dauðann þar á mót ber að með svo ólíkum hætti, og opt svo óskiljanlega fyrir vorum augum, að hann getur ekki annað en vakið eptirtekt hinna eptir lifandi, og þar kemur einnig í ljós guðs náðaríka handleiðsla. Margir andast á þeim tíma, er allir sjá, að þeim er betra að deyja en lifa. Dæmin eru deginum ljósari, og fleiri, en tölu verði á komið. Í þessara tölu eru þeir, sem í ellinni deyja; í henni eru þeir, sem deyja af ólæknandi sjúkdómum; í henni eru börnin, sem fæðast sjúk eða vanfær; í henni eru allir þeir, sem bera þungan kross, er ekki lítur út fyrir að

ljettist af þeim fyrri en í dauðanum. þetta staðfestir vor sameiginlega játning, þegar vjer erum vanir að segja við frjettina um dauða slíkra manna, að guð skuli vera lofaður fyrir lausn þeirra. þannig getum vjer, eins og nú hefur sýnt verið, svo opt eins og þreifað á því, að mennirnir fæðast og deyja eptir guðlegu vísdóms ráði. því skyldum vjer þá mögla móti vilja drottins! það sem vjer sjáum og skynjum, eru þó næg rök fyrir því, að svo muni alltíð vera, því vjer vitum, að „guð gjörir ekkert nema það, sem er vísdómsfullt og gott, því hann vill ekkert nema það einungis."

Vorir tímar standa í guðs hendi. því trúum vjer, það vitum vjer, það sjáum vjer. Já, opt sjáum vjer guðs náðarríku tilhlutan í dauða bræðra vorra í kring um oss, opt sjáum vjer hana þó ekki. þarna deyja börnin ung og efnileg í faðmi móðurinnar, rjett eins og þau hefðu ekkert erindi átt í þenna heim, nema að ginna foreldrana með afsleppri von, er síðan skyldi snúast upp í sorg og trega; þarna deyja efnilegustu æskumenn; þarna deyja ungir atgjörfismenn, landsins von og landsins prýði; þarna skilur dauðinn hjónin í sundur, sem eru ein sál og eitt hjarta; þarna gjörir hann börnin að föðurleysingjum og mæðurnar að ekkjum; þarna hrífur hann hirðirinn, hinn árvaka og trúa hirðir, frá hjörð sinni; þarna slær hann fólkið niður eins og annað gras, í hinum skæðu sóttum, svo landið

leggst í eyði. Opt er það eins og dauðinn gangi fram hjá þeim, sem allir óska dauða, en felli hina og velji þá úr, sem enginn vill missa. Í stuttu máli, dauðinn hagar sjer svo optlega fyrir manna sjónum, sem hann ekki væri sendur af gæzkuríkum guði, heldur væri annaðhvort tilviljun ein, eður erindsreki þess, er granda vildi mönnunum, en ekki hjálpa. Með öllu þessu standa þó vorir tímar í guðs hendi, sem velur þá og telur með miskun og rjettvísi. Það er ekki til vonar að vjer skiljum vegi drottins, vjer, sem bundnir erum við þessa jörð og höfum svo takmarkaða skynsemi. — Horfum upp í himininn, lítum á hina ótölulegu mergð ljómandi stjarna; allt eru þetta veraldir sem guð hefur að stjórna. Hvað verður úr oss, þegar vjer berum oss saman við svo voldugan stjórnara? Getum vjer fundið nokkra heimskulegri hugsun en þá, að ætla vjer getum skilið hans vegi? Það er annað að skoða guðs ráðstafanir með náttúrlegum augum, eða skoða þær með trúarinnnar augum, í ljósi guðs orða. Þegar það er gjört, ætla jeg ekki örðugt að skynja það, sem holdlegur maður ekki skynjar og að sjá það, sem vantrúin ekki sjer, að vegsama guð fyrir það, sem jafnvel sturlar hina ístöðulitlu og veikir trú hinna trúardaufu. Barnadauðinn t. a. m. verður mörgum sár og þungskilinn, en þegar vjer tökum Jesú himnesku opinberun oss til hjálpar, þá verður ekkert óskiljanlegt, heldur allt dásamlegt, eins og jeg mun hafa fært yður rök fyrir, á einhverjum

fundi vorum í þessu guðs húsi. Vor náttúrlega sjón sjer ekki út fyrir þessa lífs takmörk; trúarinnar augu sjá lengra, þau sjá inn í eilíft líf. Það er munur að skoða dauðann sem hið síðasta takmark mannlegrar tilveru, sem lífsins algiörlega endir, eða að skoða hann eins og stuttan nætursvefn, sem hina síðustu nótt, er gengur á undan þeim degi, er aldrei kemur nótt á eptir. Það eru engin sorgleg umskipti, að fara úr heiminum og inn í himininn; svo enginn getur annað sagt, en guð gjöri miskunar verk á þeim, sem hann burtkallar og það, þó þeir hlytu að yfirgefa hina yndirlegustu og æskilegustu stöðu, sem til er. Margur verður feginn hvíldinni, feginn lausninni, eins og menn kveða að orði. Hinir guðhræddu hafa, með Páli postula, löngun til að fara hjeðan og vera með Kristi, af því þeir vita, það er þeim langtum betra. Margur unir því, að lifa í heiminum, rjett til þess að geta verið sínum til aðstoðar, en væri það ekki, vildi hann hjartansfeginn vera kominn í guðs ríki. Nú gegnir hinn heldlega sinnaði maður og segir: „Það er að sönnu satt, þeir tapa engu fyrir sjálfa sig, sem í burtu deyja, en aðrir missa opt í þeim mikið, þegar svo ber undir. Ekki grjetu menn dauða sonar ekkjunnar í Nain sjálfs hans vegna, heldur móðurinnar vegna, sem með honum missti einkabarnið sitt, og ellistoðina." Gæt þín maður! taktu reynsluna, taktu guðs orð þjer til hjálpar, og muntu finna hvað

ástæðulaust, þú ásakar, einnig í þessu, guðs algóðu forsjón.

Jesús uppvakti son ekkjunnar í Nain, og gaf aptur sinni móður. Þetta sonarins miskunarverk — hvað er það annað en spegill hinna óteljandi miskunarverka, sem guð hefur gjört, og gjörir enn, með degi hverjum, við ótal margar ekkjur og einstæðinga. Geta menn borið á móti þessu? Eða skyldi það vera þýðingarlaust, að guð, í sínu heilaga orði, kallar sig föður föðurlausra og vernd ekknanna? Er hans orð ekki sannarlegt og efnir hann ekki allt, hvað hann lofar? Jeg þarf ekki að fara útfyrir þenna söfnuð, til að finna dæmi upp á það, hvernig drottinn svo dásamlega uppvekur föðurleysíngjunum foreldra og ekkjunum aðstoð. Það yrði mikill hljómur í loptinu, ef allar þær raddir hefðu sig upp í einu hljóði, sem geta tekið undir með Davíð og sagt: „Til þín drottinn var mjer varpað frá móðurlífi." — Að vísu bætir guð mörgum ekki, í þessu lífi, með líkamlegri farsæld, það volæði, sem þeir komast í við missir ástvina sinna. En er það þá tilgangur hjervistar vorrar, að allt skuli ganga fram eptir vorri vild, að vjer aldrei þurfum af beisku að segja og aldrei súrt að smakka? Spyrjum guðs orð að því, spyrjum sjálfa oss að því, hvort vjer þurfum ekki á krossi og mótgangi að halda, og hvort að þessi kross, sje þá ekki eins og hver annar kross, til að snúa hjörtum vorum frá heiminum til himinsins. Vjer megum fúslega taka undir með Davíð kon-

ungi, þegar hann var búinn að reyna, hvernig guð með hirtingunni hafði betrað hjarta hans: „Fyrir góðu varð mjer það, drottinn! að þú typtaðir mig.”

Vorir tímar standa í guðs hendi; þó vjer tíðum ekki þykjumst skilja hvað drottinn vilji. Opt ber það við, að hinir ágætustu menn ekki verða langlífir og komast jafnvel ekki fram yfir miðjan aldur. þetta er nú eins og annað í forsjónarinnar helgidómi, oss hulið, þangað til skýlunni verður lypt frá augum vorum í dýrðinni. En vjer sjáum þó svo mikið af ljósi frá þessum helgidómi, að vjer ekki þurfum að leiðast afvega. Vjer sjáum þó sólarbjarma hins himneska, í gegnum þokuský hins jarðneska lífsins. Áratalan gjörir ekki ellina heiðarlega, segir ritningin. þenna sannleika hlyti líka skynsemin að kenna oss, þótt hann aldrei stæði í guðs orði. Heiðarleg elli gjörir það að verkum, að leiði hins aldurhnigna er merkilegra en leiði ungbarnsins; hitt er þó enn heiðarlegra, þegar maðurinn sem deyr á miðjum eða öndverðum aldri, er þá þegar búinn að reisa sjer þann bautastein yfir gröf sína, sem ekki haggast í gegn um margar ættkvíslir. Menn hryggjast þegar hann, sem hefur tíma vora í sinni hendi, kallar slíka menn burt frá hálfnuðu verki. En er þá guð ekki eins máttugur til að bæta gjörvöllu landinu missir eins afbragðsmanns, eins og hann er, að bæta hverjum einum missir ástvinar síns? Margan á guð sjer góðan

n getur gefið söfnuðinum aptur góðan prest, aðinu gott yfirvald, og landinu góðan stjórnara.

Jesús Kristur hefur lífið og ódauðlegleikann ós leitt, hann er upprisan og lífið, svo að vjer, trúum á hann, munum lifa þótt vjer deyjum. a er sönn og skýlaus opinberun. Ei að síður er óneitanlegt, að vjer fyrst af öllu þurfum að biðja með þessari bæn: „Auk þú oss trúna“! Og ltinn lætur ekki vanta hinar augljósustu og áþreifgustu bendingar oss til trúarstyrkingar. Því i veit jeg hvaða bendingar betur geta vakið trúna framhald lífs vors í öðrum heimi, heldur en ði ungbarnanna og atgjörfismanna þeirra, sem i verða langlífir. Talar ekki þessi raust til vor ómótstæðilegri sannfæringu, að börnin eigi að skast, en hinir að sýna atgjörfi sitt í annari æðri öld, sem þeir sýnast að vera lángt um heldur paðir fyrir, en þenna vorn lægri bústað. — Sá, guð hefur veitt miklar gáfur og fúsan vilja, til gagna með þeim kristnum söfnuði, sem hann í, hann lángar til að lifa, svo hann geti því ru góðu af stað komið. Hann kvíðir fyrir að sa kraptana svo fljótt, því hann veit, að nóttin ur og enginn fær þá lengur erviðað. En nú ur guðs vilji ekki samkvæmur hans vilja. Nú ur honum kippt frá verkum sínum þegar minnst m varir, og dauðinn nálgast hann með degi jum. Hvað verður þessum manni helzt til mi og huggunar? Einmitt sú von og vissa, að

hann sje, af guðs alvísa ráði, eflaust kallaður hjeðan til að takast á hendur ný störf í nýjum heimi. Hann sjer hjer, eins og i öllu öðru, vott guðlegrar miskunar og trúfesti. Vjer sjáum bersýnilegast merki miskunar drottins, er hann sendir sinn engil dauðann til að ljetta byrðinni á herðum hinna þjáðu krossberenda; en guð sýnir líka miskun þeim, er hann kallar í burt án þess þeir hafi sjerlegt mótlæti við að stríða. Jeg meina ekki þá miskunsemi, að hann gjörir gleðileg umskipti á þeirra hjervist og himnavist, heldur aðra dýrmæta líkn, er fáir veita eptirtekt. Eptir marga daga koma upp þær hörmungar, sem menn sjá, að þeim hefðu orðið óbærilegar, hefðu þeir þá lifað. Þarna leggst ólán fyrir börn þeirra eða nánustu ættingja; þarna ferst þeirra innilegasti vilji fyrir, en það fær framgang, sem mundi jafnvel hafa leitt þá í gröfina að sjá eða heyra; þarna verður verkum þeirra rótað um og kollvarpað, sem þeir hafa unnið að mikinn hluta æfinnar og gjört að athvarfi ununar sinnar. Guð, sem einn sá fyrir hið ókomna, vildi hlýfa þeim við sorg þessari, og tók þá í tíma til sinnar náðar, eins og menn kveða að orði. Það verður því einungis hinum holdlega sinnuða óskiljanlegt, hvað þeir verða skammlífir, er öllum þykir þó, að mættu lifa langan aldur. En veizt þú hvað fyrir þeim hefði legið, hefðu þeir orðið langlífir? Hefur ekki margan hent það, á efri árum, að hann hefði mátt óska hjartansfeginn að guð hefði látið hann deyja á æsku-

skeiði? Guð einn veit það, en vjer ekki; miskunnar er ávallt af honum að vænta; honum sem er kærleikurinn. Drottinn svarar oss, þegar vjer undrumst og skiljum ekki hans vegi, eins og Jesús svaraði Pjetri forðum: „þú veizt ekki nú hvað jeg gjöri, en síðar skaltu fá að vita það," því það er enn ekki augljóst hvað vjer munum verða. Sólina sjálfa sjáum vjer á himnum; bjarmann af henni sjáum vjer á jörðinni. En þessi bjarmi hins órannsakanlega ber oss þó hjer svo mikla birtu, að vjer hljótum að undrast, elska og tilbiðja hinn eilífa föður ljósanna, hinn almáttuga drottinn drottnanna, hinn alvísa stjórnara tímanna.

Vorir tímar standa í guðs hendi. það er eðlilegt, að þessi orð hafi vakið hjá oss þær hugleiðingar um endir lífsins, sem jeg um stund hef leitazt við að skýra fyrir yður, að þær hafi vaknað núna við áraskiptin, sem hafa þokað oss um eitt ár nær dauðans takmarki. — Tími er að fæðast og tími er að deyja; en það eru margir tímar á millum þessara tíma, og þeir standa allir í guðs hendi. það er ekki lítil huggun fyrir oss, að vita, að guð úthlutar oss á hentugum stað og tíma, öllu því, er hann sjer oss fyrir beztu, bæði sorg og gleði; vjer eirum betur andstreyminu, sem mætir oss, því vjer höfum þá von og þá trú, að guð hafi látið það koma fram við oss þegar bezt gegndi, úr því honum ekki þóknaðist að láta hinn beiska kaleik frá oss takast. —

Aptur á hinn bóginn þykir oss vænna um þær heillir, sem falla oss í skaut, þegar vjer meðtökum þær með því trausti, að guð hafi sent oss þær á hinum hentugasta tíma, því þá gleðjum vjer oss af þeirri von, að þær verði oss farsælar og affaragóðar. Vjer þurfum ekki að sanna þessi guðlegu afskipti af kjörum vor mannanna, að tímar vorir standi í hans hendi frá upphafi til enda. Heilög ritning sýnir yður það svo berlega á mörgum stöðum: Jóseps, Davíðs, Jobs og sjálfs Jesú æfisögur eru svo skírttalandi raddir í guðs orði, að vjer ekki framar þurfum vitnanna við, til að sannfærast um, hversu vel og vísdómslega guð velur mannanna kjörum stund og stað, bæði hinum blíðu og stríðu. Annars þurfum vjer ekki lengra að fara, til að kannast við það, að vorir tímar standi í guðs hendi, en að sanna það af sjálfra vor kjörum. Lesum það af lífssögu vorri, sem tíminn hefur, til þessarar stundar, leyft oss að skrifa í bók vorra hjartna. Vjer munum þá finna, að sjerhver atburður í lífi voru, hefur komið fram við oss á hinum hentugasta og bezta tíma. Guð hafði ásett að gjöra Davíð að konungi, en ekki setti hann kórónuna á höfuð honum fyrri en hann gat borið hana með heiðri og var orðinn konungstigninni vaxinn. Við þessa ráðstöfun drottins könnumst vjer líka á sjálfum oss; hann geymir oss hið góða hlutskiptið, þangað til vjer kunnum með það að fara og hagnýta það með skynsemi og forsjálni. Stundum frestar guð, að

gefa oss það, sem vjer girnumst, þangað til sá frestur verður orsök til þess, að vjer hverfum frá því, en fáum aptur annað sem oss er betra. Svo auðsjáanlega standa vorir tímar í guðs hendi; svo auðsjáanlega lætur guð sjer annt um, að stjórna kjörum vorum og kringumstæðum. Umbreytingarnar eru einkenni mannlegrar tilveru. Þær koma fram við oss og fara með oss, eins og annan leikhnött, þær róta svo og raska vorum kjörum, að ekkert stendur, eins og menn segja, á steini. En hvort heldur sem þessar breytingar eru oss geðfeldar eða ógeðfeldar, þá finnur hver kristinn maður, að þær eru verk drottins, eru handleiðsla vors góða guðs, sem hefur öll vor kjör í sinni hendi og velur oss stað og stundir. Það, sem vjer getum sjeð og skilið, er til vitnisburðar um, hitt, sem vjer ekki skiljum, að það eru allt guðlegar ráðstafanir, en engin blind tilviljun. Drottinn lykur upp fyrir oss nýjum dyrum og opnar oss nýjan veg, þegar hinn erviðari er búinn að þreyta fætur vora; þessar dyr og þenna veg, hefðum vjer, ef til vill, girnst að guð hefði langt um fyrri opnað oss, en á eptir sjáum vjer og játum að guð líknaði oss í hæfilegan tíma, að allir hans vegir eru einber miskun og trúfesti.

Vorir tímar standa í guðs hendi. Undir þessum verndarskildi byrjum vjer þá árið, sem gengur inn í dag, eins og hvert árið, sem vjer byrjað höfum, sem vjer lifað höfum. Ávallt hefur hin ókomna tíð, nokkuð ískyggilegt útlit. Allir geta menn eitt-

hvað óttast, þegar enginn veit sín forlög óðar en líður. Hinn ríki getur búist við fjártjóni; hinn heilbrigði við sjúkdómi; hinn heiðraði við ósæmð; því meðlæti og mótlæti skiptast um í lífinu, eins og veðrið í loptinu. En hvort sem menn hafa meiri eða minni orsakir til að kvíða þeim tíma, sem í hönd fer, þá hljóta þær að hverfa úr hjartanu, eins og fisið fyrir vindinum, þegar vjer hugsum til þeirra dýrmætu orða, að vorir tímar standa í guðs hendi; hans, sem er hinn ástríkasti faðir, sem er hinn almáttugi guð, fullur af alvizku, svo að hann veit allt hvað gjörist á himni og á jörðu. Hverju er þá að kvíða, nema engu, hvort heldur fyrir oss liggur líf eða dauði? Hvað er þá að óttast nema ekkert? Hvað er þá að gjöra, nema ganga fram eins og hugprúð hetja, í krapti drottins og segja: Hafi jeg þig drottinn, þá hirði jeg hvorki um himin nje jörð. Eða hvað höfum vjer heyrt, á þessum blessaða degi, svo vjer ekki skulum vera vantrúaðir heldur trúaðir? Guðspjallið, sem vjer heyrðum, var ekki langt, en það nær þó yfir kjarnann úr hinu himneska fagnaðarerindi: „Þegar átta dagar — segir guðspjallamaðurinn — voru liðnir, og barnið skyldi umskerast, var hans nafn kallað Jesús, hvað eð kallað var af englinum áður en hann var getinn í móðurkviði." — Drottinn minn og guð minn! sagði Tómas postuli, þegar hann ekki gat rekið sjálfan sig úr vitni um, að það stórmerki væri satt, sem hann þangað til ekki gat

trúað; sama breyting hlýtur að sýna sig hjá hverjum einum — þótt hann áður hafi verið trúarveikur og ekki getað fullkomlega útrýmt allri efasemi, öllum kvíða, fyrir hinu ókomna — þegar hann horfir á þann með staðföstum augum, sem birtist heiminum á þessum dögum; þegar honum er boðað hið dýrmæta nafnið Jesú og hefur heyrt himneskar hersveitir lýsa því, að frelsarinn væri fæddur. Þó að guð hefði langt um minna opinberað oss af kærleika sínum og umhyggju fyrir vorri velferð, þá væri það nóg til þess, að taka í burtu allar sjónhverfingar frá vorum augum, sem hræða oss og blekkja; það væri nóg til þess, að láta oss aldrei ganga í myrkri heldur í ljósi, láta oss aldrei veikjast í þeirri trú, að guð sje vor ástríkur faðir, vinur og verndari, í sorg og gleði, meðlæti og mótlæti, lífi og dauða. En hvað skulum vjer þá segja, þegar guði hefur þóknazt að opinbera oss sinn kærleika með svo miklu stórmerki, að það yfirgengur langt alla mannlega hugsan. Guðs sonur er maður orðinn til að leysa mannkynið frá glötun; hann er í dauðann genginn til þess að syndarinn megi eilíflega lifa; hann hefur dauðann deytt og herleiðinguna að herfangi tekið! Jesús er athvarf; í hans nafni biðjum vjer; fyrir hann og með trúnni á hann höfum vjer djörfung og aðgang til guðs, sem ástríkasta föður, og hann hefur lofað að bænheyra oss. Jesús kom í heiminn til að burttaka þær hræðilegu skelfingar, sem ógna mannlegu hjarta;

Ótta fyrir synd og dauða. Vjer, sem á hann trúum hræðumst ekki þessa óvini, því vjer vitum, að hann hefur afrekað oss syndanna fyrirgefning og eilífa sáluhjálp.

Veri þá árið, sem kemur, velkomið oss í Jesú nafni. Vjer tökum móti því, með hjartanlegum fögnuði og þýðasta þakklæti; því Jesús er oss borgunarmaður fyrir, að það er engin hefndargjöf, heldur einskær náðargjöf frá aldanna stjórnara. Hið þýðingar mikla nafn, sem hjálpari mannanna skyldi bera, eptir ráðstöfun hins himneska föður, sendir oss dýrmæta huggun á ársins fyrsta degi. Frelsarinn er oss fæddur. Sá, sem gaf oss frelsarann, gefur oss árið; en hann, sem gaf frelsarann, getur ekki gefið nema góða gjöf. Þessvegna hlýtur árið að verða oss góð gjöf. Vjer höfum líka fullkomna vissu fyrir því, að það verður oss góð gjöf, blessuð gjöf, frá guði vorum, eins og öll hin árin, sem vjer lifað höfum. Vjer eigum þess víst að vænta, að gjafarinn allra góðra hluta muni veita oss á því fleiri velgjörðir, andlegar og líkamlegar, en vjer getum tjáð þær eða talið. Vjer skulum lifa í þeirri von, að það verði vort iðrunar ár, vort betrunar ár, vort farsældar ár, já, þvílíkt farsældar ár, að vjer megum enda það, ef drottni þóknast að kalla oss, í eilífri farsæld.

Drottinn hefur enn veitt oss það, er Davíð konungur bað að hann vildi sjer veita; hann hefur látið oss lifa til þess vjer skyldum lofa hann og

þakka honum. Lofum þá og dýrkum vorn góða guð með huga og munni! Til þess erum vjer samankomnir í dag, í hans helgidómi. Þökkum honum fyrir von og trú, frið og frelsi, hlífð og varðveizlu, björg og blessan. Biðjum hann að vera oss hinn sama miskunarríka föður árið, sem kemur, sem hann hefur verið oss árið, sem leið og öll þau ár, sem vjer lifað höfum. Biðjum hann að varðveita oss á sínum vegum og láta oss í friði njóta þeirrar blessunar, sem hans miskun veitir oss. Styrkjum oss í trúnni með guðrækni; verum hughraustir, en ekki hugsjúkir; glaðir, en ekki hryggir; hressir, en ekki sturlaðir. Horfum ekki á það, hvað útlitið er ískyggilegt fyrir vorum augum, heldur á hitt, að guð er ekki lengi að umbreyta hinu svartasta myrkri í hið bjartasta ljós, þegar hans tími er kominn. Vorir tímar standa í guðs hendi! Dagurinn líður; árið líður; æfin líður; dauðinn kemur! Komi hann þá sæll þegar hann vill.

Í þínar hendur, drottinn minn! fel jeg anda minn, þú hefur frelsað mig, drottinn guð sannleiksins; amen!

2 (7) Belongs with 71

# Concio

## Episcopi Mag. Vidalini, Dominica IV. post Trinitatis.

## De jure.

---

### Exegesis.*

Næst heilögu Guðs orði og öllum þeim andlegu velgjörningum, sem oss í því boðaðir eru, þá er lagarjetturinn hið mesta Guðs ástar merki til vor syndugra manna; án hans getur veröldin ekki staðizt, heldur mundi það fara eins og í herbúðum Midíanítanna á Gideonis dögum, þar eins sverð var á móti öðru, já, það yrði villudýralifnaður, því sá mundi vinna, sem sterkastur væri, og kynni þó enginn fyrir öðrum óhultur að vera, þar margir hundar eru hjera bani. Það yrði eins og Senones forðum daga sögðu við Rómverja, að þeir hefðu lögbókina í slíðrunum, þeir meintu að sverðið skyldi skakka leikinn með þeim; og mundi sú lögsögn verða nokkuð aga-

*) Þ. e. ræða biskups, meistara Vídalíns, á 4. sunnudag eptir Þrenningarhátíð. Um lagarjettinn. — Útleggingin.

samleg og fráleit í rjett að ganga fyrir smámuni; já, jeg segi, það yrði því argara en vargalifnaður, sem maðurinn er öllum vörgum argari, nema honum væri í laganna taumi haldið. Þegar Benjamínítarnir gjörðu það smánarlega níðingsverk, sem ritað stendur í Dóm. 19., hvers maki ei fundizt hefur meðal hinna örgustu heiðingja, þá talar ritningin svo þar um, að þá hafi enginn dómari verið í Ísrael, heldur hafi hver gjört það hann vildi, hvar af að auðsætt er, hvílíkt kviksyndi og forað skamma og lasta að heimurinn verða mundi, ef lagarjetturinn væri í brott tekinn. Áður en Guð gaf sínu fólki dómendur, þá var hver einn af feðrunum dómari í sínu húsi; það sje jeg á Abraham, er hann rak burtu ambáttina með sínum og hennar syni, og er hann fór með húskarla sína á hendur þeim 5 konungum; á Jakob, er hann sagði að sá skyldi dauða deyja, er fyndizt hjá Labans skurðgoð. En síðar, þegar Ísrael kom undir Egypzkra stjórnarveldi, og Ísrael var svo margur orðinn, þá gaf Guð þeim einn hertoga, einn dómara, Mósen, þá gaf hann þeim og lagarjettinn að lifa og dæma eptir, án efa af því, að hin guðdómlega speki hefur fyrir sjeð, að þvílíkur múgur manns kynni ekki án þess að stjórnast. Í einu orði að segja, það sem skipið er fyrir utan stýri, það sem einn galinn hestur er fyrir utan beizli, og það sem manneskjan er fyrir utan rænuna, það er veröldin fyrir utan lögin, og þá, sem lögunum stjórna eiga. Það var skynsamlega talað af Jetró, höfðingja þeirra í Midían, mági Móses, er hann sagði við hann um stjórnina og

dómaraembættið yfir Ísrael Ex. 18. v. 18.: „Þessi hlutur er þyngri en að þú getir honum einsamall á stað komið; láttu útvelja röggsama menn, þá er óttast Guð, sannorða menn, þá er hata ljótan ávinning, að þeir dæmi þetta fólk alla jafna“. Sjáið hjer undir eins, hvílíkum dómurum byrji að vera, kristnir menn, og hversu ljett að sje dómaraembættið. Og þetta ráð þóknaðist Guði, því tók hann af Móse anda og lagði yfir þá 70 öldunga, sem lesa má í Num. 11, 17. Ekki það að Móses hefði minna, heldur gaf hann þeim af þeim sama anda svo mikið, sem hver með þurfti til síns embættis útrjettinga; og er hjer af deginum ljósara, að ekki einasta konungurinn, heldur og þeir, sem af honum settir eru, þeir eru eptir Guðs skipan settir, hvar fyrir vjer eigum þeim undirgefnir að vera, svo sem Pjetur oss býður. Því sagði og hinn góði konungur Jósafat við dómarana, er hann sett hafði, 2. Kron. 19.: „Sjáið til hvað þjer gjörið, því að eigi haldið þjer dóma fyrir mennina, heldur fyrir Drottinn, hver að er með yður í dómunum“. Það er, þjer hafið ekki einasta mitt eða nokkurs manns umboð á hendi, heldur sjálfs Guðs, hver að er með yður í dómunum, og ekki einasta sjer hvað þjer talið og skrifa látið, heldur og rannsakar hin innstu fylgsni yðar hjartna, hvað þjer hugsið. Sjáið til hvað þjer gjörið, því þetta er ekki lítill hlutur, jafnvel þó margur vitfirringur hlaupi þar til með óþvegnum höndum á stundum, sem ekki er meir hæfur að dæma milli bróður og bróður heldur en asninn að leika á hörpu. Nú fyrst þetta er svo dýrmætur, svo veglegur og svo

guðdómlegur hlutur, þá vitið, að oss ei byrjar að flíka honum eptir vorri eigin vild. — Eg gat um fyrir skömmu, hvaða rugl og ofstæki þar mundi verða í heiminum, ef Guð og konungurinn hefðu oss ekki lögin gefið. En það er hálfu verra, þegar menn umsnúa góðum lögum í ólög og byrla eitraðan drykk af lækningunni. Guð gæfi menn vildu þar til hugsa, að vjer ekki erum bornir til þess að setja heldur til að segja lög; en allrasízt til þess að umhverfa þeim og rangfæra eptir eigin þótta vorum, eður bjóða þeim að tala og þegja eptir því sem oss líkar og vjer unnum þeim, sem mál eiga fyrir oss. Einn er löggjafinn á himnum, um hvern Jakob talar; það er hinn almáttugi Guð; og einn er á jörðunni, sem er konungurinn, hver að er Guðs umboðsmaður. Sá sem tekur fram fyrir hendur þeim, hann er þjófur og ræningi. Hvílík er þá fásinna nokkurra manna, sem í völdunum sitja, að þeir ekki einasta sjá í gegnum fingur við þá, sem glæpina drýgja, heldur og forsvara þá. Ekki einasta forsvara þá, heldur og hrósa sjer þar af, og leita sjer hróðurs þar í og makt sinni; og ekki einasta hrósa sjer þar af, heldur og hindra þá, sem fyrir nafn Drottins vandlæta. — Ó þú vesall maður, máttu það fyrirgefa, sem Guð vill ekki fyrirgefið hafa? En hversu opt býður hann þjer nú að straffa hinn rangláta. — Þú segir: Guð fyrirgefur mörgum margt, og jafnvel tímanlega hegning. — Ef þú gefur einhverjum hundraðs virði, mun eg þar fyrir mega gefa eina alin af þínu. Gefðu af þínu, barn mitt, en ekki af Guðs eða konungs-

ins. Gefðu eptir þinn rjett, það mislíkar Guði ekki, en láttu hans óskertan. Hjá Guði einum er fyrirgefning syndanna. Ertu þá Guð, eða Guði meiri? Hvern gjörir þú sjálfan þig? — Það eru ósannindi, að Guð í sínum lagarjetti eptirgefi nokkurstaðar viljandi glæp; og svo sem Ísrael átti eptir honum að lifa, og eptir honum að dæma, svo áttu og að lifa og dæma eptir konungsins lögum. Ef nokkuð má eptir gefa af því, sem þar inni er boðið, þá hefir Guð fengið það í hendur hinu æðsta valdi, en ekki þjer, sem ert eins rjettinum undirgefinn og hann, sem stendur fyrir þínum dómi. Heyr því orð Drottins fyrir munn Jeremie, Jer. 18.: „Bölvaður veri sá, sem verk Drottins sviksamlega gjörir, og bölvaður veri sá, sem bannar sverðinu blóð“. — Hið sama er að segja um hinar smærri misgjörðir, hverjum menn sleppa á stundum, þar til skálkurinn ekki svífist að gjöra hina verstu klæki. Því verður eigi neitað, að hjá oss er orðið svoddan aflát vondra verka og lasta, að menn varla straffa nema smáþjófa; veldur því eigingirni vor, því enginn vill missa sitt, svo er oss auðurinn sár; farga menn því smáskálkunum, því fyrir þeim stóru þykjast þeir óhultir vera, sem völdin hafa, en þess væri óskandi, að hinir stóru þjófarnir ekki ljetu hengja þá smáu á stundum, eins og hvalfiskarnir gleypa litlu fiskana. Díógenes leitaði eptir mönnum í sólskini og heiðbjörtu veðri og þóttist engan finna, en ekki ætla eg að þurfi að kveikja ljós til að finna nokkra svoddan þjófa, jafnvel í myrkri; svo ef þá alla skyldi í gálga draga, þá mundi böðla vanta, þá

mundi snörulaust verða, svo að göngumaðurinn mundi varla fá eitt band til að vefja um tötur sín. En slíku þarf ei að kvíða; hinn rjettláti Guð hefur sjeð þessum óhlutvöndu mönnum bæði fyrir böðli og snöru; stundum hengja þeir hvor annan, stundum sálgar einn gjálífur eyðslusamur sonur, ein lauslát dóttir sínum föður; stundum verða þeir hvað mest prettaðir af sínum eigin þjenurum, er þeir brúkað hafa til að ræna bóndann, ekkjuna og hinn föðurlausa, og þó ekkert sje af þessu, þá kirkir búksorgin og fjegirnin þá allt þangaðtil að dauðinn kvelur af þeim lífið. Svo verða þessir aumingjar hengdir jafnvel fyrir utan snöru. En hvernig sem þessu er varið, þá sjái þeir til, er svo miskunnsamir eru vondum verkum, að þeirra tómlæti og stjórnleysi fljetti þeim ekki svipu handa þeirra eigin hrygg um síðir, og að djöfullinn verði þeim ekki ofvaxinn, þegar leyndardómur ranglætisins, sem nú er í tilbúningi, verður fullkomnaður, svo að ólukkan rammi þá hvað mest og þeirra börn, sem til hennar eru nú verkefnið að spinna, ef ske mætti Drottni leiddist þetta, svo hann tæki sína hönd frá oss.

Öldungar Gyðinga sögðu forðum daga, þegar þeir frömdu allra handa skammir í svefnhúsum sínum: „Drottinn sjer það ekki. Drottinn hefir yfirgefið þetta land“. Svo lifa og enn óguðlegir menn, þó þeir skirrist við að segja það opinberlega, en það kann auðveldlega að ske, að Drottinn yfirgefi landið, þar svo fáir vilja honum viðtöku veita, svo fáir heiðra hann og þekkja hann fyrir sinn Guð. En að hann ekki sjái þá glæp-

ina, sem vjer látumst ekki sjá, og sumir forsvara, það munu þeir þá fyrst mega segja, þegar þeir hafa blindað hann á augunum, sem augað hefir skapað, og þekkir hvað kemur í mannsins huga, og þó að menn sjeu nú svo vægðarsamir við skálkana, þá vantar þá ekki harðfengi á stundum til að ofsækja góða menn og saklausa undir yfirvarpi laga og rjettinda, brúkandi þar til hið heilaga konungsins nafn og stórhöfðingja, jafnvel að þeirra óvilja. Ó herra Guð! Hvað er þá orðið af Drottins orði, er hann segir: „Ef nokkur þræta er á milli einhverra, þá skulu menn hafa þá fyrir dómara, að þar dæmist á millum þeirra, þá skulu þeir segja þann rjettlátan sem rjettlátur er, og þann ranglátan sem ranglátur er". Devt. 25. — Mun þetta ganga svo rigtuglega til hjá oss alstaðar nú um stundir. Eg hygg að því sje fjarri. Paulus segir, Rómv. 13.: „Valdstjettin er ekki góðum verkum til skelfingar heldur vondum". Þessari Guðs skikkan hefur djöfullinn umsnúið nú um stundir hjá sumum hverjum meðal vor, því þar finnast þeir, sem ógna góðum gjörningum en sleppa þeim vondu, og forsvara þá er slíkt aðhafast. Ó þú Guðs maður, St. Paulus, ef þú nú lifðir meðal vor, mundir þú þá ekki hafa orsök til að umbreyta raustu þinni, eins og þú sagðist gjöra vilja við þá í Galatia forðum, og segja við þá, er troða lögin undir fótum til að fella hinn saklausa en reisa skálkinn: „Ef þú vilt ekki óttast valdstjettina, þá gjör hvað illt er, því þeir eru Andskotans þjenarar til hins vonda; en ef þú gjörir hvað gott er, þá vert óttasleginn, því

þeir hegna til reiði á þeim er gott gjörir". Eg mun þykja nokkuð bermæltur í þessu, en það veit eg að viðlíkir hlutir eru til. Malakías segir svo, Mal. 2, 17.: „Þjer ofþreytið Drottinn með yðrum orðum, og þjer segið: Hvar með ofþreytum vjer hann? Þar með að þjer segið: Hver sem illt gjörir, hann er góður í augum Drottins og hann gleðst af því, eða hvar er þá sá Guð sem straffar?" Ekki kveða vorir dómendur þetta upp að sönnu; þó mundi Malakías ætla kunna að þeir hugsuðu hið sama, ef hann mætti sjá upp af sinni gröf. Því þeir breyttu ei þannig, ef þeir ætluðu að Guð mundi straffa ranglætið, og þeir mundu láta af að niðurdrepa hinum rjettláta, ef þeir meintu að hann mundi nokkuð um hann hirða. „Drottinn óttumst vjer ekki, og hvað skyldi konungurinn gjöra oss"; (hin vonda kynslóð á dögum Jeróbóams hins annars, Hós. 10, 3.). Ekkert er líkara sumum af vorum höfðingjum, því Guðs orð heyra þeir eins og dvergmál fjallanna, sem spámaðurinn að orði kemst, jafnvel þó hans reiðarþrumur slái um eyrun á þeim daglega, og þar fljúgi einn skruggusteinn af Sinai í hverju orði. En konungsins lög og skipanir hafa þeir að engu, nær þeim ræður svo við að horfa; þeir snúa rjettinum í malurt, segir Amos 6, 12. Rjetturinn er einn guðdómlegur hlutur og sætur, nær með hann er farið með skilum, því hann er svo sem nokkurs konar bílæti guðdómlegrar tignar, sem lætur góðum vel en vondum illa líða. En ekkert er beiskara, ekkert súrara en þegar hann er vanbrúkaður; það er allt eins og hinn sami spámað-

ur talar um, að þeir gjöra rjettinn að cicuta.— Cicuta er eitt banvænt gras.—Þar er og engin meiri drepsótt landa og lýða heldur en rangir dómar; það er svo sem einn brunnur af fætinum upphrærður, og ein fordjörfuð uppspretta, þegar rjettlátur maður fellur fyrir ranglátum, segir Salómon, Orðskv. 52, og það er hverju orði sannara. Veröldin kann að sönnu ekki að vera fyrir utan ranglæti, því hún liggur í því vonda, segir Jóhannes, 1. Jóh. 5.; en sá órjettur, sem einn kemur öðrum til, hann skaðar minna og verður með lögunum jafnaður, ef þeirra njóta má. En þegar ranglætið setur sig upp á dómstólinn, þá verður Guðs kirkja að ræningjabæli, og enginn óhultur fyrir öðrum; jafnvel þeir sem ekki eru af náttúrunni óráðvandir, þeir týna sinni náttúru þegar þeir sjá að allir hlutir leyfast, svo að hveitið verður að illgresi í Drottins akri. Þetta hefur Habakuk forðum sjeð, er hann talaði í þessum orðum við Drottinn: „Þar fyrir undanfellur lögmálið og rjetturinn hefur ekki framgang, að hinn hrekkvísi umsitur hinn rjettláta. Þar fyrir er rjetturinn rangsnúinn. Hvar fyrir horfir þú á hina prettvísu? Skyldir þú daufur vera meðan hinn hrekkvísi uppsvelgir þann, sem honum er rjettlátari“. Nóg er af slíku á meðal vor og þarf ekki langt að dæmum að leita, þar menn nú um stundir gjöra nærri því handverk að þessu, eins og einn smiður við aflinn situr, og gjörir úr því verkefni, sem hann þá hefur, þann grip sem honum líkar. Svo sitja þessir ranglætis kroppar í heimahúsum á stundum og stundum í tjaldbúðum

sínum og steypa dómana; ekki úr lögunum og háttalagi málanna, — því ekkert vita sumir af oss til laga, og sakirnar heyra menn ekki nema með því eyranu, sem búið var að gylla, — heldur úr fje því, sem borið var í dóminn; og þessi Jeróbóams skurðgoð setja þeir í Betel, í þann heilaga rjettlætis stað, hvar Guð situr meðal guðanna í dómunum; svo eg má það vel Betel eða guðshús kalla, hvert þeir þó gjört hafa að Bethaven, það er að hjegómahúsi, ekki síður en Gyðingar musterið á Krists dögum að ræningjabæli. Og þessa svívirðing foreyðslunnar vilja þeir tilbiðja láta, eins og Díönu bílæti af himnum ofan fallið, af lögræningjanum, hver helzt sem hann er, því þeir gefa henni svoddan tignarklæði, að þeirra glanz blindar augu fávísra manna, eins og þá nokkur í sólina horfir, svo að vesalingurinn skilur ekki neitt í sjálfum sjer og fellst hugur, þó hann eigi hina beztu sök, og nær þeir svo gjöra, þá gráta sumir af þeim, eins og gömul hóra, yfir eymdum þeirra, er þeir hafa hvað mestan órjett gjörðan, svo sem væri þeim harðþjakað til að gjöra þeim mein af laganna myndugleika eður og samvizku sinni, hverja þeir þó annaðhvort enga eður forbrennda hafa. Ó, þjer Demetrii fjelagar, er seljið verk yðar handa og yðar hyggjuvit fyrir Guði. Nær eg þetta hugleiði, þá koma mjer í hug orð Jeremie, er hann talar í Drottins orða stað: „Hversu lengi vill mitt fólk vera fávíst, hversu lengi vilja þeir ekki þekkja mig?“ — Hvað lengi viljum vjer heimskir synir vera? Hversu lengi vilja þeir vitrir vera í því að gjöra illt, en fávísir

í því að gjöra gott. Ó! þjer fávísir prjedikarar viðrinisguða. Ó, þjer ónýtu smiðir, sjáið til að hann, sem situr og bræðir og silfrið hreinsar, hann tali ekki einhvern tíma til yðar af sama kapítula Jeremie: „Belgurinn er brostinn, blýið harðnað; það er til ónýtis að smiðurinn steypi, því það illa verður ekki burt tekið úr landinu“. Á dögum Alexandri keisara hins stranga var það einn óhlutvandur maður, er taldi einföldum mönnum þá trú, að hann væri keisarans vinur, og megnaði hjá honum flesta hluti. Með prett þessum fjekk hann ógrynni fjár af þeim, er leituðu náðar hjá keisaranum; en er keisarinn fjekk það að vita, ljet hann höndla þenna þegn og kæfa hann til dauða í reykjarsvælu, en þingboðið ljet hann hrópa opinberlega: „Sá drapst á reyk, sem reykinn seldi“. Og má því ekki neyta, að þessir hrekkjóttu dóma kramarar þeir selja stækari reyk en hver annar falsari, og nema þeir iðrist af öllu hjarta, munu þeir kafna í þeirri svælunni, sem um eilífð uppstígur, en þó aldrei deyja. Munu nú ekki þessar hrópandi syndir mæða hinn lifanda Guð, bræður, og þykjumst vjer ekki hafa kallað yfir oss hans rjettvísu reiði með þessu óguðlega athæfi, og samt leiðist honum ekki oss gott að gjöra. — Þegar spámaðurinn Jóel útmálar Guðs föðurlegu gæzku, tekur hann svo til orða: „Drottinn er náðugur og miskunnsamur og mikillar góðgirni, sá er iðrast þess illa“. Svo nefnir hann forþjent syndastraff, er hann neyðist til að refsa oss með, óhlýðnum þrælum, en hina guðlausu og þverbrotnu manneskju, sem alla hluti

gefins meðtekur af hans mildu örlætishendi, hana, segi eg, iðrar aldrei af hjarta þeirra skammanna, með hverjum hún til reiði reitir svo náðugan Guð. „Hefi eg verið Ísrael ein eyðimörk“, segir Drottinn Jer. 2.—er hann bríxlar þeim um sitt óþakklæti—„eður jörð sú, er tapi ávextinum?“ Ó herra Guð, hversu hefur þín gæzka verið rík yfir oss á þessum árum, á hverjum vjer höfum hvað verst lifað, hversu hefur þú kórónað árið með þinni góðgirni! hvað stór hefur þín þolinmæði verið yfir oss þverbrotnum syndurum, er þú hefur alið oss, að oss sofnuðum, eins og jörðin akurkarlinn? Já, þá mest, sem verst hafa lifað í þínu augliti, og samt þenkja þeir með Júðum: „Vjer ríkjum og viljum ekki til þín koma“; meinið þjer að svoddan komi af yðar gæzku, sem forsmáið hans nafn, hans orð, hans þjenara, hans volaða, og ekki miklu fremur af því hans þolinmæði dregur til iðrunar. Hvað kunnum vjer nú að klaga, þó hann svipti oss þessari blessan og kasti vorum eigin þrekk í vorar ásjónur, svo sem spámaðurinn að orði kemst. „Tinnan gefur ekki eldinn af sjer nema hún barin sje“. Engin reiði er hjá Guði, nema vjer blásum hana upp, því hann er einskær gæzka; það vottar hann sjálfur hjá Jeremían, segjandi: „Því að þjer hafið upptendrað einn eld minnar reiði, sem brenna mun eilíflega“ Jer. 17.—„Þar er enginn trúskapur, engin góðgirni, engin guðsþekking í þessu landi“, segir Drottinn. — Guð gæfi það mætti eigi og segja um vort land. Hvar er trúskapurinn, nær menn ljúga, ræna, dæma ranglega, sverja falsklega? Hvar er góðgirnin? þar einn

öfundar annan, þar menn svíkjast á innbyrðis, þar einn rægir og baktalar sinn náunga, þar menn rjettlæta hinn rangláta, áfella og undirtroða hinn saklausa? Hvar er guðsþekking, þegar hans orð er forsmáð og hans boðorð undir fótum troðin? svo það er að ugga fyrir, að Guð muni láta ganga þann hræðilega dóm yfir þá, er svo breyta iðrunarlaust, er gekk yfir Ísrael á dögum Hósea spámanns. „Þrátta ekki og ávíta ekki neinn, því að þínir landsmenn eru eins og þeir, sem við prestinn þrátta". — Á hinum fyrri dögum lá þar við lífsstraff að mótmæla kennimanninum, svo sem lesa má Devt. 17., því hann var fyrirmyndan hins mikla hirðis sauðanna, sem þó mótmælin þoldi. Nú er það að sönnu aftekið; en hitt er víst, að hann sem ekki hlýðir einum Guðs orðs þjenara í því, sem hann honum til segir síns embættis vegna, hann mun eigi eilífan dauða umflýja, nema hann iðrist af hjarta áður hann fer burt hjeðan. Heyrið því orð Drottins fyrir munn Sachariæ spámanns: „Ó þjer dómendur í landinu, dæmið rjetta dóma, fremjið miskunnsemi og góðgirni, undirþrykkið ekki ekkjuna, munaðarleysingjann nje hinn fátæka og hugsið ekki illt hver öðrum í yðar hjörtum; og hver hann finnur í samvizku sinni, að hann hafi ekki þessari Guðs raustu hlýtt allt hingað til, hann sundurrífi hjarta sitt með kristilegri iðran, og það með svoddan alvöru, að iðrunin megi að nokkru leyti sambjóða ranglætinu, annars mun Guð taka sinn rjett af honum, ef ekki hjer í náðinni, þá síðar í því díkinu, sem vellur af eldi og brennisteini. Er það of lítið, að

dómari lifendra og dauðra var af einum ranglátum dómara fordæmdur og á gálgann upp hengdur, þar þjer viljið og pína hann í sínum himni og að nýju krossfesta? Snúið því aptur, ó þjer vantrúuðu börnin. Guð taki mína sál frá mjer, og láti mig heldur fótum troðinn verða af mínum óvinum, en að eg skyldi sjá míns fólks ólukku; en það uggir mig, að skyldi þessu lengi fram fara, þá muni Guðs volduga hönd svo drepa á vorn hrygg, að það svíði til vorra eptirkomenda, já, að hann muni senda hungur á landið, ekki víns nje brauðs, heldur sinna orða, svo enginn þori sannleikann að tala, hver að er hinn skelfilegasti dómur hins rjettláta Guðs; já, að hann muni velgja við vorum kristindómi, þar sjerhver einn brúkar skurðgoð vandlætingarinnar í Guðs kirkju, sem er vort hjarta, og segja eins og hann sagði forðum daga við Júða, er hann í svo mörg ár hafði látið prjedika þeim iðrun og syndanna fyrirgefningu, þó forgefins, en gæzkan tók að að sigrast af rjettlætinu: „Hver yðar sem einn dýrki sína endemisguði, fyrir því þjer viljið ekki mjer hlýða; en nafn míns helgidóms skuluð þjer ei framar vanbrúka“. Ó! hversu óttast eg fyrir, að hann muni eins lyndur við suma af oss, er sig kristna kalla, en eru þó fjarlægir öllu kristilegu athæfi, hverra þvermóðsku, ranglæti og guðleysi hann svo lengi þolað hefur, að hann yfirgefur þá í eitt fráleitt sinni; og vilji ekki dýrkaður vera af þeim, sem hann svo langvaranlega og þverúðarsamlega hafa vanhelgað í sínum hjörtum, sínum orðum og sínum limum. Svo heyrið nú þetta,

kristnir menn, og látið yður mál mitt í eyrum loða, andvarpið ekki hver á móti öðrum, svo að þjer fordæmist ei; sjáið, að dómarinn er fyrir dyrum, segir Jakob 5.—Guðs er dómurinn, rænum hann ekki sínu; honum veitir ljett að krefja aptur herfangs síns af vorri hendi. Dæmum sjálfa oss, vora eymd, vora bresti, vora synd, þá höfum vjer sýslu nógu stóra, og hvern dag allt of mikið að starfa, svo vjer munum ei fá tóm til að dæma vora bræður. Dæmum sjálfa oss, segi eg, svo verðum vjer ekki af Drottni dæmdir, segir Paulus, 11. — Og þegar vjer eigum í Guðs stað að dæma, þá hugleiðum hvert umboð vjer á hendi höfum, sem er hans, sem alla veröldina með rjettvísi dæmir. Haf fyrir augum þjer Kristum fyrir Pilati dómi standandi; hugleið hann apturkomandi í skýjum himins með makt og miklu veldi, hvar muntu þá standa, vesall og aumur, sem aldrei hafðir Guð fyrir augum í þínum dómum hjer á jörðunni, og aldrei til laga leizt, heldur ljezt þótta þinn og ofbeldi drottna í dómunum. Takið ei með yður ágirndina, öfundina, óttann nje vinskapinn til dómanna—þessir eru hinir verstu lögrjettumenn—en þó heiptina allra sízt, því hún er einn blindur djöfull, og varnar þeim að sjá sannleikann, sem elur hana. Skynsemin vill dæma það, sem rjett er, reiðin vill láta það rjett sýnast, sem hún dæmir. Skynsemin sýslar alleina um það, sem fyrir dóm kemur. Reiðin hugleiðir þær mótgjörðir, sem hana kveikt hafa og sökunum ekki við kemur; þó að sannleikanum sje þrýst inn í augu henni, þá forsvarar hún lygina; hún

lætur sig ekki leiðrjetta, og það sem hún illa byrjað hefur, kallar hún heiðarlegra að reka áfram með kappi, heldur en að iðrast þess. Lögin bjóða, að menn taki skynsama menn til dóma, en hvernig má þann heilvita kalla, sem með þvílíku sinnuleysi plágaður er.

Gæti því hver að sjálfum sjer í Drottins nafni, og hafi það fyrir víst, að mannsins reiði verkar ekki Guðs rjettlæti. En þú voldugi alls holds dómari, herrann Jesú Kristi, veit þú oss náð þíns góða anda, til þess að vjer mættum svo geyma dóma vorra, heimulegra og opinberlegra, að vjer á hinum síðasta allsherjardómi mættum náð finna fyrir þínu augliti.—Bænheyr það, Drottinn Jesú, fyrir þína forþjenustu.

AMEN.



# RÆÐUR

haldnar við útför skólapilts

# JÓNS JÓNSSONAR.

---

Útgefnar
á kostnað stjúpföður hans.

---

Reykjavík.
Prentaðar í prentsmiðju Íslands, hjá E. Þórðarsyni
1854.



# 1. Húskveðja

haldin í skólanum af

skólakennara **Jens Sigurðssyni.**

---

Vjer höfum hjer misst efnilegan og vænan skólapilt, þar sem þessi framliðni ungi maður var. Kennarar þessa skóla þykjast mega sakna hans, sem einhvers hins eptirtektasamasta og greindasta lærisveins, sem hjer hefur átt dvöl, síðan skólinn kom á þenna stað, og jafnframt, sem einhvers hins siðlátasta. Skólabræður hans munu sakna í honum einhvers hins góðlátlegasta og ljúfasta bróður. Það er sviplegt þetta — þegar ungur maður í blóma lífsins er kallaður svona hjeðan burtu frá verki sínu; fyrir 14 dögum gekk hann til sængur með sóttar aðkenning, og nú er hann lík. Það er enn eitt dæmi upp á fallvaltlegleika lífsins og hverfulleik alls hins jarðneska, fyrir utan svo mörg önnur, sem vjer sjáum á hverjum degi — og það verður hjer, sem optar, næsta áþreifanlegt,

að vjer, eins og ritningin segir — höfum hjer engan blífanlegan samstað, og allt hið jarðneska er svo brigðult, þá ríður oss umfram allt á, að ná í það og halda því, sem er stöðugt og varanlegt, að ná þeim fjársjóðum, sem mölur og ryð fá ekki grandað og þjófar ekki eptir grafizt, en þeir fjársjóðir eru vísdómur og dyggð. Vísdómur og dyggð eru fjársjóðir sem sál vor, vor ódauðlegi partur, flytur með sjer og býr að, þegar hún skilur hjer við; en jarðneskir fjársjóðir eru einkisverðir í sjálfu sjer og koma oss að svo miklu leyti að haldi, sem vjer kaupum fyrir þá vísdóm og dyggð. Þegar vjer því sjáum, að hann voldugi engill drottins er ávallt á ferð, til að innsigla þá, sem hann vill kalla hjeðan, þá látum oss vinna meðan dagur er, því að nóttin kemur og dettur má ske fljótt á, en úr því fær enginn unnið. Endurlausnari vor sagði oss eptirlíkingu um herramann, sem fjekk þjónum sínum vissa punda tölu til að láta bera vöxtu, þangað til hann kæmi og heimtaði þau aptur með þessum vöxtum. Þessi eptirlíking hljóðar upp á oss alla saman. Drottinn vor felur hverjum af oss í hendur pund, þegar hann gefur oss lífið, það eru kraptar vorir, gáfur og atgjörvi. Verjum vel hver sínu pundi, svo vjer getum flutt honum þau aptur með vöxtum, þegar hann kemur að heimta þau, en hann kemur opt óðar en oss varir til þess.

Sár má vera söknuður allra þeirra eptirlif-andi, sem að þessum unga manni stóðu, sjer í lagi foreldra og systkina. Það er von þótt svo sje, því að ástarböndin eru svo næm, ef þau slitna svona snögglega. En drottinn hefur gefið lækning við því sári, bæði í orði sínu og í því, hvernig þessi framliðni varði sínu pundi. Hinn guðhræddi maður, Davíð konungur, huggaði sig eptir dauða föður síns með þessum orðum: Jeg kem til hans, en hann ekki til mín; hið sama mega þau segja, þar sem hann er; þangað eig-um vjer að koma. Og Kristur, vor frelsari, hefur brugðið fyrir oss, kristnir menn, upp ljósi í grafar myrkrunum, svo þau eru oss nú ekki eins dimm, eins og þau sýndust áður vera. Vjer kristnir menn höfum óræka vissu um, að dauðinn er blundur til eilífs lífs. Vjer get-um því í trúnni á hann sagt: Þessi piltur er ekki dauður, heldur sefur hann.

Það er önnur raunabót fyrir þá, sem að þessum framliðna standa, að það var eptir góð-um syni og góðum bróður að sjá, því að hann hafði varið sínu pundi vel. Hver er meiri rauna ljettir, en syrgja þann, sem manns mót er að. Það er óneitanlega mikið mótlæti, að verða að missa þess yndis og ánægju, að njóta sam-búðar sinna ástvina hjer á jörðu; en annað er þó meiri raun, og það er sú, þegar þeir ganga út á hinn breiða veginn, sem liggur til glötun-

arinnar, til dauðans sjálfs; því að þann, sem út á hann gengur, eigum vjer á hættu að missa fyrir fullt og allt; er það ekki munur?

Vjer kveðjum þig nú hjer, vor framliðni ungi vin! samhuga lifandi í þeirri trú, að þú sjert kominn til þíns og vor allra kennara, sem kennir þjer bezt af öllum; og foreldrar þínir mæla eptir þig þesskonar orð:

gjöfin þín gladdi geð foreldra,
gröf þín vætir nú augu tárum;
en huggun er þig á himnum vita
í höndum alföður sólu fegri.

Sælan búi með anda þínum og friðurinn sje yfir moldum þínum!

## 2. Ræða

haldin í kirkjunni af

sjera **Sveinbirni Hallgrímssyni.**

---

*Háttvirtu tilheyrendur! Ástkæru skólasveinar!*

Svo höfum vjer þá enn fengið sönnuð þessi orð: *ungur má*; fengið það staðfest af reynslunni, að þegar sá, sem vjer köllum óvin lífsins, kemur og kallar: komið hjer út, þjer mannanna börn! þá gildir hvorki æska nje æskunnar fjör og heilsa; allir verða að gegna, því það á að sannast, að gamall skal, en ungur má. Vjer lýsum því nú að vísu nokkuð misjafnlega; köllum það t. a. m. eitthvað leitt, þegar dauðinn gengur svona, eins og hann hefur gjört hjer, inn í hóp hinna ungu, leggur hönd sína helkalda á hinn hrausta æskumann, og leiðir hann út. En hvers vegna lýsum vjer því svo, köllum vjer það þannig? Er það ekki af því, að vjer köllum dauðann sjálfan óvin lífsins? Jeg skal nú engan veginn neita því, að það er eitthvað mótstríðandi mannlegri tilfinningu, eitthvað mótstæðilegt lífsfýsninni, að sjá hinn unga

þekkja líf Krists og lærdóm hans, þess blíðari verður oss iengill dauðans, og allt eins og einhver friðarengill; hann tekur af sjer svörtu skýluna, og bindur rósir um enni sjer, og þá það sjeu rósir í blómhríng á dauðra manna gröfum, þá eru það rósir eins fyrir það, því þær hafa ilm og blóm eins og lifandi rósir. Og þegar nú þessi kennari kemur og vitjar vor, þegar hann reynir oss með öðrum eins atburði og hjer er orðinn, þá heimtar hann af oss kristileg svör, svör, sem vitna um, að vjer berum kennsl á lærdóm hans, svo að vjer getum litið á atburðina með kristilegu hugarfari, og þá svarað honum upp á þá með kristilegum orðum. Þannig hæfir oss þá að svara vorum himneska kennara upp á dauða þessa vors framliðna, unga skólabróður, ekki með orðum þeirra, sem kalla þetta leitt, sem eins og ekki sjá annað í því, en hrelling fyrir fjelagið, óvinskap gegn lífinu, heldur með orðum sjálfs hans, og segja þá með hans orði og í hans anda: pilturinn er ekki dáinn, heldur sefur hann!

Það er að vísu nokkur munur á því, hvað hjörtu vor eru viðlátin að svara Kristi kristilega upp á dauða meðbræðra vorra, hvað vjer eigum eins og hægt með sjálfir, að líta á dauðann þeim augum trúarinnar, sem láta oss sjá í anda speki guðs, svo að vjer getum kallað upp til drottins yfir líkkistunni og gröfinni: „Ó þú

dýpt auðæfanna, spekinnar og gæzku guðs“! Þannig getum vjer að vísu með lofgjörð og lotningu svarað drottni, þegar vjer stöndum yfir greptri gamalla manna, sem sýndust búnir að afljúka dagsverki sínu, og hafa nú fengið að hvílast af erviði lífsins. En liggja þá líka eins á hraðbergi fyrir oss þessi lofgjörðar- og lotningarorð, getum vjer eins ljúflega tekið til þeirra og haft þau yfir, þegar vjer stöndum að jarðarför t. a. m. ungbarnsins, sem ekki var enn farið að hjala nafn skapara síns, eða þá æskumannsins, sem var að búa sig undir það að geta vegsamað guð með verkum sínum? Þegar dauðinn sækir þann, sem stendur í blóma lífsins, kallar hann burt frá lífsins fyrstu störfum, já, rífur hann upp frá miðju dagsverki, og gjörir, ef til vill, það skarð í fjelaginu, sem ekki er svo hægt að fylla, liggja oss þá ekki optast næst þessi auðmýktarinnar svör: Ó, drottinn, undarlegir eru þínir dómar og ósporrækir eru þínir vegir! Jú, vjer verðum að játa það, að það er stundum þungt að svara drottni í tímum hans, þeim er hann á hjá oss, til að reyna trú vora; og vjer viljum ekki heldur neita því, að það sem hann í þessum sínum vitjunartíma hefur lagt fyrir, til að prófa oss með, það reynir ekki alllítið á svör trúarinnar og trúna sjálfa. En það er þá líka bótin, að hann hefur sjálfur fengið oss í höndur þá spekinnar bók, þar sem kristi-

leg trúarsvör liggja til sjerhvers atburðar, sem fyrir kemur í lífinu. Og einmitt úr þessari bók eigum vjer þá að taka, og getum vjer líka tekið svarið til drottins upp á dauða þessa vors unga og efnilega skólabróður. Hjörtum vorum þykir að vísu, sem dauða hans hafi of fljótt að borið, og að það væri æskilegt, ef hann hefði mátt standa lengur á lífsins akri; en hjörtum vorum til huggunar lítum vjer þá í nafni drottins á líkkistu hans, flettum upp hinni helgu bók og segjum í nafni drottins: hann er ekki dáinn, heldur sefur hann! Og þessi trúarinnar orð, sem svo opt hafa samið frið milli himins og jarðar, milli guðs og manna, milli lífs og dauða, þau semja nú einnig á þessari stundu hjörtu vor til friðar og sátta við þessa ráðstöfun drottins, sem hjer er orðin. Eins og vjer vitum það, að sólin ljómar og skín á uppheimsloptinu, þó að skýin hjer niður í gufuhvolfinu skyggi á hana fyrir augum vorum, eins segjum vjer oss það sjálfir í trú þessara orða hins eilífa lífsins, að sálin vakir og lifir í uppheimaljósi guðs, þó að svefn dauðans og myrkur grafarinnar feli hana hjer fyrir sjónum vorum í þessu landi dauðlegleikans. En svo látum oss þá líka lýsa fögnuði vorum yfir þessari vorri sáluhjálplegu trú og svara drottni með syngjandi röddu í þessum hans vitjunartíma:

[1]Kríngum þig ljómar lífs í höll
ljós guðs andlitis bjarta;
hrein sigurklæði, hvít sem mjöll,
heilagleg á þjer skarta.
Nýir árstraumar náðar hans,
hvívetnli dýrðar skaparans
lífga þinn hug og hjarta.

Já, jeg ítreka enn aptur yfir hvílurúmi þínu, sæli bróðir, þessi orð skáldsins góða og guði líka, sem blandast nú líka skammt hjer frá utan þessara veggja. Kríngum þig ljómar lífs í höll, o. s. frv.

Svo lítum vjer þá í þessari vorri sáluhjálplegu trú rósömum augum á dauða þessa vors framliðna skólabróður, og vjer þökkum guði fyrir þá minningu, sem vjer höfum eptir hann. Því þó að æfi hans væri stutt og hann dæi svo burt frá oss, að hann mátti varla heita meir en hálfsjeður maður, þá hefur hann eigi að síður getið sjer góðan orðstír. Vjer getum vitnað það, að bæði höfum vjer heyrt, að kennarar hans bera honum þann vitnisburðinn, sem mest prýðir æskumanninn á hans reki og í hans stöðu: að hann hafi verið fyrir öðrum í ástundun og alúð við lærdóm sinn, og að hæversku og siðprýði í allri framgengni, og svo vitum vjer líka til, að hann hafði áunnið sjer elsku og virðingu skólabræðra sinna með góðleik hjartans og hæg-

[1]) Þetta vers var sungið og spilað á orgelið.

læti framferðisins. Það er því ekki hætt við, að minning hans líði svo fljótt undir lok, því þó að æskan sje kölluð gjálíf og gleymin, þá byrjar þó opt á þeim árunum sú vináttan, sem varir og viðhelzt æfina út. Og hver veit nema hinn framliðni hafi með mannkostum sínum verið búinn að reisa sjer þanna stað í hjarta einhvers af þeim æskumönnum, sem lifað höfðu með honum hið nósama og áhyggjuhæga skólalíf, en sem nú standa hjer yfir líkkistu hans; þann stað, sem geymir minningu hans í brjósti þeirra til ellidaga? Þessi líkkista hverfur oss bráðum, en trúið mjer, vinir mínir! hún lætur eptir sig minningu í yðar ungu og viðkvæmu hjörtum. Árin fjölga og færast yfir yður, og ellidagarnir koma; en trúið mjer, þjer skuluð þá ekki geta minnzt svo á skólalíf yðar, að þjer ekki minnizt um leið á tímana, sem drottinn lífsins og dauðans átti hjá yður á þessum vetri. Í elli yðar skuluð þjer minnast þeirrar þungu baráttu, sem þessi yðar framliðni skólabróðir átti við dauðann þenna drottins stranga vitjunartíma; á kveldi æfi yðar skuluð þjer minnast kveldsins þess, er þjer hófuð líkkistu hans út úr skólanum, báruð hana fram hjá húsum hinna lifenda, og fluttuð hana upp í hús hinna dauðu; á gamalaldri skuluð þjer minnast þessarar stundar, er þjer sóktuð aptur líkkistu hans upp í húsið það, sem kennt er við lík og stendur innan

um dauðra manna grafir, og bárað hann í þettá hús, sem kennt er við drottinn dýrðarinnar, guð yðar allra, lifandi og ríkjandi að eilífu. Og þjer skuluð ekki geta minnzt svo á þessa atburði, að þjer ekki um leið minnizt hins framliðna, getið hans að góðu og tjáið fyrir niðjum yðar, að hann hafi verið fyrirmynd æskunnar í siðprýði.

En af því að jeg hef talað um tíma drottins hjá oss við þetta tækifæri, þá minnir það mig á, að ekki nægir, að vjer einungis geymum minningu hins framliðna, að því leyti sem hún heyrir jörðunni til; vjer verðum einnig að geyma hana að því leyti sem hún heyrir himnum til, fyrst hann er og sjálfur til himins farinn. Drottinn hefur hjer kallað til sín einhvern hinn ágætasta æskumann skólans; þetta skil jeg þá svo, sem hann með burtköllun hans, hafi viljað draga hjörtu bræðra hans burt frá jörðunni og benda þeim upp til sín. Drottinn vissi það, vinir mínir, að þjer elskuðuð þenna skólabróður yðar; hann vissi það þá líka, að elskan mundi gjöra yður ljúft, já mundi knýja yður til að fylgja honum í anda upp til hans og yðar föðurhúsa. Drottinn hefur nú gefið honum þar hjá sjer eilíft jólafrí og eilífa jólagleði, þetta hvorttveggja sem þjer eigið nú líka von á um þessa daga, en hvorki eilíft nje ómengað. Það er nú eins og hinn himneski

kennarinn hafi viljað vekja athygli yðar á því frelsi og þeim fögnuði, sem hann veitir þeim, er hann kallar burt úr skóla lífsins og tekur í skólann til sín. Þjer getið líka trauðlega notið svo yðar jólaleyfis og jólagleði, að þjer ekki með köflum látið hugann hvarfla til hans, sem vann með yður mestallan vinnutímann, bar með yður hita og þunga hvers dagsins, uns stund hans kom og hinn strangi vitjunartími drottins. Já, svo látið þá og líka minningu hans á himni drottins helga fyrir yður jólaleyfið og jólagleðina; minnizt mitt í gleðinni vinar yðar og bróður í hýbýlunum hjer efra, og staðnæmizt þar hjá honum í frístundum yðar. Það ætti svo enn að vera yður ljúft, að vilja skoða yður um í hinni himnesku paradís, yður, sem eruð ekki enn þá komnir út úr hinni jarðnesku. Og ef að nú þannig hin ástríka minning yðar á framliðnum bróður verður til þess að laða huga yðar til himins, til þess að draga hjörtu yðar nær guði, hvílíkan tíma, hversu blessunarríkan fyrir gjörvallt yðar líf hefur þá ekki drottinn lífsins og dauðans átt hjá yður að þessu sinni! Hversu mikla speki hafið þjer ekki af honum numið þennan hans eina vitjunartíma, ef þjer hafið lært að svara honum kristilega upp á lífsins sorglegasta atburð, og ef þjer hafið getað látið yður skiljast, að einmitt dauði ástvina yðar sje til þess að draga hjörtu yðar nær guði! En

einmitt þessarar speki óska jeg yður. nú fyrir æfi yðar að endingu, því jeg hætti nú tali mínu og enda það með orðum skáldsins:

Vjer þökkum gjöf, sem gaf hann oss,
geymandi minning kæra.
Til sín hann tók það helga hnoss,
honum skal lofgjörð færa.
Hjá honum er oss gjöfin geymd,
gráti numin og hvers kyns eymd.
Honum sje heiður og æra!

# 3. Ræða[1]

haldin í kirkjunni af

dómkirkjupresti, prófasti **Á. Johnsen.**

Það er efalaust enginn af öllum þeim, sem hjer eru viðstaddir, er ekki með hryggð hafi heyrt fráfall hans, sem hjer liggur liðið lík; því að efnilegur unglingur, í fegursta æskublóma, hefur hjer yfirgefið vorar sambúðir, er hjer hrifinn úr ástríkum faðmi foreldra og fræðara, frá hlið heittelskandi bróður og systkina, úr fríðum hóp jafnaldra og skólabræðra. Líkami hans hafði því nær fengið fullan þroska fullorðins manns, sál hans náð þeim framförum í þekkingu og mannkostum, sem færri á hans aldri hafa að hrósa sjer af; það var rjett að því komið, að hann ætti að yfirgefa þá menntastiptun, við hverja hann hafði dvalið undanfarin 6 ár, og færi að velja sjer vissa stöðu í lífinu; það var rjett að því komið, að starfi foreldra hans og fræðara, að uppeldi hans og menningu væri lokið, að foreldrar hans færu að uppskera ávöxt alúðarfyllsta uppeldis, alls þess er þau

[1]) þessi ræða var haldin stundu síðar.

um dauðra manna grafir, og báruð hann í þetta hús, sem kennt er við drottinn dýrðarinnar, guð yðar allra, lifandi og ríkjandi að eilífu. Og þjer skuluð ekki geta minnzt svo á þessa atburði, að þjer ekki um leið minnizt hins framliðna, getið hans að góðu og tjáið fyrir niðjum yðar, að hann hafi verið fyrirmynd æskunnar í siðprýði.

En af því að jeg hef talað um tíma drottins hjá oss við þetta tækifæri, þá minnir það mig á, að ekki nægir, að vjer einungis geymum minningu hins framliðna, að því leyti sem hún heyrir jörðunni til; vjer verðum einnig að geyma hana að því leyti sem hún heyrir himnum til, fyrst hann er og sjálfur til himins farinn. Drottinn hefur hjer kallað til sín einhvern hinn ágætasta æskumann skólans; þetta skil jeg þá svo, sem hann með burtköllun hans, hafi viljað draga hjörtu bræðra hans burt frá jörðunni og benda þeim upp til sín. Drottinn vissi það, vinir mínir, að þjer elskuðuð þenna skólabróður yðar; hann vissi það þá líka, að elskan mundi gjöra yður ljúft, já mundi knýja yður til að fylgja honum í anda upp til hans og yðar föðurhúsa. Drottinn hefur nú gefið honum þar hjá sjer eilíft jólafrí og eilífa jólagleði, þetta hvorttveggja sem þjer eigið nú líka von á um þessa daga, en hvorki eilíft nje ómengað. Það er hjer eins og hinn himneski

kennarinn hafi viljað vekja athygli yðar á því frelsi og þeim fögnuði, sem hann veitir þeim, er hann kallar burt úr skóla lífsins og tekur í skólann til sín. Þjer getið líka trauðlega notið svo yðar jólaleyfis og jólagleði, að þjer ekki með köflum látið hugann hvarfla til hans, sem vann með yður mestallan vinnutímann, bar með yður hita og þunga hvers dagsins, uns stund hans kom og hinn strangi vitjunartími drottins. Já, svo látið þá og líka minningu hans á himni drottins helga fyrir yður jólaleyfið og jólagleðina; minnizt mitt í gleðinni vinar yðar og bróður í hýbýlunum hjer efra, og staðnæmizt þar hjá honum í frístundum yðar. Það ætti svo enn að vera yður ljúft, að vilja skoða yður um í hinni himnesku paradís, yður, sem eruð ekki enn þá komnir út úr hinni jarðnesku. Og ef að nú þannig hin ástríka minning yðar á framliðnum bróður verður til þess að laða huga yðar til himins, til þess að draga hjörtu yðar nær guði, hvílíkan tíma, hversu blessunarríkan fyrir gjörvallt yðar líf hefur þá ekki drottinn lífsins og dauðans átt hjá yður að þessu sinni! Hversu mikla speki hafið þjer ekki af honum numið þennan hans eina vitjunartíma, ef þjer hafið lært að svara honum kristilega upp á lífsins sorglegasta atburð, og ef þjer hafið getað látið yður skiljast, að einmitt dauði ástvina yðar sje til þess að draga hjörtu yðar nær guði! En

einkum eptir þessarar speki óska jeg yður nú fyrir æfi yðar að endingu, því jeg hætti nú tali mínu og enda það með orðum skáldsins:

Vjer þökkum gjöf, sem gaf hann oss,
geymandi minning kæra.
Til sín hann tók það helga hnoss,
hónum skal lofgjörð færa.
Hjá honum er oss gjöfin geymd,
gráti numin og hvers kyns eymd.
Honum sje heiður og æra!

---

# 3. Ræða[1]

haldin í kirkjunni af

dómkirkjupresti, prófasti **Á. Johnsen.**

---

Það er efalaust enginn af öllum þeim, sem hjer eru viðstaddir, er ekki með hryggð hafi heyrt fráfall hans, sem hjer liggur liðið lík; því að efnilegur unglingur, í fegursta æskublóma, hefur hjer yfirgefið vorar sambúðir, er hjer hrifinn úr ástríkum faðmi foreldra og fræðara, frá hlið heittelskandi bróður og systkina, úr fríðum hóp jafnaldra og skólabræðra. Líkami hans hafði því nær fengið fullan þroska fullorðins manns, sál hans náð þeim framförum í þekkingu og mannkostum, sem færri á hans aldri hafa að hrósa sjer af; það var rjett að því komið, að hann ætti að yfirgefa þá menntastiptun, við hverja hann hafði dvalið undanfarin 6 ár, og færi að velja sjer vissa stöðu í lífinu; það var rjett að því komið, að starfi foreldra hans og fræðara, að uppeldi hans og menningu væri lokið, að foreldrar hans færu að uppskera ávöxt alúðarfyllsta uppeldis, alls þess er þau

---

[1]) Þessi ræða var haldin stundu síðar.

höfðu gjört hans vegna, að fræðarar hans og vinir færu að fagna af fagurri uppskeru velbrúkaðra ungdómsára. En þá var líka sú stund komin, er gjörði enda á hjerveru hans. Vonin átti ekki að rætast, hinn fagri vísir ekki að bera fullvaxta blóm — hann hnje í dauðans djúp. Og hvað skulum vjer þá hjer til segja? Getum vjer í því, sem hjer er skeð, huggað oss við það, sem ávallt annars er vant að veita oss hina beztu huggun, að allt, sem guð gjörir, sje vel gjört? Jú vissulega. Að vísu eru oss guðs vegir of háir og óskiljanlegir, en hinn trúaði efast samt eigi, örvæntir eigi, heldur hefur huga sinn í hæðir og segir: allir vegir guðs eru einskær miskun og trúfesti. Og einmitt þetta er það, sem jeg nú vildi minnast á, oss öllum til huggunar við það, sem hjer er skeð.

Þjer kveinið og kvartið, kærir vinir, að guð hafi ekki gjört vel við hinn framliðna, að láta hans glaða lífsljós svo snemma slokkna, hans fögru hjerveru svo skjótt enda taka; yður virðist, að hann lengi hefði átt að njóta þess, að fá að gleðja sig við hjerveru sína. En vitið þjer þá, hvað hans má ske hefði beðið, ef honum hefði orðið lengra lífs auðið? hvort lífið þá mundi hafa orðið honum til gleði eða sorgar? Allt hingað til hafði lífið að vísu að eins sýnt honum blíðu sína. Hann stóð í blóma síns lífs, var gæddur fríðri sál í fríðum líkama, hafði nægilegt af öllu

því, sem þessa lífs þörf útheimti; hann var augasteinn foreldra sinna, yndi og eptirlæti bróður síns og systkina, uppáhald fræðara sinna og fjelagsbræðra, hvers manns hugljúfi — í öllu tilliti hafði lífið þannig enn þá verið honum brosleitt. En mundi það ávallt hafa verið svo? Mundu engin sorgarský síðar meir hafa dregið fyrir hans gleðisól? mæða og mótlæti aldrei sárlega hafa minnt hann á ófullkomlegleika þessa jarðneska lífs? Og hefur guð þá ekki gjört það vel við hann, að hann án langrar reynslu er hafinn frá þessa lífs sorg og sút til eilífðarinnar sælu, úr þessa heims dimmu til himinsins birtu?

Þjer kveinið og kvartið, að þótt hinn framliðni sje laus við alla þessa heims mæðu, þá hafi guð samt ekki gjört vel við hans hryggu foreldra, vini og vandamenn, að slíta hann úr faðmi þeim. Ó! hver skyldi lá það, þótt það sárt sæki þann, sem gekk honum í bezta föður stað, þótt það leggist þungt á hans ástríku móður, að heyra fráfall þessa síns efnilega sonar, hans, sem var þeim til svo mikillar gleði, svo mikils sóma, og sem að eins með dauða sínum olli þeim hryggðar? Hver skyldi lá það, þótt systkini hans sárt harmi missir bezta bróður, þótt bróðir hans með grátnum huga segi skilið við þann, sem hann ávallt hingað til var vanur að sjá við hlið sjer, með hverjum hann

var eitt hjarta og ein sál, þótt honum finnist líka sem hann nú hafi hvergi höfði sínu að að halla, eptir að sá er honum horfinn, að hvers brjósti hann í hverju einu var vanur að halla sjer? Ó! það ætti að minnsta kosti að skiljast þeim, sem einhvern tíma hafa þvílíkt reynt. En er þá lífið samt, kærir vinir! hið æðsta góða, sem menn geta misst? Ó! ef kjörum hans, sem hjer liggur lík, á einhvern hátt síðar hefði orðið svo varið, að dauði hans hefði orðið gleði en ekki sorgar-efni? Ef hann hefði ratað í miklar raunir, eða beðið hart heilsu-tjón, eða villst af hinni rjettu leið, og þeir, sem nú harma missi hans, hefðu lifað það — ætli sorg þeirra mundi þá hafa orðið minni? Og skyldu þeir þá þora, þótt þeir gætu, að kalla hann aptur, að óska honum aptur til þessa lífs, til þessa lífs vissa stríðs, en óvissa sigurs? Og er hann líka að eilífu horfinn ástvinum sínum? Gaf Kristur ekki von um apturfund hinumegin grafar? Og er þeir þá aptur hittast á hæðum, sem hjer urðu að skilja, er hinn sæli sonur á síðan á himnum tekur á móti sínum góða föður, er hann á síðan breiðir sinn sæla faðm móti sinni elskuðu móður, er hann á síðan, sjálfur engill, leiðir bróður sinn og systkini í hóp engla og útvaldra, munu þau þá efast um, að guð hafi þetta vel gjört?

Þjer kveinið og kvartið, að guð hafi ekki

gjört vel við heiminn, að svipta hann svo snemma honum, sem var svo gott mannsefni, sem var gæddur svo miklu atgjörvi, svo hreinu hjarta, svo góðum vilja. Og hvers vegna hefur guð ekki gjört það vel? Mun hans armur þá stuttur orðinn? hans vald veiklað? Hefur hann ekki ótal meðöl í hendi sjer til að fá því fram komið, sem hann vill? Eru ekki vindarnir hans sendiboðar og eldingarnar hans þjenarar? Og skyldum vjer þá vilja fyrirskrifa guði, hvaða veg hann skuli velja, hvaða meðöl brúka? Skyldum vjer mögla yfir því, er hann fer að sínum ráðum.

Ó! skammsýnn dauðlegur maður! guð gjörir allt vel, einnig það, sem þú ekki skilur. Vjer sjáum ekkert nema pörtum saman, hans alskyggna auga er hafið yfir stund og stað; vjer getum að eins hugsað og áformað, viljað og óskað, en hann talar og svo skeður það, hann býður og svo stendur það þar. Látum oss því treysta guði og gefa oss alveg á hans vald. Látum oss vegsama hans nafn, ekki einungis þegar hann gefur, heldur líka þegar hann sviptir.

Þetta, kæru vinir! vildi jeg hafa sagt foreldrum hans, ef þeir hefðu mátt heyra orð mín. Því — er þeir heyra þessi sorgar-tíðindi, mun þeim þá ekki liggja við fyrst að hugsa: von míns lífs, mitt yndi, mín ellistoð er horfin.

Nei, kæru foreldrar! yðar von sje guð, yðar ellistoð sje faðirinn á himnum, hann bregzt eigi, hann breytist eigi. Guð hefur að vísu sannlega sært yður, en hann hefði eigi gjört það, ef hans speki hefði sjeð annað betur henta, og hann hefur lofað yður, að halda hinum börnum yðar hjá yður og vera yður til gleði og sóma. Hann gaf yður þenna son, hann ljet yður hafa af honum yndi og sóma, hann hefur nú tekið hann aptur, tekið aptur þessa sína gjöf, þetta sitt lánarfje; átti hann það ekki frjálst? Og hann tók hann af því, að hann var of góður fyrir þenna heim, tók hann til þess, að gróðursetja hann á öðrum betri stað; er ekki gott að eiga sitt hjá guði? Ó! allt hvað guð gjörir er vel gjört, hans nafn sje vegsamað!

En þetta segi eg einnig yður, sártsyrgjandi bróðir, sártsaknandi skólabræður hins framliðna. Þjer harmið ástríkan vin, bezta bróður, dyggan samfylgdarmann á lífsins leið, og yður virðist, sem einn liður sje brostinn í yðar bræðra-hring. Og svo er það líka, en yður til lærdóms, yður til alvarlegrar áminningar. Þangað, hvert hann fór, liggur líka yðar leið. Þjer vitið eigi, hve langt þess muni að bíða, að þjer verðið þangað kvaddir. Þjer hugsið nú, að þess muni enn langt að bíða. Einnig hann, sem hjer sefur sætt og rótt, gat hugsað hið sama. Hann var á bezta æfiskeiði, heill og hraustur, fjörmikill

og hugglaður, og fyrir fám dögum, efalaust að hans meiningu, enn langt frá dauða sínum. Og þó liggur hann nú liðið lík í þessu kalda legurúmi; því að fyrir alla menn er að eins eitt stig milli þeirra og dauðans. Gleymið þessu aldrei, kærir vinir. Einnig yður gat hitt, getur hitt það, sem nú hitti þenna bróður yðar. Þess vegna gleð þig, ungmenni, í þinni æsku, og lát hjarta þitt vera glaðvært, gjör það, sem hjarta þitt girnist og augum þínum þóknast, en vit, að guð mun kalla þig til reiknings fyrir allt þetta. Ó! strengið þess nú heit við gröf þessa ástvinar yðar, af öllum mætti að leggja stund á vísdóm og dyggð, svo að þjer verðið foreldrum yðar og fræðurum, vinum og vandamönnum til sóma og gleði, svo að föðurlandið eignist, þar sem þjer eruð, góða borgara, heimilin dygga feður og húsfeður, heimurinn uppbyggilega verkamenn; lagið allt yðar eðli, rækið öll yðar störf eins og þjer gjörðuð það fyrir eilífðina. Og svo er það líka í raun og veru; því þótt guð kalli einn í dag, annan á morgun, þó að kveld sje komið fyrir mörgum áður þeir hafa hádegi litið, þá er samt ekkert gott sæði glatað, engin fögur viðleitni árangurslaus, ekkert dagsmark til einkis, og guð endurgeldur ekki eptir því hve lengi, heldur eptir því hve vel hver og einn hefur lifað; því að vísdómur meðal mannanna eru þær rjettu hærur, og óflekkað líferni hin rjetta elli.

— Já allt hvað guð gjörir er vel gjört, það vitjum vjer allir, sem hjer erum viðstaddir, láta oss sagt vera. Er ekki allt, sem skeður, ætlað oss öllum til lærdóms, til viðvörunar? Hverjum til handa blómgast blómið á vellinum? hverjum til handa sveimar fiskurinn í sjónum og fuglinn í loptinu? hverjum til handa lætur hauður og haf auðlegð sína í tje? þjer, ó maður! gaf guð jörðina, en hann gaf þjer hana til þess, að hún skyldi vera þjer reynslu skóli, reynslu stand, þú átt að vinna hjer það, sem annars heims fái þjer að haldi komið, þú átt að starfa fyrir eilífðina. Mikið og dýrðlegt er það pund, sem guð gaf þjer; en strangur er líka sá dómur, er þín bíður, sá reikningsskapur, er guð heimtar. Og þetta er víst, hitt óvíst, nær þetta muni verða. Ó! látum oss því ávallt vaka og biðja, ávallt viðbúna vera, þar vjer ekkert vitum nær kallið kemur; látum oss, á hverjum aldri sem vjer erum, hver sem vor staða er, hver vor kjör, nota þá tíð, sem guð gefur oss; hver sem hjer ríkuglega sáir, hann getur á síðan vænt ríkuglegrar uppskeru.

Og svo er það þá huggun vor allra, að allt, hvað guð gjörir, sje vel gjört, og vjer felum oss allir með lífi og sálu í hans mildu föðurhönd; svo að hvort sem vjer lifum, þá lifum vjer drottni, eða vjer deyjum, þá deyjum vjer drottni,

það er að segja, hvort sem vjer lifum eða deyjum, sjeum vjer drottins.

Já hans ertu einnig, sæli framliðni, þín jarðneska tjaldbúð hvílir í hans vernd, þín sála hjá hásæti hans. Hjer er þitt dupt, þinn æðri partur fór til betri átthaga; hjer var tilvera þín mæld við stund og stað, þar munu ár þín engan enda hafa; hjer skildist þú frá syrgjandi vinum og vandamönnum, þar mun á síðan sæll apturfundur bíða vor allra. Ó! drottinn blessi þig á landi lifandi manna, drottinn blessi þig og varðveiti, drottinn láti sína ásjónu lýsa yfir þig og sje þjer náðugur, drottinn upplypti sínu augliti yfir þig og gefi þjer frið. Amen.

# 4. Grafskript og erfiljóð.

## I. Grafskript.



In memoriam
mortui iuvenis,

**Jonae Jonaei,**

alumni scholae Reykjavicensis,
nat. 15. decemb. 1831, def. 13. decemb. 1853.

Saepe cantatum, properans ad umbras,
numen, a nulla domitum catena,
omnibus serum, aut radiante primo
sole paratum,

Heu, ciet mentis gemitum profundis,
et lyram irrorat lacrymis; Apollo
auream cogit citharam cupressi
flere sub umbra.

Tutus a mundo tumulo quiescis;
dira non a te removent soporem
bella, non vitae dolor anxius, non
ludus inanis.

Ultimum, vitae melius triumphis,
est decus, consors! tibi, ros doloris;
te quies condit tumulo, novorum
semine florum.

(Latínan snúin á íslenzku):

---

†

Til minningar

um

andaðan æskumann,

# Jón Jónsson,

lærisvein í Reykjavíkurskóla,

fæddan 15. desemb. 1831, dáinn 13. des. 1853.

---

Það guðdómsafl, sem opt hefur verið kveðið um, sem hraðar sjer til skugganna, sem er öllum búið, annaðhvort seint, eða með hinum fyrstu geislum morgunsólarinnar:

Æ, það vekur stunur í djúpum andans, og döggvar hörpuna með tárum; Apolló knýr hina gullnu gígju, svo hún grætur undir skugga sýprusviðarins.

Þú hvílir undir leiðinu, í friði fyrir heiminum; ekki bregður þú blundi, hvorki fyrir geigvænlegum stríðum, eða fyrir anguryærri áhyggju lífsins, og ekki fyrir fánýtum leiki.

Þú sem ert sömu forlögum undirorpinn og vjer! betri er þinn hinnsti heiður, en sigurhrós lífsins, því það er dögg harmanna; friðurinn felur þig undir leiði, með frækornum nýrra blóma.

## II. Erfiljóð.

†

Leið á löngum
leiðum skýja
nótt með niðdimmu
frá norður - hjara;
veifði hún blæju
um bogann háa
silfurbylgjandi
segulljósa.

Hugðist nótt
himin að tjalda
gullnum og gljáum
gleði - dúki —
ljeku ljósvendir
um loptsvalir
hárra, hveldra
himin- rjáfra.

Sveif þá svipmikill
svefnabróðir

móður móti,
frá moldbyggjendum —
flutti hann í faðmi
fölvum og mjúkum
liðið lík
fyrir ljettum vængjum.

„Ljáðu mjer ljósblæju,
„ljúfa móðir!
„blunda mjer að brjósti
„brostin augu;
„ljáðu mjer ljósblæju
„ljettra drauma,
„sefur mjer ei lengi
„sveinn í faðmi“.

„Bauð mjer hinn blíði
„buðlungur himna
„heilan og hraustan
„hann að sækja,
„og úr heims volki
„til himins flytja;
„ljáðu mjer ljósblæju,
„líður af blundur“.

Móðir fjekk megi
mar-gullinn dúk —
sveipaði hann silfri
sveininn liðna —

svo kveða svífa
sálir til himins
um hinn draumsæla
dauða - blund.

Lá hann á ljósum
ljóma - bólstrum
gullinna skýja
á Gimlis engi —
og blundi brá
fyrir björtu ljósi
alföður aleðlis
undur-skæru.

Liðinn ertu, Jón!
láðbyggjendum,
en lifandi
fyrir ljóss-englum;
móðir og bróðir
munu þig gráta,
en þú sjálfur
að sorgum brosir.

---

